(2

# FORNALDARSÖGUR NORÐRLANDA.

---

Búið hefir til prentunar

VALDIMAR ÁSMUNDARSON.

II. BINDI.



REYKJAVÍK.
KOSTNAÐARMAÐR: SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.
1886.



# Formáli.

—o—

Þetta hið annað bindi af *Fornaldarsögum Norðrlanda* er að miklu prentað eftir II. bindi af Fornaldarsögum þeim, er C. C. Rafn gaf út og prentað er í Kaupmannahöfn 1829.

Í þessu bindi eru alls tólf sögur og þættir; fyrstu þættirnir tveir eru hér prentaðir eftir útgáfu Flateyjarbókar, er út kom í Kristianíu 1860—68, enn Friðþjófs saga er hér út gefin eftir handriti á landsbókasafninu, er ritað er á ofanverðri 17. öld.

Stafsetning er hér nokkuð öðru vís enn í útgáfu Rafns.

Hér er gerðr greinarmunur á *æ* og *œ* eftir upphafleik; svo og á *ö* og *ø*, enn vera má, að stöku orð sé rituð með *ö*, er réttara hefði verið að rita með *ø*.

Allstaðar er ritað *ft*, enn eigi *pt*, þar sem rót orðsins eða skyld orð í útlendum málum benda á *ft*, enda er *ft* jafnan fram borið enn aldrei *pt*.

Samhljóðandi er eigi tvöfaldaðr fyrir framan samhljóðanda nema í eignarfalli: *manns*, *alls*.

Í endingum er víðast ritað tvöfalt *r* og *s*, þar sem svo hefir verið að kveðið að fornu, enn eigi er þeirri reglu fylgt allstaðar, heldr er í því farið eftir útgáfu Rafns, enn þar er þetta ýmist, og má af því sjá, að framburðrinn á *rr* og *ss* í enda orða hefir verið að breytast um þær mundir, er sögurnar vóru ritaðar.

Hér er ritað *e* enn eigi *é* í þátíð sagnorða fyrir framan tvo samhljóðendr: *fell*, *fekk*; því að víst er, að *e* er að upphafi stutt í þess-

um sagnmyndum, enda eru menjar þess enn í framburði. Þannig er borið fram *fekk* (enn eigi fékk) sumstaðar á landinu.

Hið framgenga (prógressíva) hljóðvarp *á* — *ó* — *o* er hér ritað með *ó*: *hvórr*, *svó*, þar sem það er ritað með *o* í hinni gömlu útgáfu, enn þar sem *á* er ritað í slíkum orðum í gömlu útg., er því enn haldið. Um þær mundir, er sögurnar vóru ritaðar, hefir þetta hljóðvarp verið að breytast í *ó*, er síðan hefir breyzt í *o*. Enn í dag helzt *ó* í flt. þát. sagnorðsins *vera*: *vórum*, *vóruð*, *vóru*, og sagnorðsins *koma*: *kómum*, *kómuð*, *kómu*, sumstaðar á landinu.

Fyrsta persóna fleirtölu í viðtengingarhætti endar hér ýmist á *im* eða *um*: *séim*, *séum*, og sýnir það, að ýmist hefir verið fram borið, þegar sögurnar vóru ritaðar. Er í því fylgt gömlu útgáfunni.

Hið sama er að segja um sagnendinguna *a* í viðtengingarh. og þát. sagna þeirra, er fleirkvæðar eru í þátið: *sagða*, *vilda*; er þar ýmist ritað *a* eða *i*. Endingin *a* í þessum sagnmyndum helzt þó enn í framburði sumstaðar á landinu.

Orðmyndin *hon* er hér allstaðar rituð, því að sú mynd hefir lengi haldizt, að minsta kosti í riti. Er svo ritað í handritum frá 17. öld, svo sem handriti því, er Friðþjófssaga er hér prentuð eftir.

Orðmyndirnar *þeira*, *þeirar*, *þeiri* eru ritaðar með einu erri.

Orðmyndirnar *nokkurr*, *nokkur*, *nokkut* eru ýmist ritaðar með *o* eða *ö*, enn réttast hefði verið að rita allstaðar *ö*, því að svo mun hafa verið að kveðið, þá er sögurnar vóru ritaðar. Sá framburðr mun hafa haldizt fram á 17. öld að minsta kosti. Í útgáfu Rafns er ritað *nokkrir*, *nokkrum* o. s. frv., enn það er með öllu rangt, enda er enn borið fram *nokkurir* (eða *nokkurjir*), *nokkurum* (*nokkurjum*) sumstaðar á landinu.

Smáorðið *enn* er hér ritað með tveimr ennum, hversu sem á stendr, eftir framburði og fornum rithætti.

Endingin *-legr* er rituð með *e*, og er það samkvæmt upphafleik og framburði.

Nú skal farið nokkurum orðum um hverja sögu í þessu bindi.

## I. Hversu Noregr bygðist.

Þessi þáttr er hér prentaðr eftir Flateyjarbók, I. bindi, bls. 21—24, Kriu, 1860.

## II. Fundinn Noregr.

Þessi þáttr er hér prentaðr eftir hinni sömu útgáfu Flateyjarbókar, I. bindi, bls. 219—221.

Stafsetningin á þessum þáttum er sem líkust þeirri, er fylgt er í

Flateyjarbók, þótt eigi sé brugðið af meginreglum þeim, er hér er annars fylgt.

**III. Hálfs saga ok Hálfsrekka**

er hér prentuð eftir útgáfu Bugges í „Det norske oldskriftselskabs samlinger“ VI. (Norrøne skrifter af sagnhistorisk indhold), Kriu, 1864—74. Bæði þar og í útgáfu Rafns er sagan prentuð eftir skinnbók 2845,4. í bóksafni Danakonungs, enn útgáfa Bugges er miklu betri enn Rafns. Af pappírshandritum má nefna nr. 202 b. fol. A. M., sem er með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti.

**IV. Af Upplendinga konungum.**

Þáttr þessi er hèr prentaðr eftir útgáfu Rafns, enn þar er hann tekinn úr Hauksbók nr. 544,4. A. M.

**V. Þorsteins saga Víkingsonar**

er hér prentuð eftir útgáfu Rafns, enn þar er hún prentuð eftir skinnbók nr. 152 fol. A. M., er talin er rituð snemma á 15. öld. Allmörg pappírshandrit eru til, enn öll munu þau óáreiðanlegri enn skinnbókin.

**VI. Friðþjófs saga ens frœkna**

er hér prentuð eftir handriti á landsbókasafninu; það er sögubók, rituð á ofanverðri 17. öld, og er nr. 27 í arkarbroti í handritasafni Jóns Sigurðssonar. Þetta er hin styttri sagan, eða hin sama sem prentuð er með smáletri í II. bindi af útg. Rafns, bls 488—503, og er þar prentað eftir skinnbók nr. 510,4. A. M., enn handrit það, er sagan er hér prentuð eftir, virðist öllu betra; að minsta kosti eru sumar vísurnar hér réttari. Hin lengri Friðþjófssaga er prentuð í útgáfu Rafns, bls. 61—100, og er hún nokkuð fyllri enn alls eigi fornlegri, enda er hún prentuð eftir pappírshandriti, er ritað hefir Ásgeir Jónsson, skrifari Þormóðs Torfasonar.

**VII., VIII. Ketils saga hængs og Gríms saga loðinkinna**

eru hér prentaðar eftir útgáfu Rafns, enn þar eru sögur þessar prentaðar eftir skinnbókinni (*A*) nr. 343,4. A. M., sem er talin rituð á 14. öld. Skinnbókin *B* nr. 471,4. A. M. er rituð á 15. öld eða síðar. Pappírshandrit hafa og verið við höfð.

**IX. Örvar-Odds saga**

er hér prentuð eftir útgáfu Rafns. Enn þar er sagan prentuð eftir tveim hinum sömu skinnbókum, sem Ketils saga hængs og Gríms loðinkinna eru prentaðar eftir og pappírshandriti (*E*) 173 fol. A. M., er skrifað hefir Ásgeir Jónsson, og fleiri pappírshandritum. Enn

hefir og verið höfð við þá útgáfu skinnbók nr. 76 b, 4. A. M. Add. (*M*). Við ævidrápuna er og getið um orðamun í „Sýnishorni“ Rasks, Sth. 1819 (*R*), og er drápan þar tekin eftir pappírshandriti. Í útgáfu Rafns er önnur frásögn Örvar Odds sögu, er prentuð er síðast í II. bindi í útgáfu Rafns með smáletri, bls 504—59, og er saga sú prentuð þar eftir skinnbók nr. 7,4. í bókhlöðu konungs í Stokkhólmi. Þessi saga virðist vera eldri, enn er töluvert styttri, og í hana vantar á sumum stöðum. Er henni því slept hér.

### X. Áns saga bogsveigis

er hér prentuð eftir útgáfu Rafns, enn þar er hún prentuð eftir skinnbók nr. 343,4. A. M., sem áðr er getið, og nokkurum pappírshandritum. Er hér til færðr orðamunr úr einu þeirra (*E*), sem er nr. 173 fol. A. M.

### XI. Hrómundar saga Greipssonar

er hér prentuð eftir útgáfu Rafns, enn þar er hún prentuð eftir pappírshandriti 587,4. A. M., er Ásgeir Jónsson hefir ritað.

### XII. Ásmundar saga kappabana

er hér prentuð eftir útgáfu Rafns, enn þar er hún prentuð eftir skinnbók nr. 7,4. í bóksafni konungs í Stokkhólmi, sem áðr er getið.

Stjarna * merkir, að vísuorð þau, er hún stendr við, muni úr lagi færð. Þar sem stafir eða orð eru úr skáletri, þýðir það, að svo er til getið og að öðru vís stendr í handritunum eða hinum prentuðu útgáfum.

Að síðustu skal þetta athugað:

Bls. $24_1$ 'getta' heldr Svb. Eg. að sé = genta, stúlka, enn Bugge heldr að það sé tæpinafn = Geirhildr. Bls. $25_{31}$ 'mynni' er ritað minni. Bls. $29_{20}$ 'kvett' heldr K. G. að sé = kveitt (af kveittr) = velgt. Bls. $37_{19}$ stendr kœmizt f. kœmist. Bls. $44_{14}$ 1. dálki 'angs' f. angrs. Bls. $55_1$ í fyrirsögninni 'hefir' f. hefr. Bls. $61_{24}$ 'héldum' f. heldum. Bls. $65_{19}$ 'nœtr' f. nætr. Bls. $96_{20}$ 'yrðut' f. yrðuð. Bls. $93_7$ 'úrskurð' f. órskurð. Bls. $89^1$ 'hvóptana' f. hvóftana. Bls. $120_{21}$ 'klökkva' f. kløkkva. Bls. $145_{24}$ 'Hér mun ek þiggja', gæti verið: hús mun ek þiggja. Bls. $148_1$ 1. dálki 'heilum hug', er líklega réttara: heilum hag (*B*). Bls. $152_{35}$ 'drep ek', gæti verið: dríf ek. Bls. $153_5$ 2. dálki 'myrkviða', gæti verið myrkriðu = tröllkonu (ek fann á minni götu), enn þá ætti að vera semikomma á undan og 'hvatki'

mætti falla burt. Bls. $153_{28}$ 'gefit' gæti verið: gefin. Bls. $157_{15}$ 'reyndr' heldr dr. J. Þ. að eigi að vera: hremdr, og bls. $157_{18}$ léttum' eigi að vera: ungum. Bls. $159_{2}$ 1. d. 'at hrøkkva mundi' gæti verið: at mundi hrøkkva. Bls. $159_{18}$ 'þó bilat sinn þriðja'. *B* hefir: ef bilar hinn þriðja, og er það skiljanlegra. Bls. $165_{35}$ 'Hrímnis mellur'. *B* hefir: Rögnis mellur. Bls. $223_{30}$ stendr: 'nýrra leik' f. nýja leik (leik kvk.). Bls. $264_{17}$ 'röggmiklaðar'. Styttri sagan í útg. Rafns hefir róg-miklaðra, og er það skiljanlegra. Bls. $265_{18}$ 'Sæund'. Styttri sagan hefir Sævið allstaðar, og er það að líkindum upphaflega. Bls. $272_{4}$ 2. d. stendr: 'á eldi' f. í eldi. Bls. $272_{26}$ 'í elli draga'. *B* og *M* hafa: í eld draga, og mun það réttara. Bls. $284_{24}$ 'Ölvarar'. Styttri sagan hefir allstaðar Ölvör, og er það nafn (eða Alvör) upphaflegra enn Álfvör.

Ef vel hefði verið, hefði þurft að bera saman öll hin elztu og beztu handrit sem til eru af sögum þessum, enn með því að þess var eigi kostr, þótti réttast að fara að mestu eftir hinum prentuðu útgáfum.



# Hversu Noregr bygðist.

---

Nú skal segja dœmi til, hversu Noregr bygðist í fyrstu, eðr hversu konunga ættir hófust þar eðr í öðrum löndum, eðr hví þeir heita Skjöldungar, Buðlungar, Bragningar, Öðlingar, Völsungar eðr Niflungar, sem konunga ættirnar eru af komnar. Fornjótr hét maðr; hann átti þrjá sonu; var einn Hlér, annarr Logi, þriði Kári; hann réð fyrir vindum, enn Logi fyrir eldi; Hlér fyrir sjó. Kári var faðir Jökuls föður Snæs konungs; enn börn Snæs konungs vóru þau Þorri, Fönn, Drífa ok Mjöll. Þorri var konungr ágætr. Hann réð fyrir Gotlandi, Kønlandi ok Finnlandi. Hann blótuðu Kønir til þess, at snjóva gerði ok væri skíðfœri gott; þat er ár þeira; þat blót skyldi vera at miðjum vetri, ok var þaðan af kallaðr Þorra mánaðr. Þorri konungr átti þrjú börn; synir hans hétu Nórr ok Górr, enn Gói dóttir. Gói hvarf á brott, ok gerði Þorri blót mánaði síðar enn hann var vanr at blóta, ok kölluðu þeir síðan þann mánað, er þá hófst, Gói. Þeir Nórr ok Górr leituðu systur sinnar. Nórr átti bardaga stóra



# Hversu Noregr bygðist.

Nú skal segja dœmi til, hversu Noregr bygðist í fyrstu, eðr hversu konunga ættir hófust þar eðr í öðrum löndum, eðr hví þeir heita Skjöldungar, Buðlungar, Bragningar, Öðlingar, Völsungar eðr Niflungar, sem konunga ættirnar eru af komnar. Fornjótr hét maðr; hann átti þrjá sonu; var einn Hlér, annarr Logi, þriði Kári; hann réð fyrir vindum, enn Logi fyrir eldi; Hlér fyrir sjó. Kári var faðir Jökuls föður Snæs konungs; enn börn Snæs konungs vóru þau Þorri, Fönn, Drífa ok Mjöll. Þorri var konungr ágætr. Hann réð fyrir Gotlandi, Kønlandi ok Finnlandi. Hann blótuðu Kønir til þess, at snjóva gerði ok væri skíðfœri gott; þat er ár þeira; þat blót skyldi vera at miðjum vetri, ok var þaðan af kallaðr Þorra mánaðr. Þorri konungr átti þrjú börn; synir hans hétu Nórr ok Górr, enn Gói dóttir. Gói hvarf á brott, ok gerði Þorri blót mánaði síðar enn hann var vanr at blóta, ok kölluðu þeir síðan þann mánað, er þá hófst, Gói. Þeir Nórr ok Górr leituðu systur sinnar. Nórr átti bardaga stóra

fyrir vestan Kjölu, ok fellu fyrir honum þeir konungar, er svá heita: Vee ok Vei, Hundingr ok Hemingr, ok lagði Nórr þat land undir sik alt til sjóvar. Þeir brœðr fundust í þeim firði, er nú er kallaðr Norafjörðr. Nórr fór þaðan upp á Kjölu ok kom þar, sem heita Úlfamóar; þaðan fór hann um Eystri-Dali, ok síðan í Vermaland, ok með vatni því, er Vænir heitir, ok svá til sjóvar. Þetta land alt lagði Nórr undir sik, alt fyrir vestan þessi takmörk; þetta land er nú kallaðr Noregr. At miðjum vetri kómu þeir í Heiðmörk; þar var sá konungr fyrir, er Hrólfr í Bergi hét; hann var son Svaða jötuns norðan af Dofrum, ok Áshildar, dóttur Eysteins konungs, er lengi hafði ráðit fyrir He[iðmörk]. Hrólfr í Bergi hafði tekit Gói ok gengit at eiga hana; enn er hon spurði til Nórs bróður síns, þá fór hon í mót honum, ok þau Hrólfr, ok gaf hann sik upp í vald Nórs ok gerðist hans maðr. Eftir þat fór Nórr til veizlu til mágs síns, ok fekk Nórr Höddu, dóttur Svaða jötuns, systur Hrólfs. Eftir þat fór Nórr konungr vestr aftr til sjóvar, ok þá hitti hann Gór bróður sinn. Hann var þá kominn norðan ór [Dumbs]hafi, og hafði eignazt eyjar allar á þeiri leið, bæði bygðar ok óbygðar. Þá skiftu þeir brœðr ríkinu með sér, svá at Nórr skyldi hafa meginland alt norðan frá Jötunheimum ok suðr til álfheima; þat heitir nú Noregr; enn Górr skyldi hafa eyjar allar, þær er lágu á bakborða elliða h[ans], er hann fœrði norðan með landi. Þeir vóru synir Górs sækonungs: Beiti ok Heiti, Meitir ok Geitir. Beitir sækonungr fór með elliða inn í Þróndheim, ok inn í Beitsjó; hann lét gera skipsleða undir elliðann, enn snjór var mikill og sleðfœri gott; þá settist Beitir í lyfting, ok lagði stýri í lag ok lét draga upp segl, ok lét menn sína draga elliðann norðr um Elliða-eið til

Naumudals, ok eignaði sér land alt þat, er lá á bakborða. Beiti sækonungr var faðir Heita sækonungs, föður Svaða; enn Geitir var faðir Glamma ok Gylfa. Meiti sækonungr var faðir Mæfils ok Myndils; Myndill var faðir Ekkils ok Skekkils. Nórr var faðir þessarra manna, enn Hödd, dóttir Svaða, móðir: Þrándar ok Garðs, er kallaðr var agði; enn er þeir skiftu arfi, þá hlaut Þrándr Þrándheim, ok heitir því svá. Garðr agði var faðir þeira, er svá heita: Hörðr, Rúgálfr, Þrymr, Végarðr, Freygarðr, Þorgarðr ok Grjótgarðr. Hörðr hlaut Hörðaland ór skifti. Hans son var Jöfurr eðr Jösurr, faðir Hjörs konungs, föður Hjörleifs hins kvensama. Rúgálfr átti Rogaland; hans son var Rögnvaldr, faðir Ögvalds konungs. Þrymr átti Agðir; hans son var Agði ok Agnarr, faðir Ketils þryms, er bú átti í Þrumu. Végarðr átti Sygnafylki; hann var faðir Veðrorms, föður Vémundar hins gamla, er Sygnatrausti kallaðist. Freygarðr átti Fjörðu ok Fjalir; hans synir vóru þeir Freysteinn gamli, er bú átti á Gaulum, ok Freybjörn, faðir Auðbjarnar, föður Arinbjarnar Firða jarls. Þorgarðr átti Sunnmœri; hans son var Þorviðr, faðir Arnviðar tréserkjabana, föður þeira Slæviðar ok Bráviðar. Grjótgarðr átti Norðmœri; hans son var Salgarðr, faðir Grjótgarðs, föður Sölva, föður Högna í Njarðey, föður Sölva víkings ok Hildar hinnar mjóvu, er átti Hjörleifr hinn kvensami. Hálfr berserkr var þeira son. Annarr son Grjótgarðs var Sigarr, faðir Signýjar, er átti Haraldr Naumdœla jarl, faðir Herlaugs, föður Grjótgarðs, föður Hákonar jarls, föður Sigurðar jarls, föður Hákonar Hlaðajarls. Raumr son Nórs konungs tók ríki eftir feðr sinn; hann átti Álfheima, ok svá vítt ríki sem ár þær falla er þar spretta upp; þaðan fellr Lögrinn austan um dal í Mjörs, enn þaðan Vermá í

Raumelfi, enn hon til sjóvar; af Vermá fellr Raumá ofan eftir Raumsdal; af Vermá fellr Eystri-Elfr um Eystri-Dali ok í Væni, enn þaðan Gautelfr til sjóvar. Raumr konungr átti samdrykkju um jól við Bergfinn son Þryms jötuns af Vermá, ok gekk þá í rekkju Bergdísar systur hans; ok eftir þat gat hon þrjá sonu, Björn, Brand ok Álf; hann fóstraði Bergfinnr, ok var kallaðr Finnálfr. Björn var með móður sinni, ok var kallaðr Jötunbjörn. Brand sendi hon Rauma föður hans; enn hann gaf hann guðunum, ok var hann kallaðr Guðbrandr; honum gaf Raumr konungr dali þá, er Guðbrandsdalir heita; Jötunbirni gaf hann Raumsdal, enn Álfi Eystri-Dali ok alt fyrir norðan Væni, ok frá Gautelfi ok norðr til Raumelfar; þat vóru þá kallaðir Álfheimar. Guðbrandr Dalakonungr var faðir Auðleifs, föður Guðmundar konungs; hans son var Guðbrandr, er ei vildi láta kalla sik konung, ok lét gefa sér jarls nafn, fyrir því, at hann vildi vera ríkastr jarl á Norðrlöndum; hans son var Geirmundr jarl, faðir Hróðgeirs jarls, föður Guðbrands, er ei vildi vera konungr né jarl ok lét gefa sér hersis nafn, ok réð þó löndum sem konungr, ok at engu var hann óríkari; hans allir ættmenn vóru síðan hersar. Jötunbjörn hinn gamli var faðir Raums konungs, föður Hrossbjarnar, föður Orms skeljamola, föður Knattar, föður þeira Þórólfs hálma ok Ketils raums. Synir Þórólfs vóru þeir Helgi, faðir Bersa, föður Þormóðs, föður Þórlaugar, móður Tungu-Odds. Finnálfr hinn gamli fekk Svanhildar, er kölluð var gullfjöðr; hon var dóttir Dags Dellingssonar ok Sólar, dóttur Mundilfara; sonr þeira var Svanr hinn rauði, faðir Sæfara, föður Úlfs, föður Álfs, föður þeira Ingimundar ok Eysteins. Raumr hinn gamli fekk síðar Hildar, dóttur Guðrøðar hins gamla, sonar Sölva konungs, er fyrstr ruddi þar sem

nú heita Sóleyjar; enn synir hans vóru þeir Guðrøðr, Haukr, Haddingr ok Hringr. Guðrøðr var konungr eftir feðr sinn, ok konungar vóru allir hans ættmenn. Eysteinn illráði var hans son; hann setti Innþrændum hund sinn fyrir konung, er Saurr hét, fyrir þat er þeir höfðu drepit Önund son hans, er hann hafði þar sett til landsgæzlu.

### *Ættartala frá Höð.*

II. Höðr átti þar ríki er kallat er Haðaland; hans son var Höddbroddr, faðir Hrólfs, föður Hrómundar berserks, föður þeira Hámundar, Haka ok Gunnlaðar móður þeira Útsteins ok Innsteins. Hámundr var Hörða jarl; hann var faðir Hróks hins svarta ok Hróks hins hvíta. Haki var faðir Hróðgeirs, föður Hróðmars, föður Haka berserks; Gunnlöð var dóttir Hróks hins svarta, enn móðir Hrómundar Gripssonar. Haddingr son Rauma átti Haddingjadal ok Þelamörk; hans son var Haddingr, faðir Haddings, föður Högna ens rauða. Eftir hann tóku ríki Haddingjar þrír, ok var hverr þeira eftir annan. Helgi Haddingjaskati var með einum þeira. Hringr konungr son Rauma átti Hringaríki ok Valdres; hann fekk dóttur Vífils sækonungs; þeira son var Hálfdan gamli; ok þá er hann tók konungdóm, gerði hann blót mikit at miðjum vetri, ok blótaði til þess, at hann skyldi mega lifa þrjú hundruð vetra í konungdómi sínum, sem sagt var, at lifat hefði Snær hinn gamli; enn fréttin sagði honum svá, at hann mundi lifa ekki meir enn einn mannsaldr, enn þat mundi vera þrjú hundruð vetra, at engi mundi vera ótiginn maðr í hans ætt ok engi kona. Hann var hermaðr mikill ok herjaði víða um Austrveg; þar drap hann þann konung, er Sigtryggr hét, í einvígi. Hann

gekk at eiga Álfnýju dóttur Eymundar konungs ór Hólmgarði; þau áttu níu sonu. Hét einn Þengill, er kallaðr var Mannaþengill, Ræsir, Gramr, Gylfi, Hilmir, Jöfurr, Tiggi, Skyli ok Harri. Þessir níu er sagt, at allir væri jafngamlir, ok urðu svá ágætir, at í öllum frœðum eru þeira nöfn höfð fyrir tignar nöfn ok konunga nöfn; svá er sagt, at engi þeira ætti börn, ok fellu allir senn í orrostu. Enn áttu þau aðra níu sonu; hétu þeir Hildir, Næfill, Auði, Skelfir, Dagr, Bragi, Buðli, Lofði, Sigarr. Hildir, Sigarr ok Lofði vóru allir herkonungar; Auði, Buðli ok Næfill vóru sækonungar; Dagr, Skelfir ok Bragi sátu at löndum. Dagr átti Þóru drengjamóður, ok áttu þau níu sonu; hét einn Óli, annarr Ámr, þriði Jöfurr, fjórði Arngrímr. Óli var faðir Dags, föður Óleifs, föður Hrings, föður Óláfs, föður Helga, föður Sigurðar hjartar, föður Ragnhildar, móður Haralds hins hárfagra; sú ætt Haralds var kölluð Döglingar. Arngrímr átti Eyfuru; þeira son var Angantýr berserkr. Bragi gamli var konungr á Valdresi; hann var faðir Agnars, föður Álfs, föður Eireks, föður Hildar, móður Hálfdanar ens milda, föður Guðrøðar, föður Hálfdanar svarta, föður Haralds hins hárfagra; þessi ætt Haralds heita Bragningar. Skelfir var konungr á Vörs; hans son var Skjöldr, faðir Eireks, föður Alreks, föður Eireks hins málspaka, föður Alreks hins frœkna, föður Víkars, föður Vatnars, föður þeira Ímalds ok Eireks, föður Gyðu, er átti Haraldr enn hárfagri; þat heitir Skilfinga ætt eðr Skjöldunga ætt. Hildir var enn fimti son Dags[1]; hann var faðir Hildibrands, föður Vígbrands, föður Hildis ok Herbrands, föður Haralds

1) 'Hilldir var enn .v. sun Dags' *Flb.* Ætti að vera eftir röðinni: 'enn fjórði son Hálfdanar'.

ens grenska, föður Ásu hinnar stórráðu, móður Hálfdanar svarta, föður Haralds hins hárfagra. Sigarr var faðir Siggeirs, er átti Signýju, dóttur Völsungs konungs; Sigarr var ok faðir Sigmundar, er átti Hildi, dóttur Grjótgarðs konungs af Mœri; hans son hét Sigarr, *faðir* Signýjar; hann lét hengja Hagbarð; þat heitir Siklinga ætt. Lofði var konungr mikill; þat herlið, er honum fylgdi, eru Lofðar kallaðir; hann herjaði á Reiðgotaland, ok varð þar konungr; hans synir vóru þeir Skekkill sækonungr ok Skyli, faðir Egðis, föður Hjálmþérs, föður Eylima, föður Hjördísar, móður Sigurðar fáfnisbana, föður Áslaugar, móður Sigurðar orms i auga, föður Áslaugar, móður Sigurðar hjartar, föður Ragnhildar, móður Haralds hins hárfagra; þessir ættmenn Haralds eru kallaðir Lofðungar. Auði ok Buðli vóru sækonungar ok fóru báðir saman með her sinn; þeir kómu með liði sínu til Saxlands ok herjuðu þar víða, lögðu undir sik Valland ok Saxland; settust þar at löndum. Auði hafði Valland, ok var faðir Fróða, föður Kjárs, föður Ölrúnar; þat eru kallaðir Öðlingar. Buðli hafði Saxland; hann var faðir Attils, föður Vífils, föður Læfa[1], föður Buðla, föður Sörla eða Serla ok Atla og Brynhildar, móður Áslaugar; ok er sú ætt Haralds hins hárfagra kölluð Buðlungar. Næfill konungr var faðir Heimars, föður Eynefs, föður Rakna[2], föður Gjúka, föður þeira Gunnars ok Högna, Guðrúnar, Guðnýjar ok Gullrandar; ok er þat kölluð Niflunga ætt. Nú eru taldar konur þær, er fyrst kómu í ætt Hálfdanar gamla; enn þá er hin fyrsta kona kom i ættina, var liðit þrjú hundruð vetra frá blótinu, er Hálfdan blótaði til aldrs sér ok ríkis.

---

1) Læfua *Flb.*
2) [R]akn *Flb.*

*Ættartala.*

III. Álfr konungr hinn gamli réð fyrir Álfheimum. Hann var faðir Álfgeirs, föður Gandálfs, föður Álfhildar; Álfhildr var móðir Ragnars loðbrókar, föður Sigurðar orms í auga, föður Áslaugar, móður Sigurðar hjartar, föður Ragnhildar, móður Haralds hins hárfagra. Haraldr hinn gamli, son Valdars hins milda Hróarssonar, átti Hervöru Heiðreks dóttur konungs; þeira son var Hálfdan snjalli, faðir Ívars víðfaðma, föður Auðar innar djúpauðgu; hana átti Hrœrekr sløngvanbaugi; þeira son var Haraldr hilditönn; síðar átti Auði Raðbarðr konungr; þeira son var Randvér, faðir Sigurðar hrings, föður Ragnars loðbrókar, föður Sigurðar, föður Áslaugar, móður Sigurðar, föður Ragnhildar, móður Haralds hins hárfagra, er fyrstr var einvalds konungr yfir Noregi.

*Ættartala Haralds frá Óðni.*

IV. Burri hefir konungr heitit, er réð fyrir Tyrklandi. Hans son var Burr, er var faðir Óðins Ásakonungs, föður Freys, föður Njarðar, föður Freys, föður Fjölnis, föður Svegðis, föður Vanlanda, föður Visburs, föður Dómalda, föður Dómars, föður Dyggva, er vér köllum Tryggva, föður Dags, föður Agna skjálfarbónda, föður Alreks, föður Yngva, föður Jörmunfróða, er vér köllum Jörund, föður Ána ens gamla, er vér köllum Aun, er níu vetr drakk horn fyrir elli sakir áðr hann dó. Aunn var faðir Egils Tunnadólgs, föður Óttars vendilkráku, föður Aðils at Uppsölum, föður Eysteins, föður Yngvars hins hára, föður Brautönundar, föður Ingjalds ens illráða, föður Óláfs trételgju, föður Hálfdanar hvítbeins, föður Eysteins, föður Hálfdanar ens milda ok

matarilla, föður Guðrøðar veiðikonungs, föður Hálfdanar svarta, föður Haralds hins hárfagra.

*Ættartala.*

V. Skjöldr hét son Óðins Ásakonungs. Hann var faðir Friðleifs, föður Friðfróða, föður Friðleifs, föður Hávarðs ens handramma, föður Fróða, föður Vermundar ens vitra, föður Óláfs ens lítilláta, föður Dans ens mikilláta, föður Fróða ens friðsama, föður Friðleifs, föður Fróða ens frœkna, föður Ingjalds Starkaðarfóstra, föður Hrœreks hnøggvanbauga, föður Hálfdanar, föður Hrœreks sløngvanbauga, föður Haralds hilditannar; bróðir Haralds var Randvér, faðir Sigurðar hrings; er þá slík ættartala til Haralds konungs hárfagra, sem fyrr segir.

*Ætt Haralds frá Adam.*

VI. Adam skapaði guð fyrst allra manna. Seth var son hans, hans son Enos, hans son Kaynán, hans son Malaleel, hans son Pharett, hans son Enoch, hans son Mathusalem hinn gamli, hans son Lámech; þá var úti enn fyrsti heimsaldr; hans son var Nói, er örkina smíðaði, hans son Japhet, hans son Japhan, hans son Zechim, hans son Ciprus, hans son Cretus eðr Celius, hans son Saturnus í Krít, hans son Jupiter, hans son Darius, hans son Erichonius, hans son Troeg, hans son Ilus, hans son Lamidon, hans son Príamus höfuðkonungr. Munnon eða Mennon hét konungr í Trója; hann átti Troánam, dóttur Priami konungs; hans son hét Tror, er vér köllum Þór, hans son var Loricha, er vér köllum Hlórriða, hans (son) Eredei, er vér köllum Eindriða, hans son Vingiþórr, hans son Vinginer, hans son Móði, hans son Mági, er vér köllum Magna, hans

son Seseph, hans son Beduigg[1], hans son Atra, hans son Trinán, hans son Heremoth, er vér köllum Hermóð, hans son Skjaldin, er vér köllum Skjöld, hans son Beaf, er vér köllum Bjár, hans son Goðólfr, hans son Burri, er vér köllum Finn, hans son Frjalafr, er vér köllum Bors, hans son Voden, er vér köllum Óðinn; hann var Tyrkja konungr; hans son Skjöldr, hans son Friðleifr, hans son Friðfróði, hans son Herleifr, hans son Hávarr enn handrammi, hans son Fróði, hans son Vémundr enn vitri, hans dóttir Ólof; hon var móðir Fróða ens friðsama, hans son Friðleifr, hans son Fróði enn frœkni, hans son Hálfdan, hans son Hróarr, hans son Valdarr enn mildi, hans son Haraldr gamli, hans son Hálfdan snjalli, hans son Ívarr víðfaðmi, hans dóttir Auðr en djúpauðga, hennar son Randvér, hans son Sigurðr hringr, hans son Ragnarr loðbrók, hans son Sigurðr ormr í auga, hans dóttir Áslaug, hennar son Sigurðr hjörtr, hans dóttir Ragnhildr, hennar son Haraldr konungr hinn hárfagri; verðr þessi tala einum manni fátt í sjau tugu at meðtöldum bæði Adam ok Haraldi.

### *Hverir konungar stýrt hafa Noregi.*

VII. Son Haralds hárfagra hét Sigurðr hrísi; hans son Hálfdan, hans son Sigurðr sýr, hans son Haraldr hinn harðráði, bróðir Óláfs ens helga, hans son Óláfr kyrri, hans son Magnús berbeinn, hans son Haraldr gilli, hans son Sigurðr munnr, hans son Sverrir magnus, hans son Hákon harmdauði, hans son Hákon gamli, hans son Magnús, er lögbók sendi til Íslands, þá er kölluð er Jónsbók, hans son Hákon háleggr, hans dóttir Ingibjörg, hennar son Magnús góði Eiríksson langa

1) Þannig *Flb.*

hertoga; hans son Hákon, hans son Óláfr, er þá var tíu vetra, er faðir hans andaðist; hann var konungr yfir Noregi, Danmörk ok öllum þeim skattlöndum, er þar liggja til, ok réttr erfingi alls Svíaríkis, er Albrikt, son Mækinborgargreifa, helt; hann var systurson Magnúss konungs góða, föðurföður Óláfs. Þessi Óláfr var heitinn eftir hinum heilaga Óláfi konungi Haraldssyni eftir sjálfs hans tilvísan. Hann var þá konungr, er sjá bók var skrifuð. Þá var liðit frá hingatburð várs herra Jesú Kristí .m.ccc.l.xxx. ok .vij. ár.

*Capitulum.*

VIII. Þessir hafa stýrt Noregi: Óláfr konungr, sem nú sagði, þá Hákon konungr, þá Magnús konungr góði, þá Hákon háleggr, þá Eirekr ok Magnús, þá Magnús, er bókina setti, þá Hákon ungi jafnfram Hákoni gamla föður sínum, þá Ingi Bárðarson ok Erlingr steinveggr ok Philippus Baglakonungr, þá Hákon harmdauði, þá Sverrir magnus ok margr lygikonungr um hans daga; þá Magnús Erlingsson ok Eysteinn birkibeinn, þá Hákon herðibreiðr, þá Ingi kryplingr ok Eysteinn ok Sigurðr munnr, þá Haraldr gillikristr ok Magnús blindi ok Sigurðr slembidjákn, þá Sigurðr Jórsalafari, Eysteinn ok Óláfr, þá Magnús berbeinn ok Hákon Þórisfóstri, þá Óláfr enn kyrri ok Magnús, faðir Hákonar Þórisfóstra, þá Haraldr hinn harðráði, þá Magnús enn ríki, son Óláfs ens helga, þá óforsynju-konungr Sveinn Alfífuson ok Knútr enn ríki, þá Óláfr hinn helgi Haraldsson, þá Eirekr, jarl, Sveinn jarl ok Hákon jarl, þá Óláfr Tryggvason, þá Hákon blótjarl enn ríki; þá Haraldr gráfeldr, þá Hákon Aðalsteinsfóstri, þá Eirekr blóðøx, þá Haraldr hinn hárfagri, er fyrstr var einvaldskonungr yfir öllum Noregi, svá at sögur finnist til.

### *Hvarf Óláfs konungs Hákonarsonar.*

IX. Ári síðar enn fyrr segir hvarf Óláfr konungr Hákonarson; sögðu Danir hann dauðan, enn Norðmenn vildu ekki trúa því. Þá var tekin til ríkisstjórnar yfir Noreg ok Danmörk drotning Margréta, móðir Óláfs konungs, enn dóttir Valdamars Danakonungs, eftir er hon lét fanga Albrikt.



# Fundinn Noregr.

Fornjótr hefir konungr heitit. Hann réð fyrir J
landi(!), er kallat (er) Finnland ok Kvenland; þat er fy
austan hafsbotn þann, er gengr til móts við Gandv
þat köllu vér Helsingjabotn. Fornjótr átti þrjá sy
hét einn Hlér, er vér köllum Ægi, annarr Logi, þ
Kári; hann var faðir Frosta, föður Snæs hins gam
hans son hét Þorri; hann átti tvá syni, hét anna
Nórr, enn annarr Górr; dóttir hans hét Gói. Þorri v
blótmaðr mikill; hann hafði blót á hverju ári at mi
um vetri, þat kölluðu þeir þorrablót; af því tók má
aðrinn heiti. Þat var tíðinda einn vetr at þorrabló
at Gói hvarf í brott, ok var hennar leita farit, ok fi
hon eigi; ok er sá mánaðr leið, lét Þorri fá at blóti
blóta til þess, er þeir yrði vísir, hvar Gói væri ni
komin; þat kölluðu þeir góiblót; einskis urðu þeir ví
um hana at heldr. Þrim vetrum síðar strengdu þ
brœðr heit, at þeir skyldu hennar leita, ok skifta s
leitinni, at Nórr skyldi leita um löndin, enn Górr sky
leita um útsker ok eyjar, ok fór hann á skipum; hv
tveggi þeira brœðra var fjölmennr. Helt Górr skipu
sínum út eftir hafsbotnum ok svó í Allanzhaf(!); síða
kannar hann víða Svíasker ok allar eyjar, er liggja



# Fundinn Noregr.

---

Fornjótr hefir konungr heitit. Hann réð fyrir Jótlandi(!), er kallat (er) Finnland ok Kvenland; þat er fyrir austan hafsbotn þann, er gengr til móts við Gandvík; þat köllu vér Helsingjabotn. Fornjótr átti þrjá syni; hét einn Hlér, er vér köllum Ægi, annarr Logi, þriði Kári; hann var faðir Frosta, föður Snæs hins gamla; hans son hét Þorri; hann átti tvá syni, hét annarr Nórr, enn annarr Górr; dóttir hans hét Gói. Þorri var blótmaðr mikill; hann hafði blót á hverju ári at miðjum vetri, þat kölluðu þeir þorrablót; af því tók mánaðrinn heiti. Þat var tíðinda einn vetr at þorrablóti, at Gói hvarf í brott, ok var hennar leita farit, ok finst hon eigi; ok er sá mánaðr leið, lét Þorri fá at blóti ok blóta til þess, er þeir yrði vísir, hvar Gói væri niðrkomin; þat kölluðu þeir góiblót; einskis urðu þeir vísir um hana at heldr. Þrim vetrum síðar strengdu þeir brœðr heit, at þeir skyldu hennar leita, ok skifta svá leitinni, at Nórr skyldi leita um löndin, enn Górr skyldi leita um útsker ok eyjar, ok fór hann á skipum; hvórtveggi þeira brœðra var fjölmennr. Helt Górr skipum sínum út eftir hafsbotnum ok svó í Allanzhaf(!); síðan kannar hann víða Svíasker ok allar eyjar, er liggja í

Eystrasalti; eftir þat í Gautasker, ok þaðan til Danmerkr, ok kannar þar allar eyjar; hann fann þar frændr sína, þá er komnir vóru af Hlé hinum gamla ór Hlésey, ok helt hann þá enn fram ferðinni ok spyrr ekki til systur sinnar. Enn Nórr bróðir hans beið þess, er snjó lagði á heiðar ok skíðfœri gerði gott; eftir þat fór hann af Kvenlandi ok fyrir innan hafsbotninn, ok kvómu þar er þeir menn vóru, er Lappir heita; þat er á bak Finnmörk; enn Lappir vildu banna þeim yfirför, ok tókst þar bardagi; ok sá kraftr ok fjölkyngi fylgdi þeim Nór, at óvinir þeira urðu at gjalti, þegar þeir heyrðu heróp ok sá vópnum brugðit, ok lögðu Lappir á flótta. Enn Nórr fór þaðan vestr á Kjölu, ok var lengi úti, ok svá, at þeir vissu ekki til manna, ok skutu dýr ok fugla til matar sér; fóru þar til, er vötn hnigu til vestrættar af fjöllum; þá fara þeir með vötnunum, ok kvómu at sjá. Þar var fyrir þeim fjörðr mikill, sem hafsbotn væri; þar vóru bygðir miklar, ok dalir stórir gengu at firðinum; þar var safnaðr fyrir þeim, ok réðu þeir þegar til bardaga við Nór, ok fór þeira skifti eftir vana: alt fólk fell þar eðr flýði; enn Nórr ok hans menn gengu yfir sem log yfir akra. Fór Nórr um allan fjörðinn ok lagði undir sik, ok gerðist konungr yfir þeim heruðum, er þar lágu innan fjarðar. Nórr dvaldist þar um sumarit, þar til er snjávaði á heiðar; þá stefndi hann upp eftir dalnum þeim, er suðr gengr af firðinum; sá fjörðr er nú kallaðr Þrándheimr; suma menn sína lætr hann fara hit fremra um Mœrina. Hann lagði undir sik hvar sem hann fór; ok þá er hann kemr suðr yfir fjallit þat, er var fyrir sunnan dalsbotninn, sótti hann suðr eftir dölunum, þar til er hann kom at vatni miklu, er þeir kölluðu Mjörs; þá snýr hann enn vestr á fjallit, því at honum var sagt, at menn

hans höfðu farit ósigr fyrir konungi þeim, er Sókni hét. Þá kvómu þeir í þat herað, er þeir kölluðu Valdres; þaðan fóru þeir til sjóvar, ok kvómu í langan fjörð ok mjóvan, er nú heitir Sogn; þar var fundr þeira Sókna, ok áttu þeir þar orrostu mikla, því at Sókna brá ekki við fjölkyngi þeira; Nórr gekk fram hart, ok skiftust þeir Sókni höggum við; þar fell Sókni ok mart lið hans.

*Ferð Nórs eftir Noregi at leita sy(s)tur (sinnar).*

II. Eftir þat fór Nórr í fjörð þann, er norðr gengr af Sogni; þar hafði Sókni fyrir ráðit, er nú heitir Sóknadalr; þar dvaldist Nórr lengi, ok heitir þar nú Norafjörðr. Þar kom til móts við hann Górr bróðir hans, ok hafði þá hvórgi þeira spurt til Gói. Górr hafði ok undir sik lagt land alt et ytra, er hann hafði sunnan farit; ok þá skiftu þeir löndum með sér brœðr; hafði Nórr meginland alt, enn Górr skal hafa eyjar þær allar, er hann ferr stjórnföstu skipi milli ok meginlands. Ok eftir þat ferr Nórr til Upplanda, ok kom þar sem nú heitir Heiðmörk; þar réð sá konungr fyrir, er hét Hrólfr ór Bjargi; hann var son Svaða jötuns norðan af Dofrum. Hrólfr hafði numit á brott af Kvenlandi Gói Þorradóttur. Hann fór þegar til móts við Nór, ok bauð honum til einvígis; þeir börðust lengi ok varð hvórgi sárr; eftir þat sættust þeir, ok fekk Nórr systur Hrólfs, enn Hrólfr fekk Gói. Þaðan snøri Nórr aftr norðr til ríkis þess, er hann hafði undir sik lagt; þat kallaði hann Norveg; réð hann því ríki meðan hann lifði, enn synir hans eftir hann ok skifta þeir landi með sér, ok tóku svá ríki at smækkast sem konungar tóku fjölgast ok greindust svá í fylki.

*Beitir fekk Noreg.*

III. Górr hefir ok verit kallaðr sækonungr; hans

synir vóru þeir Heiti ok Beiti; þeir vóru sækonungar ok ofstopamenn miklir; þeir gengu mjök á ríki sona Nórs, ok áttu þeir margar orrostur, ok sigruðust ýmsir. Beitir lagði inn í Þrándheim ok herjaði þar. Hann lá þar, er nú heitir Beitisær eða Beitistöð. Þar lét hann draga skip ór Beitistöð innanverð(r)i, ok norðr yfir Eiskrueið; þar ganga Naumudalir at norðan. Hann settist í lyfting ok hélt um hjálmvöl, ok eignaðist land alt þat, er var á bakborða, ok eru þar margar bygðir. Heitir, son Górs, var faðir Sveiða sækonungs, föður Hálfdanar hins gamla, föður Ívars Upplendinga jarls, föður Eysteins glumru, föður Rögnvalds jarls hins ríka ok hins ráðsvinna.

---

# Saga

af

# Hálfi ok Hálfsrekkum.

---

# Saga af Hálfi ok Hálfsrekkum.

---

Alrekr hét konungr, er bjó á Alreksstöðum; hann ré fyrir Hörðalandi; hann átti Signýju, dóttur konungs a Vörs. Kollr hét hirðmaðr hans, ok fylgdi hann konung norðr í Sogn ok sagði konungi allmikit frá vænlei Geirhildar Drífsdóttur, því at hann hafði sét hana vi mungátsgerð, ok kvezt honum unna þess ráðs. Ti fundar við Geirhildi kom Höttr, er Óðinn var reyndar þá er hon var at léreftum; hann keypti því við hana at Alrekr konungr skyldi eiga hana, enn hon skyldi á hann heita til alls; konungr sá hana, er hann fór heim ok gerði brúðlaup til hennar hit sama haust. Konung launaði Koll vel trúleik sinn ok gaf honum jarlsdóm o atsetu í Kollsey fyrir sunnan Harðsæ, ok er þat fjö bygt herað. Alrekr konungr mátti eigi eiga þær báða fyrir ósamþykki þeira ok kvezt þá þeira eiga skyld er betra öl gerði mót honum, er hann kœmi heim leiðangri. Þær keptust um ölgerðina. Signý hét Freyju, enn Geirhildr á Hött; hann lagði fyrir dre hráka sinn ok kvezt vilja fyrir tilkvámu sína þat, var milli kersins ok hennar. Enn þat reyndist gott þá kvað Alrekr:



# Saga af Hálfi ok Hálfsrekkum.

Alrekr hét konungr, er bjó á Alreksstöðum; hann réð fyrir Hörðalandi; hann átti Signýju, dóttur konungs af Vörs. Kollr hét hirðmaðr hans, ok fylgdi hann konungi norðr í Sogn ok sagði konungi allmikit frá vænleik Geirhildar Drífsdóttur, því at hann hafði sét hana við mungátsgerð, ok kvezt honum unna þess ráðs. Til fundar við Geirhildi kom Höttr, er Óðinn var reyndar, þá er hon var at léreftum; hann keypti því við hana, at Alrekr konungr skyldi eiga hana, enn hon skyldi á hann heita til alls; konungr sá hana, er hann fór heim, ok gerði brúðlaup til hennar hit sama haust. Konungr launaði Koll vel trúleik sinn ok gaf honum jarlsdóm ok atsetu í Kollsey fyrir sunnan Harðsæ, ok er þat fjölbygt herað. Alrekr konungr mátti eigi eiga þær báðar fyrir ósamþykki þeira ok kvezt þá þeira eiga skyldu, er betra öl gerði mót honum, er hann kœmi heim ór leiðangri. Þær keptust um ölgerðina. Signý hét á Freyju, enn Geirhildr á Hött; hann lagði fyrir dregg hráka sinn ok kvezt vilja fyrir tilkvámu sína þat, er var milli kersins ok hennar. Enn þat reyndist gott öl; þá kvað Alrekr:

„Geirhildr, getta!
gott er öl þetta,
ef því andmarkar
øngvir fylgja;
ek sé hanga
á hávum gálga
son þinn, kona!
seldan Óðni“.

Á þeim misserum var fœddr Víkarr, son Alreks ok Geirhildar.

II. Ögvaldr Rogalands konungr bjó á Roga[1] á Jösurheiði; hon er í milli Rogalands ok Þelamerkr; þat kalla menn nú Viði. Hann fór á dýraveiði; honum fylgdi hirð hans, ok þar fœddi drotning svein þann, er Jösurr hét; þann fóstraði Gunnvaldr Storðar jarl. Hæklingr víkingr kom með her sinn á hendr Ögvaldi konungi; í þeirri orrostu fell Ögvaldr konungr, ok var hann heygðr á Ögvaldsnesi. Finnr enn auðgi af Akranesi, landnámamaðr, lá við Ögvaldsnes ok búinn til Íslands ok spurði, hversu fyrir löngu Ögvaldr konungr fell; hann heyrði vísu þessa kveðna í hauginn:

„Þat var fyr löngu,
er í leið höldar
heldr hundmargir
Hæklings fóru,
sigldu um salta
slóð birtinga;
þá varð ek þessa
þorps ráðandi“.

III. Gunnvaldr jarl ok Kollr báðu einnar konu báðir, ok fekk Gunnvaldr. Eftir þat kom Kollr með lið mikit í Storð á laun, ok lögðu eld í hús Gunnvalds

1) Þannig *skb.* Má vera, að réttara væri að fella orðin *á Roga* í brott og rita: *bjó á Jösurheiði.*

Roga; Gunnvaldr gekk út ok var drepinn. Þá hafði Jösurr verit konungr nokkura stund; síðan fór hann með lið mikit at hefna fóstra síns; ok er Kollr sá sigling hans, þá hljóp hann á herskip sín, ok sigldi norðr um Harðsæ í Grafdalsvág. Þá kom Alrekr konungr til móts við Koll fámennr, því at hann vissi eigi ófriðar ván. Þá börðust þeir Jösurr konungr, ok fellu þeir Alrekr konungr ok Kollr ok mestr hlutr liðs þeira. Víkarr son Alreks kom eigi fyrr með liðsafnað enn Jösurr konungr var brott farinn. Í þeiri ferð lagði Jösurr undir sik ríki þat alt, er átt hafði Kollr.

IV. Mörgum vetrum síðar kom Víkarr konungr fjölmennr á hendr Jösur, þá er hann var í því ríki, er Kollr hafði átt, ok áttu þeir orrostu; ok þá fell Jösurr konungr fyrir ok allir bœndr þess heraðs; því heitir þat Kvennaherað, at þar bygðu ekkjur einar eftir. Síðan eignaðist Víkarr ríki þat alt, er átt hafði Kollr. Fyrir þat fór Hjörr Jösursson móti Víkari til orrostu, ok áttu þeir langa hríð sín í millum, ok höfðu ýmsir betr, ok sættust um síðir. Sonr Víkars var Vatnarr, er heygðr var í Vatnarshaugi; hans synir vóru þeir Snjallr ok Hjallr[1], er liggja í Brœðrahaugi.

V. Hjörr konungr Jösursson var ríkr konungr ok varð sóttdauðr ok var heygðr á Rogalandi; hans son var Hjörleifr Hörðalands konungr; hann réð ok fyrir Rogalandi ok var allríkr konungr; hann var kallaðr Hjörleifr hinn kvensami; hann átti Æsu hina ljósu, dóttur Eysteins jarls af Valdresi. Hjörleifi brustu lausafé fyrir örleika; hann lét gera skip af virktum ok fór til Bjarmalands. Högni hinn auðgi bjó í Njarðey fyrir Naumudalsmynni; hann tók vel við Hjörleifi konungi,

1) Hjálmr *skb.*

ok var hann þar þrjár nætr ok gekk at eiga Hildi hina mjóvu, dóttur Högna, áðr hann fór brott, ok fór hon með honum til Bjarmalands ok Sölvi bróðir hennar. Enn er Hjörleifr konungr kom í Vínuminni, skifti hann liði sínu í þrjá þriðjunga. Á skipi hans váru níu tigir manna; þriðjungr liðs helt upp bardaga með honum við landsmenn, annarr þriðjungr liðs varðveitti skip með stýrimanni, enn þriði þriðjungr braut haug með stafnbúa, ok fengu þeir mikit fé. Á sunnanverðri Finnmörk í Gjarðeyjargeima lá Hjörleifr konungr um nótt, ok höfðu sveinar eld á landi, ok fóru tveir menn at sœkja vatn til lœkjar, er fell af bjargi fram; þar sá þeir brunnmiga ok sögðu Hjörleifi konungi; síðan heitir konungr broddspjót í eldi ok skaut til hans; konungr kvað:

„Gakkðu frá brunni,
glettskattu við mik,
þræll herfilegr!
þíns innis til;
man ek senda þér
sveiðanda spjót,
þat er gyrja man
granir þínar".

Þá tóku þeir vatn; enn þursinn skauzt inn í bjargit. Þá er þau sátu við eld, þá kvað þurs af bjargi annat ljóð:[1]

„Veita gørla
víf þitt, konungr!
hvat hnekkja man
hennar sælu;
vér verðum þér
. . . . . . .,
Hildr! Hjörleifi
haltu nær loga".

1) hljóð *skb.*

Þá skaut Hjörleifr hinu sama spjóti í auga því trölli. [Síðan sigldi Hjörleifr suðr til Njarðeyjar[1]. Högni bauð Sölva ok Hildi at vera þar eftir, enn konungr vildi þat eigi. Síðan fóru ambáttar tvær með Hildi, enn tuttugu karlar með Sölva. Æsa varð ófegin konungi ok hans föruneyti, enn allir aðrir fegnir.

VI. Hjörleifr konungr fór með skipi sínu til Konungahellu, því sem hann helt til Bjarmalands; þeir Hreiðarr, Sjólands konungr, settu búðir sínar hit næsta þar. Heri, son Hreiðars konungs, gerði sér kært við Hjörleif konung; á þeim fundi eggjaði hann föður sinn at bjóða heim Hjörleifi konungi. Hreiðarr konungr sagði, at þat mundi at øngri gæfu verða, enn lagði þó leyfi til ok fjármuni; þeir höfðu samflot til Danmerkr. At því boði sá Hjörleifr konungr Hringju, dóttur Hreiðars konungs [ok bað hennar][2]; Heri fýsti þess ráðs, ok fylgdi henni skipshöfn manna ok farmr allr. Í Jótlandshafi lá Hjörleifr konungr í lognrétt; ok er hann fór í sólar upprás, sá hann í norðr koma upp ór sjónum mikit fjall, ok jafnt vaxit sem mann. Þat kvað:

„Ek sé Hringju
haug um orpinn,
enn Hera hníga
hvátinn spjóti;
sék Hjörleifi
haftbönd snúin,
enn Hreiðari
höggvinn gálga“.

Þá gengu ekki skipin; þá bað konungr taka til ára. Þá kendi Hringja sér sóttar; þeir lögðu upp árar. Hon andaðist at jafnlengd þess, er hon hafði sótt tekit, ok

1) Frá [er hér bœtt inn í eftir hdr. J. E., enn stendr eigi í *skb.*
2) *Ok bað hennar* hér bœtt inn í; stendr eigi í *skb.*

varð skotit kistu hennar fyrir borð, enn hon fór svá skjótt suðr aftr, sem róit væri sexærðu skipi. Heri fann kistuna rekna skamt frá naustum föður síns ok sagði honum til, ok kvað Hjörleif konung mundu hafa myrt hana.

VII. Þetta haust røru feðgar tveir á fiski ok drógu marmennil, ok hét annarr Handir, enn annarr Hrindir; þeir færðu hann Hjörleifi. Konungr fekk hann í hendr hirðkonu einni ok bað hana gera vel við hann; engi maðr fekk orð af honum. Kertisveinar glímdu ok sløkktu ljósin. Í því bili sló Hildr horni á skikkju Æsu; konungr sló hana með hendi sinni; enn Hildr sagði hundinn valda, er lá á gólfinu; þá laust konungr hundinn; þá hló marmennill; konungr spurði, hví hann hló; hann svarar: „Því at þér varð heimslega, því at þau munu þér líf gefa“. Konungr spurði hann fleira; hann svarar øngu; síðan lézt konungr mundu flytja hann til sjóvar, ok bað hann segja sér þat, er hann þyrfti at vita; hann kvað, er hann fór til sjóvar:

„Ek sé lýsa
langt suðr í haf,
vill danskr konungr
dóttur hefna;
hann hefir úti
ótal skipa,
býðr hann Hjörleifi
hólmstefnu til;
varastu vitr, ef þú vilt,
vil ek aftr í sjó“.

Enn er þeir røru þangat með hann sem þeir höfðu hann upp dregit, þá kvað hann:

„Sögu kann ek segja
sonum Háleygja
vilgi góða,
ef ér vilið heyra:

hér ferr sunnan
* Svarðar dóttir,
um drifin dreyra,
frá Danmörku.

Hefir sér á höfði
hjálm upp spentan,
herkuml harðlegt
* Heðins af letta;
skamt man sveinum
— sé þaz er —
Hildar at bíða
hér á ferli.

Bresta man baugröst,
brá mær augum
um heruð hingat
Högna til þegna;
hafa skal hverr drengr
hjörnjóts mörg spjót,
áðr komi mikil fram
málmahríð síðan.

Þó munu, þar er sák
þá för illa,
hafa allir alkeypt
ár, þá er kømr vár".

Þá lét Hjörleifr konungr hann utanborðs. Þá tók einn maðr í hönd honum ok spurði: „Hvat er manni bezt?" Marmennill svarar:

„Kalt vatn augum,
enn kvett tönnum,
léreft liki,
lát mik aftr í sjó!
dregr mik engi
í degi síðan
maðr upp í skip
af mararbotnum".

Konungr gaf þeim Handi ok Hrindi land at búa á, ok þar með þræl ok ambátt.

VIII. Síðan lét Hjörleifr konungr fara ørvarboð, ok samnaði liði at sér. Um nótt kom Hreiðarr konungr með her sinn ok sló hring um bœ Hjörleifs konungs[1]. Þá hina sömu nótt gó hundr hans Flóki, er aldri gó, nema hann vissi konungi ótta vánir. Hjörleifr konungr hleypti á manngarðinn ok skaut aftr spjóti til liðsins; þá heyrði hann kallat fall Hera. Konungr sá ór skógi bœjarbruna sinn ok brottsigling Hreiðars konungs með herfangi miklu. Þetta sama haust kom Hjörleifr konungr einskipa um nótt á bœ Hreiðars konungs, ok gekk einn til svefnhúss, enn allar konur váru ór rekkju brottu nema Æsa ein. Konungr bað hana koma sér við Hreiðarr konung; hon læsti hann í váðkeri sínu ok sagði síðan Hreiðari konungi ok kvað Hjörleif þar vera[2]. Hjörleifr konungr var upp festr í konungs höll með skóþvengjum sínum sjálfs, millum elda tveggja at ráði Æsu; enn hirðin sat við drykkju. Á meðan vakti Hildr, ok jós mungáti í eldana; hon leysti hann svá, at hon hjó með sverði skóþvengina. Hreiðarr konungr sat sofandi í hásætinu, enn Æsa sat í knjám honum. Hjörleifr konungr lagði í brjóst honum, ok gekk síðan til skips eftir liði sínu, ok lét binda hirð Hreiðars konungs, ok gaf grið; enn Hreiðarr konung lét hann hengja dauðan á gálga þann, er hann hafði honum ætlat. Þann inn sama aftan, er Hjörleifr konungr kom, heyrði Hreiðarr konungr kveðit:

---

1) Þessi málsgrein er í *skb.* á eftir málsgreininni: 'þá hina sömu nótt' o. s. frv., enn virðist eiga að vera á undan.

2) Orðin: 'ok kvað Hjörleif þar vera' standa í *skb.* á eftir orðunum: 'ok jós mungáti í eldana', enn virðast eiga hér betr við.

„Minnistu, Hreiðarr,
hverr Hera feldi?
— vá vakðist þar —
fyr vestrdurum;
enn man hann sinna
til sala þinna,
byrsæll koma,
bíð þú enn, konungr!"

Hjörleifr konungr lagði undir sik ríki þat alt, er átt hafði Hreiðarr konungr, ok setti þar Sölva Högnason, ok gaf honum jarlsdóm; enn Hjörleifr konungr fór til Noregs ok hafði með sér Hildi ok Æsu ok kvaddi þings. Þat dœmdi landsfólkit, at Æsu væri drekt í mýri; enn enn Hjörleifr konungr sendi hana upp á land með heimanfylgju sína. Sonr Hjörleifs ok Æsu var Óblauðr, faðir Ótryggs, föður Högna hins hvíta, föður Úlfs hins skjálga, er Reyknesingar eru frá komnir.

IX. Hjörleifr konungr ok Hildr hin mjóva áttu tvá sonu; hét hinn ellri Hjörólfr, enn hinn yngri Hálfr. Hjörleifr konungr fell í víkingu. Ásmundr hét konungr; hann fekk Hildar hinnar mjóvu ok fóstraði sonu Hjörleifs konungs. Þá er Hjörólfr var þrettán[1] vetra, þá bjóst hann at fara í hernað; hann hafði hvert skip, er hann fekk, smá ok stór, ný ok forn, ok hvern mann er hann fekk, frjálsan ok nauðgan. Þeir höfðu mart til vápna: stengr ok stafi, klumbur ok króka; fyrir þá sök er þat kallat síðan Hjörólfsfœri, er ófimlegt er. Enn er hann kom til orrostu við víkinga, þá treystist hann liðsfjölda ok lagði til orrostu; hann hafði lið ókœnt ok vápnlaust, ok fell mart lið hans, enn sumt

1) átta í *skb.* Þannig leiðrétt eftir tg. *Munchs* (Norske Folks Hist. I, 1, 802. bls.).

flýði, ok kom við þat aftr at hausti, ok varð hann lítiil maðr fyrir sér.

X. Eftir um várit var Hálfr tólf vetra gamall, ok var engi maðr jafnmikill eða jafnsterkr sem hann; þá bjóst hann at fara í hernað, ok hafði hann eitt skip nýtt ok vel búit. Á Hörðalandi var jarl sá, er Álfr hinn gamli hét; hann átti Gunnlöðu, dóttur Hrómundar berserks, systur Hámundar hersis hins frœkna; synir þeirra váru tveir, ok hét hvártveggi Steinn. Hinn ellri var þá átján vetra gamall; hann var þá ráðgjafi Hálfs konungs; enginn skyldi fara yngri enn hann eða bernskari. Steinn mikill stóð í garðinum; engi skyldi fara, sá sem eigi fengi hafit steininn af jörðu; engi skyldi sá fara, at eigi væri hreystimaðr, svá at aldri kvíddi, eða mælti æðru, eða brygði grönum fyrir sára sakir. Steinn hinn yngri Gunnlaðarson var eigi fœrr fyrir aldrs sakir, því at hann var tólf vetra gamall. Hámundr hersir átti tvá sonu, ok hét annarr Hrókr hinn svarti, enn annarr Hrókr hinn hvíti; þeir váru valdir til ferðar þessarar. Áslákr hét ríkr bóndi; hans synir váru þeir Egill ok Erlingr; þeir váru ágætir menn. Vémundr hét merkismaðr Hálfs konungs; fjórir menn fylgdu honum ór Hörðalandi. Þá var leitat um ellifu fylki; fengust þar tólf menn. Þar váru brœðr tveir Haukr ok Valr, Styrr hinn sterki, Dagr hinn prúði, Börkr ok Brynjólfr, Bölverkr ok Haki, Hringr ok Hálfdan, Stari ok Steingrimr, Stúfr ok Gauti Bárðr ok Björn. Þeir váru tuttugu ok þrír er þeir ýttu. Hit fyrsta kveld, er þeir lögðu til hafnar, þá var regn mikit; þá bað Steinn tjalda. Konungr svarar: „Viltu enn húsa sem heima?“ Síðan kölluðu þeir hann Innstein. Enn um daginn eftir røru þeir fyrir andnes eitt í hvössu veðri; maðr stóð á nesinu, ok bað fars; konungr bað hann standa á stýristöngu til kvelds; hann

kvað þat vel mælt ok kvað sér þá þykkja skipat nær konunginum; svá var gert; þessi maðr var Steinn Gunnlaðarson hinn yngri; hann var síðan kallaðr Útsteinn. Mart var gert til varnaðar þeira lögum fyrir kapps sakir; þat var eitt, at engi þeira skyldi hafa lengra sverð enn alnar, svá skyldi nær ganga; þeir létu gera söx til þess, at þá skyldi höggin stœrri; engi þeira hafði minna afl enn tólf meðalmenn; aldri hertóku þeir konur né börn; engi skyldi sár binda fyrr enn at jafnlengd annars dags; við øngum var þeim tekit, er minni var at afli eða hreysti enn nú var sagt. Þeir herjuðu víða um lönd ok höfðu jafnan sigr. Hálfr konungr var átján sumr í hernaði. Þat var siðr þeira, at liggja jafnan fyrir andnesjum; þat var annarr siðr þeira, at tjalda aldri á skipum ok aldri hálsa segl fyrir ofviðri. Þeir váru kallaðir Hálfsrekkar, ok hafði hann aldri fleiri á skipi enn sex tigi.

XI. Hálfr konungr fór til ríkis síns ór hernaði; þeir fengu storm mikinn í hafi; skip þeira varð ekki ausit; þá var þat ráðs tekit at hluta menn fyrir borð, enn þess þurfti eigi, því at hverr bauð sínum félaga fyrir borð at fara; enn er þeir stigu fyrir borð, þá mæltu þeir: „Strálaust er fyrir stokkum“. Enn er Hálfr konungr kom til Hörðalands, þá fór Ásmundr konungr á fund hans ok gerðist hans maðr ok sór honum eiða ok bauð honum til veizlu ok hálfu liði hans. Enn annan morgin, er konungr bjóst ok sagði, at helmingr liðs skyldi eftir verða á skipum, kvað Innsteinn:

„Upp mundum vér
allir ganga
skatna beztir
af skipum várum,
láta brenna
bragninga sveit
ok Ásmundar lið
aldri týna“.

Konungr kvað:

„Vér skulum hálfir
herjar þessa
sáttir sœkja
frá sjó neðan;
Ásmundr hefir
oss um boðna
hringa rauða,
þá er hafa viljum“.

Innsteinn kvað:

„Sérattu allan
Ásmundar hug,
hefir fylkir sá
flærð í brjósti;
mundir þú, þengill!
ef vér því réðim,
mági þínum
mjök lítt trúa“.

Konungr kvað:

„Ásmundr hefir
oss um unnit
margar trygðir,
sem menn vitu;
manat góðr konungr
ganga á sáttir,
né gramr annan
í griðum væla“.

Innsteinn kvað:

„Þér er orðinn
Óðinn til gramr,
er þú Ásmundi
allvel trúir;
hann man alla
oss um væla,
nema þú víti
viðsjár fáir“.

Konungr kvað:

„Æ lystir þik
æðru at mæla,
manat sá konungr
sáttir rjúfa;
gull eigum þar
ok gørsimar,
hringa rauða,
frá hans búm“.

Innsteinn kvað:

„Hálfr! dreymdi mik,
— hygðu at slíku! —
at logi léki
um liði váru;
ilt væri þar
ór at leysask;
hvat kveðr þú, þengill!
þann draum vita?“

Konungr kvað:

„Gefa man ek hverjum
hjálm [gullroðinn]
frœknra drengja,
er fylgja mér;
þat man at líta,
sem logi brenni
skjöldungs liði
of skarar fjöllum“.

Innsteinn kvað:

„Enn dreymdi mik
öðru sinni:
hugðak á öxlum
elda brenna;
gruna tek ek nökkut,
at þat gott ne viti;
hvat kveðr þú, þengill!
þann draum vita?“

Konungr kvað:

„Hrynja um herðar
þeim, er hamalt fylkja,
grams verðungu
gyldar brynjur;
þat man á öxlum
öðlings vinum
ljóst at líta
sem logi brenni.

Innsteinn kvað:

„Þat dreymdi mik
þriðja sinni,
at vér í kaf niðr
komnir værim;
eiga man allstórt
um at væla;
hvat kveðr þú, þengill!
þann draum vita?“

Konungr kvað:

„Fullangt er sjá
fíflskapr taliðr,
vera kveð ek ekki
undir slíku;
segðu øngva,
svá at heyri,
drauma þína
í degi síðan!“

Innsteinn kvað:

„Hlýði Hrókar,
hersis konir[1],
orðum mínum,
Útsteinn þriði:
göngum allir
upp frá ströndu,
kunnum ekki
konungs málum“.[2]

Útsteinn kvað:

„Konung látum vér
keppinn ráða
fyrir fólki
um farir várar;
hættum bróðir!
svá hánum líki,
fjörvi okkru
með frömum vísi“.

Innsteinn kvað:

„Hlýtt hefir fylkir
í förum úti
mínum ráðum
mörgu sinni;
nú kveð ek øngu,
er ek mæli,
hlýða vilja,
síz hingat kómum“.

XII. Hálfr konungr gekk upp til bœjar Ásmundar konungs með helming liðs síns; þar var fyrir fjölmenni mikit; veizla var kappsamleg, ok drykkr svá sterkr, at Hálfsrekkar sofnuðu fast. Ásmundr konungr ok hirðin lögðu eld í höllina. Enn sá er fyrst vaknaði

1) ok herkonungr *skb.*
2) mál um þat *skb.*

af Hálfsrekkum, sá höllina nær fulla af reyk. Hann kvað:

„Rýkr um hauka
í höll konungs“.

Síðan lagðist hann niðr ok svaf. Þá vaknaði annarr ok sá at höllin logaði ok kvað:

„Ván er at drjúpi
vax af söxum“.

Sá lagðist niðr. Þá vaknaði Innsteinn; hann kvað:

„Mál er gulli
ok gørsimum
hjálmum skifta
með Hálfsrekkum.

Hins fýsumk nú,
at Hálfr vaki;
erat af eklu
eldar kyndir;
áttu, menbrjótr!
mági þínum
grimmlunduðum
gjafir at launa“.

Ok þá vaknaði Hálfr konungr, hann stóð upp ok vakti liðit ok bað þá vápnast:

„Hrindum heilir
hallar bjóri!
nú taka súlur
í sundr þoka;
æ man uppi,
meðan öld lifir,
Hálfsrekka för
til hertoga.

Hart skulum ganga
ok hliða ekki við,

verðr vísis lið
at vega með söxum;
þeir skulu sjálfir
á sér bera
blóðgar benjar
áðr braki létti.

Snúizk snarlega,
snyrtidrengir!
út ór eldi
með auðbrota;
engi er ýta
sá er æ lifir;
manat baugbroti
við bana kvíða".

Þeir hlupu þá á veggina, svá at af gengu nafarnar af timbrstokkunum[1].

XIII. Svá er sagt, at Hálfr konungr ok Hálfsrekkar kœmizt út ór eldinum ok Hálfr konungr felli fyrir ofrefli liðs ok sveit hans. Innsteinn kvað er konungr var fallinn:

„Hér sák alla
einum fylgja
jafnrösklega
öðlings syni;
hittumk heilir,
þá heðan líðum;
erat léttara
líf enn dauði".

Þá kómu Hálfsrekkar til orrostu, þeir sem við skip höfðu verit. Þar fell mikill hlutr Hálfsrekka. Orrost-

1) Hér er nokkuð breytt röð málsgreina frá orðunum: 'Enn er sá er fyrst vaknaði af Hálfsrekkum sá höllina nær fulla af reyk', svo og röð vísnanna. Er í því fylgt Bugges útgáfu.

an helzt alt til nætr áðr Innsteinn fell. Innsteinn kvað:

„Hrókr er fallinn
með hertoga,
frœkn at fótum
fólks oddvita;
eigum Óðni
ilt at gjalda,
er hann slíkan konung
sigri rænti.

Ek hefi úti
átján sumur
fylgt fullhuga
flein at rjóða;
skalk eigi annan
eiga drottin
gunnar gjarnan,
né gamall verða.

Hér man Innsteinn
til jarðar hníga,
horskr at höfði
hers oddvita;
þat munu seggir
at sögum gøra,
at Hálfr konungr
hlæjandi dó“.

XIV. Gunnlöð fór til valsins um nóttina at leita sona sinna; hon fann Innstein dauðan, enn Útstein særðan til ólífis ok Bárð ok Björn. Hon ók þeim til bœjar, ok grœddi þá á laun ok sendi þá síðan suðr til Svíþjóðar; fóru þeir Björn ok Bárðr á fund Sölva konungs, móðurbróður Hálfs konungs, enn Útsteinn fór til Danmerkr til Eysteins konungs, frœnda síns. Hrókr hinn svarti hafði mörg sár ok stór; hann gekk um nóttina frá orrostu ok kom til kotbónda eins, er Skóg-

karl hét; þar var hann ok váru bundin sár hans; karl flutti hann norðr í Sogn til Geirmundar hersis, föðurbróður síns; þar var hann grœddr á laun ok fór um haustit til Upplanda ok austr til Gautlands; hann kom til Haka konungs á Skáney ok var með honum um vetrinn.

XV. Útsteinn var með Eysteini konungi. Úlfr hinn rauði hét ráðgjafi Eysteins konungs; hann átti átta sonu, ok váru þeir allir hinir mestu kappar ok öfundsamir; þeir váru illa til Útsteins, ok sló með þeim í kappmæli við drykkju. Hitt var fyrr, at Útsteinn sagði frá falli Hálfs konungs; hann kvað þá:

„Hitt hlœgir mik
helzt í máli:
manat[1] Ásmundi
öll vá sofa;
þrír eru fallnir
af því liði,
Eynefs synir,
enn einn lifir“.

Útsteinn kvað, er Úlfr jafnaði sér við hann ok eggjaði hann:

„Upp skulum rísa,
út skulum ganga,
ok rammlega
randir knýja;
hygg ek und hjálmum
hingat komnar
til Danmerkr
dísir várar“.

Úlfr kvað:

„Yðr munu dauðar
dísir allar,

1) man eigi *skb.*

heill kveð ek horfna
frá Hálfs rekkum;
dreymdi mik í morgin,
at megir várir
øfri yrði,
hvars ér mœttizk".

Útsteinn kvað:

„Sigrs væntik mér
sýnu betra,
enn Úlfr vili
œskja Steini;
yðrum man sonum
at sverðtogi
hauss um höggvinn,
enn háls roðinn".

Úlfr kvað:

„Munu þeir øfri verða
Úlfs synir:
Oddr ok Örnólfr,
Áti hinn svarti,
Börkr ok Brynjólfr,
Búi, Harðskafi,
Rauðr hinn rammi,
ef þú reynir til".

Útsteinn kvað:

„Mundit Steini
með Stara þykkja
ógn at etja
við Úlfs sonu,
því at eigi var
órum bróður
við dritmenni títt
dramb at setja.

Þóttit Hrókum
né Hálfdani,
raun at berjask
við ragmenni,
þá er vér fjórir
falla létum
átta jarla
fyr Annisnesi.

Fari Úlfs synir
út at berjask,
átta drengir,
við eitt höfuð!
manat støkkva,
þó Steinn hafi
fæ̨ra nøkkvi
í flokki lið.

Hálfr, dreymdi mik,
hvatti, at ek berðumk,
ok kvazk mér frœkn konungr
fylgja skyldu;
— hefir mér gramr
verit góðr í draumi—,
hvars vér orrostu
eiga skyldim".

Þá gengu þeir Úlfs synir ok Útsteinn út ok börðust. Hann drap alla Úlfs sonu ok gekk síðan inn fyrir konung ok kvað:

„Nú emk inn kominn
Úlfi at segja,
at hans synir
höggnir liggja,
nú fari, Eysteinn!
ef ér vilið,
fleiri at freista
við fleina við".

Eysteinn kvað:

„Sjálft man letja
slíks at freista,
Hálfs eru rekkar
hverjum meiri,
þik veit ek manna
miklu fremstan,
einn snjallastan,
er þú átta vátt“.

Útsteinn kvað:

„Alla mundak
Eysteins liða
sverði beita
at sömu hófi,
ef ek mér þarfir
þess verks sæi,
eða ilt með oss
áðr um væri.

Magni fýsi engi
við mik at deila,
því at mér var ungum
aldr skapaðr;
ek hefi hjarta
hart í brjósti,
* síz mér í œsku
Óðinn framdi“.

XVI. Hrókr hinn svarti var með Haka konungi; dóttir Haka konungs var Brynhildr. Sveinn hinn sigrsæli hét sá konungr, er beðit hafði Brynhildar, enn Haki konungr synjaði; Sveinn strengdi heit, að verða bani þess manns, er ætti Brynhildi, ok svá föður hennar. Heðinn hét jarl Haka konungs, enn Vífill son hans; hann bað Brynhildar, ok var honum heitit, ef hann verði land fyrir Sveini. Hrókr hinn svarti var þar ekki kendr, ok var hann í engum metnaði ok sat í gestasæti. Þat var einn dag, at hirðin fór á dýraveiðar, enn konur á hnetskóg; Brynhildr konungsdóttir sá, hvar maðr stórr stóð við eik eina; hon heyrði at hann kvað:

„Nú man segja
sonr Hámundar,
hvert øðli var
okkart brœðra:
minn var faðir
miklu fremri,
haukr gørr at hug,
enn Haki yðvarr.

Vildi engi
við Vífil jafnask,
þó at Hámundar
hjarðar gætti;
sák øngvan þar
svínahirði
huglausara
enn Heðins arfa.

Mín var æfi
miklu œðri,
þá er vér Hálfi konungi
horskum fylgdum;
bárum allir
eitt ráð saman,
ok herjuðum
hvert land yfir.

Höfðum vér allir
haukmanna lund[1],
hvars fróðhugaðr
frama kostaði;
gengum vér í gøgnum
með grá hjálma
fullstór öll
fólklönd níu.

Hálf sá ek höggva
höndum báðum,
hafði eigi hilmir
hlífskjöld fyr sér;
finnrat maðr,
þó fari víða,
hæfra hjarta
ok hugprúðara.

Mæla virðar,
þeir er vitu eigi,
at Hálfs frami
heimsku sætti;
kann eigi sá
konung háleygskan,
er heimsku þrótt
hánum eignaði.

Baðat hann við dauða
drengi kvíða,
né æðruorð
ekki mæla;
engi skyldi
jöfri fylgja,
nema forlögum
fylkis heldi.

Skyldi eigi stynja,
þó at stór hlyti
sár í sóknum
siklings vinir,
né benjar sér
binda láta,
fyrr enn annars dags
jafnlengd kœmi.

Baðat hann í her
höftu græta,
né manns konu
mein at vinna;
mey bað hann hverja
mundi kaupa,
fögru gulli
at föður ráði.

Várut svá margir
menn á skeiðum,
at vér á flótta
fyrir heldim,
þó at miklu lið
minna hefðim,
svá at ellifu
einum gegndi.

Höfðum vér allir
hinn øfra hlut,
hvars Hildar [él]
hlífar knúði;
einn vissak
jafnsnjallan gram:

1) lið *skb.*

Sigurð konung
at sölum Gjúka.

Margir váru
menn á skeiðum
góðir ok frœknir
með gram sjálfum:
Börkr ok Brynjólfr,
Bölverkr ok Haki,
Egill ok Erlingr
Ásláks synir.

Mest váru mér
manna hugðir
Hrókr, bróðir minn,
ok Hálfr konungr,
Styrr hinn sterki
ok Steinar báðir[1],
snarráðir menn,
synir Gunnlaðar.

Hringr ok Hálfdanr,
haukar báðir,
réttir dómendr[2],
Dagr hinn prúði,
Stari ok Steingrímr,
Stúfr ok Gauti;
finnr þú aldri
fríðari drengi.

Valr ok Haukr
í víkingu
báðir frœknir,
buðlungs vinir;
fáir mundu þeim
fylkis rekkum
hæfri þykkja
ór Haka veldi.

Hvergi þóttak
í því liði
* oft aukvisi
ættar minnar;
mik kváðu þeir
mann snarpastan,
því at hverr öðrum
hróðrs leitaði.

Vé bar Vémundr,
er vega þorði,
Björn ok Bárðr[3],
fyr buðlungi;
fylkti sínu
sá framlegast
lofðungr liði,
meðan lifa mátti.

Naut eigi svá
aldrs sem skyldi.
frœkn landreki
við frama dáðir;
tólf vetra nam
tiggi at herja,
enn þá var þengill
þrítugr, er dó.

Slíkt kennir mér
at sofa lítit
marga grímu
ok mjök vaka,
er bróðir minn
brenna skyldi

1) 'Styrr ok Steinar sterkir báðir' *skb.*
2) Hér á eftir hefir *skb.* 'Dana þjóðar' sem getr varla verið rétt.
3) Bersi *skb.*

kvikr í eldi
með konungs rekkum.

Sá hefir dagr um mik
daprastr komit
miklu í heimi,
svá at menn vitu;
una þykkjumk vér
aldri síðan,
at fylgja máttuma
frændum hollum[1].

Alls mundi mér
angs léttara,
ef ek Hálfs konungs
hefna mættak
svá at Ásmundi
eggfránum hjör
* bana baugspjót
brjóst raufaðak.

Hefnt man verða
Hálfs hins frœkna,
því at þeir göfgan gram
í griðum væltu;
olli morði
ok mannskaða
Ásmundr konungr
illu heilli.

Þá man reyna
ok raun gefa,
ef við Svein komum
saman í rómu,
hvárir í vígi
verða hæfri,
Hámundar burr
eða Haka þegnar.

Segik svá kveðit
snotru vífi,
at ek Brynhildar
biðja mundak,
ef vita þættumk,
at vildi hon
Hróki unna
Hámundar bur.

Ván væri mér
vitra manna,
snarpra seggja,
ef vér saman ættim;
því at ek fannkat mey
margsvinnari
hvergi landa
enn Haka dóttur.

Fann ek aldri,
þó hefik farit víða,
hugþekkri mey
enn Haka dóttur,
hon er at öllu
sem ek œskja man[2].

Hér þykkik nú
í Haka veldi
hornungr vera
hverrar þjóðar;
allir eigu
innar at sitja
Haka gumar
enn Hálfsrekkar.

Brynhildr, dóttir Haka konungs, sagði föður sínum

1) frœðum *skb.*

2) Þessi vísa ætlar Bugge að sé eigi upphaflega rituð með sögunni.

þat, er hon hafði heyrt, ok kvað þar mundu kominn einn af Hálfsrekkum; enn er konungr vissi þat, þá leiddi hann Hrók til sætis í öndugi, ok var hann þá í hinum mesta kærleik við konung. Hrókr hinn svarti fekk Brynhildar, dóttur Haka konungs. Eftir um várit fór Hrókr með her í móti Sveini hinum sigrsæla, ok áttu þeir orrostu; þar fell Sveinn, enn Hrókr kom aftr með sigri til Haka konungs. Eftir um sumarit höfðu þeir her úti Sölvi konungr ok Haki konungr ok Hrókr hinn svarti, Eysteinn konungr ok Útsteinn með honum; þeir fóru til Noregs, áttu orrostu við Ásmund konung ok feldu hann. Hjörr hét son Hálfs konungs, er þá var konungr yfir Hörðalandi. Hrókr ok Útsteinn váru lengi síðan í víkingu, ok váru hinir mestu ágætismenn. Dóttir Hróks hins svarta ok Brynhildar var Gunnlöð, móðir Hrómundar Gripssonar.

XVII. Hjörr konungr Hálfsson átti Hagnýju, dóttur Haka konungs Hámundarsonar. Hjörr konungr fór í konungastefnu; enn meðan fæddi Hagný tvá sonu, ok váru svartir ok furðu ljótir, ok hét annarr Hámundr, enn annarr Geirmundr. Þá fæddi ambátt ok son, ok hét Leifr; hann var hinn fríðasti; drotning keypti um sonu við ambátt ok færði þann konungi. Konungr fór enn annat sinn í leiðangr; þá váru sveinarnir þrévetrir. Leifr gugnaði svá sem á aldr hans leið; enn Hámundr ok Geirmundr váru geysimiklir ok orðvísir. Bragi skáld kom þar at heimboði. Þat var einn dag at karlar allir fóru á veiðiskóg, enn konur á hnetskóg, ok var ekki heima manna í höllinni, nema Bragi sat í öndugi, enn drotning leyndist þar ok var hulin klæðum. Leifr sat í hásæti ok lék sér at gulli, enn Hámundr ok Geirmundr váru í hálminum niðr á gólfinu; þá fóru þeir til Leifs ok skúfuðu honum ór sætinu, ok tóku þeir af

honum gullit alt; hann grét þá. Þá stóð Bragi upp ok gekk þar til, er drotning lá, ok drap staf ofan á klæðin og kvað:

„Tveir 'ro inni
trúik vel báðum,
Hámundr ok Geirmundr
Hjörvi bornir,
enn Leifr þriði
Loðhattarsonr;
fœðat þú þann, kona!
fáir munu verri".

Síðan skifti Hagný aftr sveinunum við ambátt; enn er Hjörr konungr kom heim, þá bar hon sveinana til hans ok sagði, at þeir váru hans synir. Konungr svarar: „Ber í brott!" sagði hann, „eigi sá ek slík heljarskinn"; þeir váru báðir svá kallaðir síðan. Þeir váru miklir afreksmenn at afli, ok mikil ætt er frá þeim komin á Íslandi. Þórir á Espihóli var son Hámundar; þaðan eru komnir Esphælingar. Geirmundr heljarskinn nam Meðalfellsströnd í Breiðafirði; Yri hét dóttir hans, ok er þaðan mikil ætt komin.

1) 'fœddir eigi þú þann mög, kona' *skb.* Hér leiðrétt eftir Landnámu og Sturlungu.



# Af Upplendinga konungum.

---

Óláfr son Ingjalds konungs illráða af Svíaríki ruddi Vermaland; hann var kallaðr Óláfr trételgja; hann var fœddr í Vestra-Gautlandi með þeim manni, er Bófi hét; Saxi hét son Bófa, er kallaðr var flettir; móðir Óláfs var Gauthildr snót, dóttir Algauta konungs, enn hann var son Gautreks konungs ens milda, sonar Gauts, er Gautland er við kent; Álöf var móðir Gauthildar, dóttir Óláfs konungs skygna, konungs af Næríki. Enn þá er Ívarr víðfaðmi hafði lagt undir sik alt Danaveldi ok Svíaríki, þá flýði Óláfr ok mikill fjöldi þeira manna, er útlaga urðu fyrir Ívari konungi. Þeir fara norðr um Væni, ok ruddu þar markir ok bygðu þar stór heruð, ok kölluðu þat Vermaland, ok kölluðu Svíar því Óláf trételgju, ok var hann þar konungr til elli. Kona hans hét Sölva; hon var systir Sölva ens gamla, er fyrstr ruddi Sóleyjar. Óláfr ok Sölva áttu tvá syni; hét annarr Ingjaldr enn annarr Hálfdan. Íngjaldr var konungr í Vermalandi eftir föður sinn; enn Hálfdan var fœddr upp í Sóleyjum með Sölva móðurbróður sínum; hann var kallaðr Hálfdan hvítbein; hann var konungr í Sóleyjum eftir Sölva konung; hann fékk Ásu, dóttur

Eysteinn konungs illráða af Heið; sá Eysteinn lagði undir sik Eynafylki í Þróndheimi, ok fekk þeim til konungs þar hund sinn, er Sórr hét; við hann er kendr Sórshaugr; þau Hálfdan ok Ása áttu tvá syni, Eystein ok Guðrøð. Hálfdan hvítbein eignaðist Raumaríki ok mikit af Heiðmörk; hann varð sóttdauðr á Þotni ok var hann fluttr á Heiðmörk ok heygðr þar.

II. Guðrøðr son Hálfdanar var konungr á Heiðmörk eftir föður sinn; hans son var Helgi, faðir Ingjalds, föður Óláfs hvíta, er átti Unni ena djúpúðgu, dóttur Ketils flatnefs; þeira son var Þorsteinn rauðr, er jarl var í Skotlandi ok fell þar. Eysteinn son Hálfdanar hvítbeins var konungr á Raumaríki; hann átti dóttur Eiríks Agnarssonar, er konungr var á Vestfold. Eiríkr átti engan son; Agnarr faðir Eiríks var son Sigtryggs konungs af Vindli. Eysteinn konungr fell fyrir borð, ok sló hann beitiás í sundi einu mjóvu. Hálfdan hét son hans, er konungdóm tók eftir hann; gerðist hann ríkr maðr ok hermaðr mikill; hann gaf gull í mála hirð sinni svá mikit sem aðrir menn gátu silfr, enn hann tímdi eigi at gefa mönnum sínum mat, því var hann kallaðr Hálfdan enn mildi ok enn matarilli; hann átti Lifu, dóttur Dags konungs af Vestmörum; hann var sóttdauðr á Vestfold, ok er hann þar heygðr. Guðrøðr hét son þeira, er konungdóm tók eftir föður sinn; hann var kallaðr Guðrøðr enn göfugláti; hann átti Ásu, dóttur Haralds konungs granrauða, er konungr var á Ögðum; þau áttu tvá sonu; hét annarr Hálfdan enn annarr Óláfr. Guðrøðr enn göfugláti var drepinn á Geirstöðum á Vestfold, svá at hann var lagðr með kesju, er hann gekk af skipi sínu í Stíflusundi seint um kveldit; hafði Ása kona hans eggjat mann til at drepa hann, því at Guðrøðr konungr hafði áðr drepa látit Harald konung föður

hennar ok Gyrð son hans. Guðrøðr konungr hafði fyrr átt dóttur Alfarins af Álfheimum, ok hafði heiman með henni hálfa Vingulmörk; þeira son var Óláfr; hann var þá tulltíða er faðir hans fell, ok tók hann þá konungdóm eftir föður sinn; hann var allra manna mestr ok sterkastr ok fríðastr sýnum; hann var kallaðr Óláfr Geirstaðaálfr. Ása en stórráða fór norðr á Agðir með Hálfdan son sinn; hann var þá vetrgamall, ok helt hon þá því ríki, er faðir hennar hafði átt. Hálfdan vóx upp meðr Ásu móður sinni, ok var hann brátt mikill maðr ok sterkr ok svartr á hár, ok því var hann kallaðr Hálfdan svarti. Eftir fall Guðrøðar konungs tók Tólfgeirr konungr undir sik Vingulmörk, ok setti þar yfir son sinn, er kallaðr var Gandálfr; þeir feðgar eignuðust mestan hluta Raumaríkis. Enn Eysteinn konungr son Högna Eysteinssonar ens ríka ok ens illráða, lagði þá undir sik alla Heiðmörk ok Sóleyjar, enn Óláfr Geirstaðaálfr hafði Grenland ok Vestfold; hann Óláfr andaðist af fótarverk á Geirstöðum, ok er þar heygðr; son hans var Rögnvaldr, er kallaðr var heiðum-hærri; hann var konungr á Grenlandi eftir föður sinn; um hann orti Þjóðólfr hvinverski Ynglingatal, ok segir þar frá þeim konungum, er komnir vóru frá Yngvi-Frey í Svíþjóð, ok af hans nafni eru Ynglingar kallaðir.





## Hér hefir upp sögu Þorsteins Víkingssonar.

Þat er upphaf þessarar sögu, at Logi hefir konungr heitit. Hann réð fyrir því landi, er norðr er af Noregi. Logi var stœrri ok sterkari enn nokkur annarr í því landi; var lengt nafn hans ok var kallaðr Hálogi; af honum tók landit nafn, ok var kallat Hálogaland. Logi var allra manna fríðastr; brá honum um afl ok vöxt í ætt sína, því hann var risakyns. Hann átti Glöð, dóttur Gríms ór Grímsgörðum norðan ór Jötunheimum, er þá vóru kallaðir fyrir norðan í Elivógum. Grímr var hinn mesti berserkr. Hann átti Alvöru, systur Álfs hins gamla; hann réð fyrir því ríki, er liggr í milli á tveggja; þær tóku nafn af honum, ok var kölluð elfr hvórtveggi; var sú kölluð Gautelfr, er fyrir sunnan var við land Gauta konungs ok skildi við Gautland; enn sú var kölluð Raumelfr, er fyrir norðan var ok kend var við Raum konung; ríki þat var kallat Raumaríki. Þat vóru kallaðir Álfheimar, er Álfr konungr réð fyrir, enn þat fólk er alt álfakyns, er af honum er komit; vóru þat fríðari menn enn aðrar þjóðir næst risafólki.

Álfr konungr átti Bryngerði dóttur Raums konungs af Raumaríki; hon var stór kona enn ekki væn, því Raumr konungr var ljótr; er þat kallat, at þeir menn sé miklir raumar, sem ljótir eru ok stórir. Hálogi konungr átti tvær dœtr við Glöð drotningu sinni; hét önnur Eisa, enn önnur Eimyrja; þær vóru fríðari meyjar enn nokkurar aðrar í því landi; þær áttu til þess kyn, svá var faðir þeira ok móðir; enn sakir þess at eldr ok ljós birtir þar sem áðr er myrkt, tóku þessir hlutir nafn af fyrrgreindu fólki. Jarlar tveir vóru með Háloga; hét annarr Vífill enn annarr Véseti; þeir vóru báðir miklir menn ok sterkir; þeir vörðu land konungs. Þat var einn dag, at jarlarnir gengu fyrir konung, ok bað Vífill Eimyrju enn Véseti Eisu; konungr synjaði þeim báðum; þeir urðu við þat mjök reiðir, svá at litlu síðar tóku þeir þær í burt, ok stukku ór landi ok firðust fund hans, því hann gerði þá útlæga af ríki sínu, ok lét hann gera til þess galdra at þeir yrði þar aldri innlenzkir, ok lagði hann á, at þeira ættmenn yrði jafnan útlægir af sínum eignum. Véseti settist í ey þá eðr hólm, er kallaðr er Borgundarhólmr; (hann var) faðir Búa ok Sigurðar kápu. Vífill sigldi austr lengra, ok settist í þá ey, er Vífilsey heitir; hann átti son við Eimyrju konu sinni, er Víkingr hét; hann var snemma mikill vexti ok sterkari enn aðrir menn.

II. Hringr hét konungr; hann var fylkiskonungr í Svíaveldi; hann átti drotningu ok eina dóttur barna, er Húnvör hét; hon var allra kvenna fríðust ok bezt ment; hon helt skemmu mikla ok kvenna sveit. Sú hét Ingibjörg, er næst henni gekk, dóttir Herfinns jarls af Ullarakri. Þat töluðu flestir menn, at Ingibjörgu skorti ekki við konungs dóttur, nema burði ok speki, því þat bar hon yfir hvern mann þar í landi. Margir

konungar ok konungasynir báðu hennar, ok vísaði hon öllum frá. Ór hófi þótti öllum ganga metnaðr hennar ok ofstopi; töluðu þat ok margir menn, at henni mundi koma nokkur hnekkir; gekk nú svá fram nokkura tíma. Fjall eitt var at baki konungs atsetunni; þat var svá hátt, at þar lágu øngvir manna vegir yfir. Þat var einn dag, at ofan af fjallinu gekk einn maðr, ef mann skyldi kalla; hann var meiri ok illilegri enn menn hefði fyrr séð; hann var líkari jötni enn menskum manni; hann hafði í hendi flein tvíoddaðan; þetta var þann tíma er konungr sat yfir borðum; þessi raumr gekk at hallardyrum ok beiddist inn at ganga, enn dyraverðir synjuðu; sjá lagði til þeira fleininum, ok sinn oddrinn kom fyrir brjóst hvórum, ok svá út um bakit, ok hóf þá báða yfir höfuð sér ok kastar þeim báðum langt á völlinn dauðum; gekk inn síðan ok fyrir hásæti konungs ok mælti: „Með því, Hringr konungr, at ek hefi virt þik svá mikils, at ek hefi sótt yðr heim, þá þykki mér skylt, at þér gerið mitt erindi“. Konungr spyrr, hvat þat væri, eðr hvat hann héti. Hann svarar: „Ek heiti Hárekr járnhauss, er ek son Kols konungs kroppinbaks af Indíalandi, enn erindi mitt er þat, at ek vil at þér gefið í mitt vald dóttur yðra, land ok þegna; munu þat ok flestir kalla, at betr sé standanda ríkit, at ek stýri enn þú afgamall ok mannskaparlauss; enn með því at þér þykkir nokkur mótgerð í því at láta ríkit, þá skal ek þat veita þér í móti, at ganga at eiga dóttur þína Húnvöru, enn ef þér líkar þá eigi, þá mun ek drepa þik enn eiga ríkit ok hafa Húnvöru fyrir frillu“. Konungi þótti nú at höndum kominn vandi mikill, því at alt fólk varð hrygt við tal þeira. Konungr mælti þá: „Mér þykkir ráð, at vit vitum, hverju hon vill svara“. Hárekr kvað sér þat vel líka. Var þá sent

eftir Húnvöru ok þetta var borit upp fyrir henni. Hon mælti: „Vel lízt mér á þenna mann, enn verða þykki mér mega, at mér verðr hann stórr í skapsmunum, enn fullkosta er mér í honum í allan máta, enn þó vil ek at því spyrja, hvárt ekki skal til undanlausnar". „Eigi skal þat", segir Hárekr, „ef konungr vill ganga á hólm við mik at þriggja nátta fresti, eða fá mann fyrir sik, þá skal sá ráða öllum hlutum, er annan fellir á hólmi". „Víst mun þat", segir Húnvör, „at sá mun engi fást, at þik sigri í einvígi, enn þó mun ek því játa". Hárekr snýr síðan út, enn Húnvör fór til skemmu ok grét sárt. Konungr spurði eftir sína menn, hvárt enginn vildi vinna það til ráðahags við dóttur sína, at berjast við Hárek; enn þótt ráðit þætti gott, vildi enginn til vinna, því öllum þótti víss dauðinn; töluðu þat ok margir, at þetta væri henni maklegt, svá mörgum sem hon hefði frá vísat, ok mundi nú lægjast metnaðr hennar, ef hon skyldi eiga Hárek. Eymundr hét þjónustumaðr hennar; hann var henni hollr ok trúr í öllum ráðum; þenna kallaði hon til þegar um daginn, ok mælti: „Ekki mun tjá kyrru fyrir at halda; vil ek senda þik, skaltu taka skip, ok róa til eyjar þeirar, er liggr út undan Ullarakri, er Vífilsey heitir; þar stendr bœr í eynni; þangat skaltu fara, ok koma þar annat kveld um dagsetrs skeið; skaltu ganga inn í bœinn vestri dyr, ok er þú kemr inn muntu sjá roskinn mann hvatlegan ok aldraða konu; ekki mun þar fleira manna; son eiga þau, er Víkingr heitir; hann er nú fimtán vetra, manna gervilegastr; eigi mun hann á vaðbergi vera; annathvárt munum vér þaðan fá leiðrétting mála vórra, ella þykki mér seinlegt um. Láttu ekki sjá þik, (en) ef svá kann til at bera, at þú sjáir hinn þriðja manninn, þá kasta þú þessu bréfi í kné honum ok far síðan

heim". Eymundr bregðr við skjótt ok ferr á skip við tólfta mann ok kemr í Vífilsey, enn gengr einn á land ok til bœjar, ok finnr eldaskálann ok stendr at hurðarbaki; bóndi sitr við eld ok húsfreyja; lízt honum bóndi drengilegr; fölski var fallinn á eldinn, ok sá eigi glögt. Húsfreyja tók til orða: „Þat ætla ek, Vífill minn, at okkr dugi at Víkingr sonr okkar komi fram, því øngvir munu koma í móti, ok er skjótt komit at því, er hólmstefnan á at vera Háreks". „Þat þykki mér (eigi) ráð, Eimyrja", segir hann, „því sonr okkar er ungr ok álitalítill, framgjarn ok óforsjáll; er þat bráðr bani hans, ef hann lætr ginna sik til að berjast við Hárek, enn þó muntu þessu ráða". Litlu síðar spratt upp hurð at baki bónda, ok gekk þar fram maðr furðulega mikill vexti ok settist niðr hjá móður sinni. Eymundr varpaði bréfinu í kné Víking, ok hljóp út síðan ok til skips, ok kom til Húnvarar ok segir sitt erindi. Hon segir at auðna mundi ráða. Víkingr tók bréfit, ok var þar á kveðja konungsdóttur, ok þat með at hann berðist við Hárek járnhaus ok hon mundi ganga með honum. Víkingr brá lit við, ok er Vífill sá þat, þá spurði hann, hvat bréf þat væri; Víkingr sýndi honum bréfit. „Þat vissa ek", segir Vífill, „ok hefði betra verit, at ek hefði ráðit áðan, Eimyrja, eðr hvat ætlar þú til?" Víkingr segir: „Man eigi gott at frelsa konungsdóttur?" Vífill mælti: „Þat er þinn bráðr bani, ef þú berst við Hárek". „Til þess skal hætta", segir Víkingr. „Ekki mun þá verða við gert", segir Vífill, „enn segja má ek þér frá ætt hans ok honum sjálfum".

III. Tírus hinn mikli var konungr yfir Indíalandi; hann var ágætr höfðingi sakir allra hluta; hann átti sér ágæta drotning ok eina dóttur barna, er Tróna hét; hon var allra kvenna fríðust, ólík flestum konum fyrir

sakir vizku; bar hon af öllum konungadœtrum. Þann mann er at nefna til sögunnar, er Kolr hét; mart gott er af honum at segja, þat fyrst, at hann var stórr sem jötunn, ljótr sem fjandinn, ok svá fjölkunnigr, at hann fór í jörðu ok á, ok límdi saman stóð ok stjörnur; hann var svá mikil hamhleypa, at hann brást í ýmsra kvikinda líki, hann fór ýmist með vindum eðr í sjó; hann hafði svá mikinn hring á herðum, at ef hann stóð réttr, bar hærra kryppuna enn höfuðit; hann fór til Indíalands með mikinn her ok feldi Tírus frá landi, enn gekk at eiga Trónam ok tók undir sik land ok þegna ok gerðist konungr yfir; hann átti mörg börn við Trónu, ok brá þeim meir í föður ætt enn móður. Kolr var kallaðr kroppinbakr; hann átti þrjá kostgripi: þat var sverð, svá góðr gripr, at ekki var betra borið í þann tíma; sverðit hét Angrvaðill; annarr gripr var gullhringr, er Glæsir hét; þriði var horn; þat var náttúra drykkjar þess, er í var neðra gólfi, at hverr, sem af drakk, fekk vanheilsu þá, er lepra heitir ok óminni svá mikit, at hann mundi øngvan þann hlut, sem áðr hafði verit, enn ef drukkit var af efra hlut hornsins, þá bœttist þegar. Elzt barn þeira var Björn blátönn; tönn hans var blá at lit, ok stóð hálfrar annarrar alnar fram ór munni hans; oft banaði hann þar með mönnum í bardögum eða þá hann var reiðr; Dís hét dóttir Kols; it þriðja barn þeira hét Hárekr; þá hann var sjau vetra var hann sköllóttr um alt höfuð; hauss hans var svá harðr sem stál, því var hann járnhauss kallaðr; hit fjórða barn þeira hét Ingjaldr; vör hans hin efri var alnar löng frá nefi, því var hann kallaðr Ingjaldr trana. Þat var gaman þeira brœðra, þá þeir vóru heima, at Björn blátönn hjó sem hann gat tönn sinni í haus Háreki bróður sínum ok skaðaði hann ekki. Ekki festi

vopn á vör Ingjalds trönu. Kolr kroppinbakr lét seiða til þess, at ekki vópn skyldi at bana verða öllu hans afsprengi, utan sverðit Angrvaðill; ekki járn bítr þau annat. Enn þá Kolr var fullgamall, dó hann illum dauða. Þá var Tróna vanheil, ok varð léttari ok átti son, er Kolr hét eftir föður sínum; hann var svá líkr föður sínum, sem hann var honum skyldr. Þegar Kolr var vetrgamall, var hann mjök illskiftinn við ungmenni; var hann kallaðr Kolr enn krappi. Dís giftist Jökli járnhrygg; hann var blár berserkr; þau systkin skiftu arfi eftir föður sinn; hlaut Dís hornit, enn Björn blátönn sverðit, Hárekr hringinn, Ingjaldr konungdóm, enn Kolr lausafé. Þrim vetrum eftir dauða Kols konungs giftist Tróna Herfinni jarli, syni Hróðmars konungs af Marseralandi, ok átti son við henni á fyrsta vetri, er Framarr hét; hann var efnilegr ok ólíkr bræðum sínum. „Nú þykki mér svá“, segir Vífill, „at þú hættir eigi lífi þínu undir heljarmann þenna, sem engi bíta járn“. „Eigi skal þat“, segir Víkingr, „til þess skal hætta, hversu er ferr“. Ok er Vífill sér, at honum er alvara í at berjast við Hárek, þá mælti hann: „Enn má ek segja fleira af Kolssonum: vit Véseti höfðum landvörn með Háloga konungi; héldum vit í hernað á sumrum; þat var eitt sinn, at vit mœttum Birni blátönn í Græningjasundi, ok börðumst vér með því móti, at Véseti sló með kylfu sinni á hönd Birni, svá sverðit fellr ór hendi honum, ok náða ek þá sverðinu ok keyrða ek hann í gegn um, ok lét hann svá líf sitt; hefik borit síðan sverðit, ok nú vil ek gefa þér þat, frændi“; hann sótti þá sverðit ok fekk Víking; honum leizt vel á sverðit. Síðan bjóst Víkingr ok fór einn á báti; þann sama dag kom hann til konungs hallar er hólmstefnan átti at vera; var þar alt tvist ok daprt; gekk Víkingr

fyrir konung ok kvaddi hann. Konungr spyrr hann at nafni. Víkingr segir til it sanna. Húnvör sat á aðra hönd konungi. Víkingr spyrr, hvárt hon beiddi hann at koma þar; hon segir þat satt vera. Víkingr spyrr, með hverjum hætti hann skal á hólm ganga við Hárek. Konungr mælti: „Þú skalt eiga dóttur mína með sœmilegum mundi". Þessu játar Víkingr. Fastnar hann sér þá Húnvöru. Þótti flestum sem feigð mundi kalla at Víking, ef hann berðist við Hárek.

IV. Síðan fór Víkingr til hólmsins; fylgdi konungr honum með hirð sinni. Þar kom Hárekr ok spyrr, hverr við sik skyldi berjast. Víkingr gekk fram ok mælti: „Hér er sjá". Hárekr mælti: „Lítilræði þykki mér at fella þik at velli, því ek veit, at þú ert dauðr, ef ek slæ þik með knefa mínum". „Enn ek ætla at þú telir tormerki á að berjast við mik", segir Víkingr, „er þú æðrast er þú sér mik". Hárekr segir: „Eigi er þat, ok þarf ek at forða lífi þínu, er þú vilt sjálfr ganga í opinn munn heljar, ok högg þú fyrri, sem hólmgöngu lög eru til, því at ek hefi einvígi boðit, enn ek mun standa kyrr fyrir á meðan, því óhræddr er ek fyrir því at mik muni þat saka". Víkingr brá nú Angrvaðli, ok (var) því líkt sem elding brygði af honum. Enn er Hárekr sá þat, mælti hann: „Við þik skyldi ek aldri barizt hafa, hefðak vitat, at þú hefðir Angrvaðil haft; er því líkast, at svá fari, sem faðir minn sagði, at vér systkin munum skammlíf verða, nema sá einn er hans nafn bæri; var þat hit mesta slys, er Angrvaðill gekk úr várri ætt". Ok í því hjó Víkingr ofan í haus Háreki ok klauf hann allan at endilöngu, svá sverðit hljóp niðr í jörðina alt at hjöltum; konungs menn œptu þá sigróp mikit. Fór konungr heim til hallar með fagnaði. Var þá um talat, at við brull-

aupi skyldi búast; enn Víkingr sagðist eigi þat vildu: „skal hon sitja í festum þrjá vetr, enn ek skal fara í hernað“. Var nú svá gert, at Víkingr helt ór landi með tveimr skipum, ok tókst þat vel, því hann hafði sigr í hverri orrostu; ok er hann hafði tvó vetr í víking verit, lagði hann um haustit at ey nokkurri; þá var veðr gott ok hiti mikill.

V. Þenna sama dag gengr Víkingr á land einn at skemta sér; hann snýr til skógar; varð honum þá varmt mjök, ok er hann kom í eitt rjóðr fagrt, settist hann niðr, ok sér hvar kona gengr; hon var harðla fögr; hon gekk at honum ok heilsar upp á hann harðla sœmilega, enn hann tók henni vel; þau töluðust við langa stund, ok fór rœða þeira heldr vinsamlega; hann frétti hana at nafni, enn hon kvaðst Sólbjört heita. Hon spyrr, hvárt hann þyrsti ekki, því hann hafði langt gengit til. Víkingr kvað þat eigi vera. Hon tók horn undan yfirhöfn sinni, ok bauð honum at drekka, enn hann tók við ok drakk, ok eftir þat syfjar hann, ok hallast þá í kné Sólbjartar ok svaf. Enn er hann vaknar, var hon öll í burtu; honum var heldr orðit kynlegt við drykkinn; hann hafði hroll mikinn í búknum; veðrit var gustkalt, ok nær mundi hann øngvan hlut, sem áðr hafði verit, enn sízt tll Húnvarar. Fór hann til skips, ok helt í burt; tók hann þá krankleika mikinn ok lagðist í rekkju at sótt þeiri, er líkþrá heitir. Heldu þeir víða fyrir land fram, því þeir vildu hvergi ílendast, enn er hann hafði tólf mánuði legit í þessum sjúkleika, tók mjök at honum at þrengja, ok fellu mörg sár á líkam hans. Þat var einn dag, at þeir lögðu at landi, at þeir sáu sjau skip sigla fyrir höfnina, ok er þeir fundust, spurðu hvórir aðra at nafni. Víkingr sagði til sín, enn sá nefndist Hálfdan, er fyrir var, ok vera Úlfsson.

Hálfdan var stórr maðr ok sterklegr, ok þegar hann veit, hversu háttat er Víking, gekk hann á skip til Víkings ok var þá lítill máttr hans. Hálfdan spyrr, hversu at hefði borizt um mein hans. Víkingr segir alt, sem orðit hafði. Hálfdan svarar: „Þar hefir hamhleypan Dís Kolsdóttir komit við metum sínum; þykki mér seinlegt at rétta sinn hluta á henni, því hon mun þykkjast hafa hefnt Háreks járnhauss bróður síns. Nú vil ek bjóða þér fóstbrœðralag, ok vita hvárt vit getum ekki hefnt á Dísi“. Víkingr svarar: „Øngva vón veit ek mér á því, at fyrir koma Dísi eða Jökli járnhrygg bónda hennar sakir vanmættis míns, enn svá lízt mér á þik, at þó ek væri vel til reika, væri mér þetta vel boðit sakir karlmensku þinnar“. Var þetta nú staðfest, at þeir gerðust nú fóstbrœðr. Hálfdan átti dreka stóran, ok var hann kallaðr Járnbarði; hann var allr járni varðr fyrir ofan sjó, borðhár ok hinn bezti gripr. Ekki höfðu þeir þar lengi verit, áðr þeir fóru burt ok heim í Svafa; minkaði þá mátt Víkings, svá hann gerðist banvænn. Enn er þeir kómu við land, gekk Hálfdan einn frá skipum, þar til hann kom í rjóðr eitt; þar stóð steinn einn stórr; hann gekk at honum ok klappar á með sprota sínum; þar gekk út dvergr sá, er þar átti heima, er Litr hét; þeir vóru vinir miklir; hann heilsar honum blíðlega ok fréttir, hvat at erindum væri. Hálfdan segir: „Nú þykki mér mikit á liggja, fóstri, at þú gerir nú erindi mitt“. „Hvat er þat, fóstri minn“, segir Litr. „Ek vilda at þú næðir horninu góða Dísar Kolsdóttur. „Kosta þú“, segir Litr, „því þat er minn bani, ef ek leita við þat, enn ek fær þat ekki þess heldr, því þú veizt, at ekki tröll er slíkt í veröldinni sem Dís“. „Hér þykki mér á liggja nú“, segir Hálfdan. „Því mun ek þá eigi hætta“, segir Litr, „þótt

ek gefi mitt líf við?" „Vel muntu gera", segir Hálfdan. Skildu þeir þá at sinni; gekk Hálfdan þá til skipa ok dvaldist þar um hríð.

VI. Nú er at segja frá Hringi konungi, at hann sitr í sínu veldi ok Húnvör dóttir hans eftir fall Háreks járnhauss. Þótti öllum þat mikit þrekvirki verit hafa. Þessi tíðindi spurðust til Indíalands, ok þótti Ingjaldi trönu mikit fráfall hans; tók hann at skera upp herör ok sendi um alt landit, ok safnaði múg ok margmenni; margar óþjóðir hafði hann í her sínum, ok stefndi öllum þessum her til Svíþjóðar. Eigi kemr njósn fyrir honum; hann býðr konungi til bardaga. Hann bregðr við skjótt, ok hefir fátt manna, ferr þó til bardaga, ok verða þar skjót umskifti; þar fell Hringr konungr ok öll hans hirð. Enn Ingjaldr tók burt Húnvöru, ok hafði til Indíalands. Jökull járnhryggr leitar at þeim fóstbræðrum ok vill hefna Háreks mágs síns. Nú er þar til at taka, at þeir Víkingr ok Hálfdan eru í Svafa. Þá er liðnar vóru sjau nætr, kemr Litr til móts við Hálfdan ok hefir hornit. Verðr Hálfdan nú glaðr, ok ferr til Víkings, ok þótti flestum þá lítit at honum. Hálfdan dreypir þá á varir honum af hinum efra hlut hornsins; raknar Víkingr þá við, ok er hann tók at magnast, var því líkt, sem hann vaknaði áf svefni; enn svá fell óhreinindi burt af honum, sem hreistr af fiski, þar til er honum batnar dag frá degi, til þess er hann var heill. Þá bjuggust þeir í burt af Svafa, ok heldu norðr fyrir Balagarðs síðu. Sáu þeir þar átján skip ok öll stór, tjölduð svörtum tjöldum. Hálfdan mælti: „Hér trúi ek fyrir liggja Jökull járnhryggr ok hamhleypan kona hans; veit ek eigi, hversu þau Litr hafa skilit; var hann mjök máttlauss; enn nú mun ráð at halda til bardaga; skal bera fjárhlut af skipum, enn grjót í

staðinn“; var nú svá gert; greiddu þeir síðan harðan atróðr ok fréttu, hverir fyrir ætti að ráða. Jökull segir til sín ok spyrr, hverir þeir væri. Hálfdan ok Víkingr segja til sín. Þarf þá eigi at sökum at spyrja. Tóku nú til bardaga; var orrosta hin ákafasta; snøri mannfallinu á þá fóstbrœðr, því Jökull var stórhöggr. Þá réð Víkingr til uppgöngu á dreka Jökuls, ok Hálfdan þar eftir honum; var þá mikit mannfall á drekanum; mœttust þeir Jökull ok Hálfdan ok áttust við vópnaskifti, ok var Jökull sterkari, enn þó kom Hálfdan sverðshöggi á Jökul um þvert bakit, ok beit ekki á; var Jökull þó í øngri brynju, ok í því kom Víkingr at, ok hjó til Jökuls; þat högg kom á öxlina ok leysti frá síðuna ok höndina ok báða fœtrna, enn annan fyrir ofan kné. Fell Jökull þá, ok var eigi dauðr, ok mælti: „Vissa ek þat, er Dís var horfin at heillum, at mikit ilt mundi at baki bera; var þat fyrst, at ófagnaðrinn Litr sveik hana, ok kom þar við metum sínum at stela horninu frá henni, enn meiddi hana, ok liggr hon nú í rekkju af viðreign þeira, enda þœtti mér vón, at hann mundi ekki gott hafa af fengit; mundi eigi svá farit hafa, ef hon hefði verit á fótum; enn þat hlœgir mik, at þit hafið eigi náð Húnvöru konungsdóttur af Ingjaldi trönu mági mínum“. Litlu síðar deyr hann. Var þar þá œpt sigróp ok gefin grið þeim mönnum, er grœðandi vóru. Tóku þeir þar mikit herfang, enn fundu á landi Dísi ódauða at eins af sameign þeira Lits; þeir tóku hana ok drógu belg á höfuð henni og grýttu hana til heljar. Síðan heldu þeir heim í Svafa, ok létu grœða menn sína. Ok þá er þeir vóru búnir með fjögr ok tuttugu skip, öll vel búin at mönnum ok vópnum, lýstu þeir því at þeir ætla at halda til Indíalands.

VII. Ingjaldr trana hefir mikinn viðbúnað; lét

styrkja borgarveggi, ok safnar at sér múg ok margmenni ok illþýði. Þegar þeir fóstbrœðr koma við land, brenna þeir ok herja; var alt hrætt við þá; gera þeir hervirki hit mesta áðr Ingjaldr fréttir; ferr hann nú í móti þeim, ok er þeir fundust, tóku þeir til bardaga. Í øngva þóttust þeir Hálfdan ok Víkingr komit hafa slíka mannraun. Þeir fóstbrœðr dugðu mannlega, enn er á leið bardagann, snøri mannfallinu á Ingjald. Stóð þessi orrosta fjóra daga; þar kom um síðir at Ingjaldr stóð einn upp. Kómu þeir øngu sári á hann, ok nálega þótti þeim hann fara í lofti sem á jörðu. Þar kom um síðir at þeir báru at honum skjöldu ok handtóku hann; var hann þá settr í fjötr, ok bogastrengr á hendr honum; var þá svá myrkt af nótt, at þeim þótti eigi vegandа at honum, enn Víkingr vill eigi náttvíg vega. Þeir hlupu í borgina ok tóku Húnvöru ok Ingibjörgu ok fluttu til skipa ok lágu þar um nóttína, enn um morguninn vóru varðmenn dauðir enn Ingjaldr á burtu, enn járnin lágu eftir óbrotin enn bönd óleyst; ekki sást járnafar á varðmönnum; þótti Ingjaldr hafa sýnt trolldóm sinn. Drógu nú upp segl, ok sigldu í haf ok heim til Svíþjóðar. Lét Víkingr þá búast við brullaupi, ok gekk at eiga Húnvöru. Þá hafði Hálfdan uppi orð sín, ok bað Ingibjargar jarlsdóttur; var þá send orð Herfinni jarli á Ullarakr; enn er jarl kom, tók hann þessu vel; var þat at ráðum gert, at Hálfdan fekk Ingibjargar, ok var þegar við veizlu búizt ok gerr samgangr þeira. Sátu þeir þar um vetrinn. At sumri lögðu þeir í hernað, ok höfðu tíu skip ok herjuðu um Austrveg ok varð gott til fjár ok heldu heim at hausti. Þrjú sumur vóru þeir í hernaði ok heldu heim at vetrum; vóru øngvir menn frœgri enn þeir. Þat var eitt sumar, at þeir heldu til Danmerkr; herjuðu þeir þar ok

lögðu inn á Limafjörð. Þar sáu þeir liggja níu skip, dreka hit tíunda. Þeir lögðu þegar at skipunum ok spyrja, hverr fyrir réði. Hann nefndist Njörfi: „ok á ek at ráða fyrir Upplöndum í Noregi; hefik nú tekit við föðurleifð minni, enn hvert er heiti þeira, er til eru komnir?“ Þeir segja til sín. Hálfdan segir: „Ek mun bjóða yðr kosti tvó sem öðrum víkingum, at þér leggið af fé yðvart, skip ok vópn, enn gangið lausir á land“. Njörfi svarar: „Þat þykki mér harðr kostr; mun ek heldr kjósa at verja fé mitt ok falla með drengskap, ef þess verðr auðit, heldr enn flýja félausum með svívirðing, þótt þér hafið lið meira ok skip fleiri ok stœrri“. Víkingr segir: „Ekki skal hafa ódrengskap við ok leggja at yðr fleirum skipum enn þér hafið, ok skulu hjá liggja fimm vór skip“. Njörfi segir: „Þat er drengilega mælt“. Bjuggust þeir þá til orrostu ok tóku til bardaga ok börðust um stafna á skipum sínum; var þar hin ákafasta sókn, því at Njörfi barðist alldjarflega, enn þeir fóstbrœðr gengu hart fram. Þrjá daga börðust þeir; þóttust menn eigi vita, hvórir sigrast mundu. Víkingr mælti: „Er mikit fé á skipum yðrum?“ Njörfi kvað þat eigi vera, „því þar sem vér höfum herjat í sumar, hafa bœndr flúit undan með fé sitt; hefir því orðit lítit til fjár“. „Óvitrlegt þykki mér þat“, segir Víkingr, „at berjast ekki nema fyrir kapp eitt ok spilla þar til margs manns blóði, eða viltu at vit gerum félag með okkr?“ „Gott mun mér við þik félag at leggja“, segir Njörfi, „þótt þú sért eigi konungborinn; veit ek at faðir þinn var jarl ok ágætr maðr; vil ek með því fóstbrœðralag binda, at þú heitir jarl enn ek konungr sem vit erum til bornir, hvárt vit erum í mínu ríki eðr öðrum“. Hálfdan þagði hjá, er þeir töluðust við. Víkingr spyrr, því hann væri svá tillagafár. Hálfdan

mælti: „Mér þykkir sem vel sé, þótt þit játið slíku, enn eigi kemr mér þat á óvart, þótt þú kennir nokkurn þunga af einhverjum þeim, er Njörfi er nástœðr; vil ek hér øngvan hlut í eiga, hvárki letja né fýsa“. Var þetta gert, at Njörfi ok Víkingr sættust ok sórust í fóstbrœðralag eftir þvílíkum skildaga, sem áðr var sagt, ok lögðu í hernað um sumarit ok öfluðu mikils fjár ok skildu at hausti. Helt Njörfi til Noregs enn Víkingr til Svíþjóðar; var Hálfdan í ferð með honum. Enn er Víkingr hafði eigi lengi heima verit, tók Húnvör sótt og andaðist. Þau áttu eftir einn son, er Hringr hét; hann óx upp í Svíaveldi, þar til sem hann var fulltíða að aldri, ok varð þar konungr, ok var skammlífr, ok er mart manna frá honum komit. Enn þeir lágu í hernaði hvert sumar, fóstbrœðr, ok urðu frægir ok safna fjölda skipa, svá þeir höfðu fjóra tigi skipa.

VII. Þat er at segja frá Ingjaldi trönu, at hann safnar ógrynni hers, ok leitar at þeim fóstbrœðrum Víkingi ok Hálfdani. Þat var eitt sumar, at þeir fundust í Austrvegi; hafði Ingjaldr fjóra tigi skipa. Slær þar í bardaga; berjast þeir svá, at ekki mátti í milli sjá, hvárir vinna mundu. Um síðir réð Víkingr til uppgöngu á dreka Ingjalds ok Njörfi þegar eftir honum ok Hálfdan, ok ruddust um fast, svá þeir drepa hvern mann eftir annan; þá veðr Ingjaldr aftr eftir drekanum, ok hafði atgeir stóran at vega með. Sóttu þeir fóstbrœðr nú at Ingjaldi, ok var þat lengi dags, at þeir kómu øngvu sári á hann, ok þá er Ingjaldi þótti fast at herða, stökk hann fyrir borð (ok) Njörfi ok Hálfdan eftir honum, ok leggjast hvárir er meira geta. Víkingr létti eigi fyrr enn hann hafði drepit hvern mann á drekanum; síðan hljóp hann í bát ok røri til lands. Ingjaldr lagðist þar til er hann kemst at landi; þá kómu

þeir framan í lágarða Hálfdan ok Njörfi. Ingjaldr greip upp stein ok fleygði til Hálfdanar, enn hann skýtr sér undan í kaf. Njörfi komst á land í því ok Hálfdan í öðrum stað. Sóttu þeir at Ingjaldi í ákafa, ok er þat hafði gengit lengi, þá heyrðu þeir gný mikinn; litu þeir þangat sem þeim heyrðist gnýrinn, enn er þeir litu aftr, var Ingjaldr horfinn, enn í staðinn kominn grimmlegr göltr, ok lét ekki ógert; sótti hann þá at þeim, svá þeir máttu ekki annat gera enn verja sik; ok er þat hafði gengit nokkura stund, snøri göltrinn at Hálfdani, ok greip allan kálfann af vinstra fœti honum; í því kom Víkingr at, ok höggr um þvera burstina á geltinum, svá í sundr tók hrygginn. Sáu þeir, at Ingjaldr lá þar dauðr; tóku þeir síðan eld ok brendu hann upp at köldum kolum; fóru nú til skipa sinna ok binda sár Hálfdanar. Eftir þat halda þeir í burt ok norðr til eyjar þeirar, er Þruma heitir; þar réð fyrir sá maðr er Refill hét, son Mæfils sækonungs; hann átti þá dóttur, er Finna hét; hon var kvenna fríðust ok bezt at sér ger um alla hluti. Hálfdan bað hennar, ok með atgangi Njörfa konungs enn vaskleika Víkings fekk hann þetta ráð. Léttu þeir fóstbrœðr þá hernaði sínum. Settist ok Njörfi konungr at ríki sínu; staðfestist Víkingr þar ok varð jarl hans, enn Hálfdan gerðist hersir ríkr, ok bjó á þeim bœ, er í Vógum hét. Þar var stór fjallvegr í millum, er Víkingr jarl átti fyrir at ráða. Heldu þeir sinni vináttu, meðan þeir lifðu, enn færra var með þeim Hálfdani ok Njörfa.

IX. Sá konungr réð fyrir Firðafylki, er Óláfr hét ok var Eysteinsson, bróðir Önundar, föður Ingjalds illráða; allir vóru þeir ótryggvir ok illir viðrskiftis. Hann átti sér dóttur þá, er Bryngerðr hét; Njörfi fekk hennar ok hafði hana með sér, ok átti við henni níu sonu:

sér ok mælti: „Alls á ek kosti við þik, enn ek vil gefa þér nú líf ok þat með at vit verðum fóstbrœðr; skaltu konungr vera, enn ek hersir; ek vil ok biðja Ingibjargar systur þinnar, ok hafa heiman með henni eignir í Sogni". „Eigi er þat it hœgra", segir Beli, „(af því) at systir mín er horfin í burt, svá enginn veit, hvat af henni er orðit". „Þat má vera", segir Þorsteinn, „at hon sé aftr komin". „Eigi sé ek", segir Beli, „at hon fái röskara mann enn þik, ok vil ek þenna kost allan"; bundu þeir þetta með fastmælum, ok fóru nú heim í Sogn. Varð Beli þess snart varr, at systir hans var aftr komin með öllum þvílíkum blóma, sem hon hafði áðr haft í œsku sinni. Þorsteinn hefr upp orð sín, ok biðr Ingibjargar sér til handa; var þat ráðum ráðit; hafði hon heiman eignir þær, er lágu öðrum megin fjarðarins. Hét sá bœr at Framnesi, er Þorsteinn réð fyrir, enn sá á Sýrströnd, er Beli réð fyrir. Þeir Þorsteinn lögðust í hernað um vórit ok höfðu fimm skip; herjuðu þeir víða um sumarit ok varð gott til fjár, enn heldu heim at hausti ok höfðu sjau skip. Annat sumar lögðu þeir í hernað ok varð ilt til fjár, því at víkingar allir forðuðust þá; ok er þeir koma at skerjum þeim, er Elfarsker heita, lögðu þeir at höfn um kveldit; ok gengu þeir á land Þorsteinn ok Beli, ok yfir þvert nesit, þat er þeir lágu undir. Enn er þeir kómu yfir nesit, sáu þeir tólf skip liggja tjölduð svörtum tjöldum; þeir sáu tjöld á landi ok rauk af; þeir þóttust þat vita, at þat mundu vera matsveinar. Þeir köstuðu yfir sig dulklæðum ok gengu þangat, ok er þeir kómu þar at tjalddyrunum, fœrðust þeir báðir í dyrnar, svá at ekki náði út at leggja reykinn. Þeir vóru harðorðir, er mat gerðu, ok spyrja hvat stafkörlum þetta væri, at svá vóru kyndugir, at þá vildu brenna inni eðr kœfa. Þeir

létu endimlega, ok svöruðu með dimmri raust ok sögðu at þeir vildu afla sér matar, „eðr hverr er sá enn ágæti, er þessum flota ræðr, er hér liggr við land“. „Þit munuð vera heimskir karlar“, segja þeir, „at þit hafið eigi heyrt getit Úfa, er kallaðr er Slysa-Úfi, son Herbrands hins höfuðmikla, þeir eru brœðr ok Ötunfaxi; ek veit enga frægri enn þá undir sólunni“. „Vel segið þit“, segir Þorsteinn. Litlu síðar fóru þeir burt til manna sinna. Snemma um morguninn bjuggust þeir ok røru fram fyrir nesit, œptu þeir þegar heróp; hinir bjuggust þá skjótt við ok tóku til vópna sinna, ok tókst þar harðr bardagi; hafði Úfi lið meira, ok var sjálfr hinn harðfengasti; börðust þeir svá lengi, at ekki mátti í milli sjá, hvárir sigruðust. Enn þriðja dag réð Þorsteinn til uppgöngu á dreka þann, er Slysa-Úfi stýrði, ok Beli þegar eftir honum, ruddust um drengilega; drápu hvern mann fyrir framan siglu. Þá réð Úfi ór lyftingunni mót Bela, ok áttust þeir við vópnaskifti nokkura stund; bárust þá sár á Bela, því at Úfi var bæði vópnfimr ok stórhöggr. Í því kom Þorsteinn at með Angrvaðil ok höggr til Úfa; þat högg kom í hjálminn, ok klauf allan búkinn og brynjaðan manninn at endilöngu, enn sverðit kom í siglubitann ok fal báða eggteinana. Beli mælti: „Þetta þitt högg, fóstbróðir, mun uppi vera meðan Norðrlönd eru bygð“. Síðan buðu þeir víkingum tvó kosti, hvárt þeir vildu gefast upp ok halda lífi eðr eiga bardaga við þá. Þeir beiddust heldr at þiggja líf af þeim; gáfu þeir þá öllum grið, því at þeir vildu þat gjarna þiggja. Fengu þeir þá mikit herfang; lágu þeir þar þrjár nætr, ok grœddu menn sína ok heldu heim at hausti.

XXI. At vórdögum bjuggust þeir fóstbrœðr heiman ok höfðu fimtán skip; stýrði Beli dreka þeim, er átt

hafði Slysa-Úfi; þat var góðr gripr, skornir svírarnir ok grafnir ok gyltir mjök. Beli konungr hlaut drekann, því hann var beztr gripr í herfangi þeira, er þeir fengu eftir Úfa, enn þat var vani þeira, at Beli tók jafnan góðgripi þeira, er þeir fengu í herfangi. Eigi þótti annat skip betra enn drekinn utan Elliðinn, er átti Ötunfaxi bróðir hans. Þessi skip höfðu þeir erft eftir Herbrand föður sinn, ok var Elliði því betri, at hann hafði byr, hvert er hann vildi sigla; kunni hann nálega mannsmáli; enn því hafði Ötunfaxi heldr hlotit Elliða enn Úfi, at Úfa hafði hent þat slys, at hann hafði drepit föður sinn ok móður, ok þótti Ötunfaxa hann hafa fyrirgert arfi sínum, ef at réttu skyldi fara. Var Ötunfaxi fyrir þeim brœðrum sakir afls ok vaxtar ok fjölkyngi. Nú láta þeir fóstbrœðr í hernað, ok herjuðu víða um Austrveg, ok finna fátt víkinga, því allir stukku undan þeim, er til fréttu; vóru þá øngvir frægri menn í hernaði enn Þorsteinn ok Beli. Þat var einn dag, at þeir lögðust at andnesi einu; þeir fóstbrœðr sjá öðrum megin undir nesinu liggja tólf skip ok öll stór. Þeir róa skjótlega móti skipunum ok spyrja, hverr fyrir liði sé. Maðr stóð upp við siglu ok mælti: „Angantýr heiti ek, son Hermundar jarls af Gautlandi". „Þú ert efnilegr maðr", segir Þorsteinn, „eðr hversu gamall maðr ertu?" Hann svarar: „Ek er nú nítján vetra". „Hvert viltu heldr", segir Beli, „gefa upp skip þín ok fé eðr halda bardaga móti oss?" „Því skjótara skal kjósa", segir Angantýr, „sem kostir eru ójafnari; vil ek heldr verja fé mitt ok falla með drengskap, ef þess verðr auðit". „Þá búst við", segir Beli, „enn vér munum at sœkja". Bjuggust þá hvárirtveggju ok brjóta upp vópn sín. Þorsteinn mælti við Bela: „Þat er lítil drengmenska at sœkja at þeim með fimtán skipum, enn

þeir hafa eigi meir enn tólf". „Því skyldu vér eigi láta liggja hjá þrjú skip?" segir Beli; gerðu þeir svá. Var þar. harðr bardagi. Svá var lið Angantýs harðfengt, at þeir Beli ok Þorsteinn þóttust eigi í meiri mannraun komit hafa. Börðust þeir þann dag til kvelds, svá ekki mátti milli sjá, hvárir sigrast mundu. Annan dag bjuggust þeir til orrostu; þá mælti Angantýr: „Þat þykki mér ráð, Beli konungr, at vit spillum eigi mönnum okkrum lengr, ok berjumst tveir á hólmi, ok hafi sá sigr, er annan vinnr". Beli játar þessu; gengu síðan á land ok köstuðu feldi undir fœtr sér ok börðust drengilega, alt þar til at Beli mœddist; þá bárust sár á hann. Þóttist Þorsteinn sjá, at Beli mundi ekki sigrast á Angantý, ok svá kom at Beli var bæði móðr ok mjök at þrotum kominn. Þá mælti Þorsteinn: „Þat þykki mér ráð, Angantýr, at þit léttið ykkrum bardaga, því at ek sé at Beli er yfirkominn af mœði, enn ek vil eigi hafa ódrengskap til at níðast á þér, enn veita honum, enn svá mun þat fara, ef þú verðr banamaðr hans, at þá mun ek bjóða þér á hólm, ok ætla ek at okkar sé eigi minni mannamunr enn ykkar Bela; mun ek fella þik á hólmi, ok er þat mikill skaði, ef þit látizt báðir. Nú vil ek bjóða þér þann kost, ef þú gefr Bela líf, at vit sverjumst í fóstbrœðralag". Angantýr segir: „Þat þykki mér jafnaðarboð, at vit Beli gerumst fóstbrœðr, enn í því þykki mér mikit veitt, ef ek skal vera þinn fóstbróðir". Var þetta síðan bundit fastmælum; þeir vöktu sé blóð í lófum ok gengu undir jarðarmen, ok sóru þar eiða, at hverr skyldi annars hefna, ef nokkurr þeira yrði með vópnum veginn. Síðan könnuðu þeir lið sitt, ok vóru hroðin tvau skip af hvárum; þeir grœddu menn sína, þá er sárir vóru; eftir þat heldu þeir í burt þaðan þrim skipum ok tuttugu, ok heldu

heim um haustit, ok sátu um kyrt um vetrinn með mikilli virðingu. Þóttu nú øngvir menn frægri í sínum hernaði enn þeir fóstbrœðr.

XXII. Nú er vórdagar kómu bjuggust þeir heiman fóstbrœðr ok höfðu þrjá tigi skipa; heldu þeir í Austrveg, ok herjuðu þar ok um Svíþjóð ok alt hit eystra Salt; fóru þeir vel með hernaði sínum sem þeir vóru vanir, drápu víkinga ok ránsmenn, hvar sem þeir gátu þá hent, enn létu bœndr ok kaupmenn fara í friði. Nú er þar til at taka í öðrum stað, er Ötunfaxi fréttir fall Úfa bróður síns; þótti honum þat mikill skaði. Þat er af honum at segja, at hann leitar þrjú sumur samfleytt þeira fóstbrœðra. Nú er þat at segja, at þeir Beli konungr leggja einn dag at skerjum þeim, er Brennieyjar heita; leggja þeir í lægi og búast vel um; eftir þat ganga þeir fóstbrœðr þrír á land, ok þar til er þeir koma at einum bœ litlum; þar stóð maðr fyrir dyrum ok klauf skíð; hann var í grœnni heklu ok furðu digr. Hann heilsar Þorsteini með nafni. Þorsteinn segir: „Okkar er mikill kennispeki munr, þú heilsar mér með nafni, enn ek man eigi at ek hafi sét þik, eðr hvat heitir þú?“ „Óvant er nafn mitt“, segir hann, „ek heiti Brennir ok er ek Vífilsson, bróðir Víkings föður þíns; átti hann mik, þá er hann var í hernaði, er hann átti heima hjá Háloga; hefi ek hér upp vaxit í eynni ok búit hér síðan. Enn hefir þú nokkut, Þorsteinn frændi, frétt til Ötunfaxa víkings?“ „Eigi“, segir Þorsteinn, „eðr hvat kantu af honum at segja?“ „Þat“, sagði Brennir, „at hann hefir leitat þín um þrjú ár, ok liggr hann hér öðrum megin eyjanna með öllum sínum flota; vill hann hefna Slysa-Úfa bróður síns; hann hefir fjóra tigi skipa ok öll stór; hann er stórr sem tröll, enn bíta engi járn“. „Hvat er nú til ráða?“

segir Þorsteinn. „Engi ráð kann ek þér at gefa“, segir Brennir, „nema þú getir fundit Sindra dverg, því ek veit at honum er illa við hann, enda mun honum sízt ráðaskortr“. „Hvert er hans at vænta?“ segir Þorsteinn; „hann á heima í eyjunni, er hér liggr skamt undan landi, er heitir en minni Brenniey; hann býr í einum steini, enn óvænlegt þykki mér at þú getir hann fundit, enn til reiðu er þér hér í nótt“. „Hitt man fyrir liggja“, segir Þorsteinn, „at halda eigi kyrru fyrir“. Gengu þeir þá til skipa sinna; síðan setti Þorsteinn fram bát ok røri til eyjarinnar. Þorsteinn gekk þar einn á land; ok er hann kom at einum lœk, sá hann at tvau börn léku sér við lœkinn, piltr ok stúlka. Þorsteinn frétti þau at nafni; sveinninn nefndist Herrauðr enn píkan Herríðr: „hefi ek týnt gulli mínu“, segir hon, „veit ek þat muni Sindra föður mínum illa líka; mun ek eiga vón hirtingar“. Þorsteinn segir: „Hér er eitt gull, er ek vil gefa þér“. Hon tók við gullinu, ok varð glöð við: „ok skal ek þetta fá föður mínum, eðr má ek ekki þat gera, ef þér væri bati í“. „Eigi er þat“, segir Þorsteinn, „ok kom þú hingat föður þínum til tals við mik, ok fylg svá at hann sé í ráðum með mér um þá hluti er mik varðar“. „Því at eins get ek þat gert“, segir Herríðr, „at Herrauðr bróðir minn fylgi mínum vilja, því at Sindri má ekki móti honum láta“. „Veiztu þat“, segir Herrauðr, „at ek fylgi þér um alla hluti“. Þorsteinn spretti af sér silfrbelti ok gaf honum; þar fylgdi búinn knífr. Sveinninn mælti: „Þetta var vel gefit, skal ek allan hug á leggja, at þitt mál gangi fram; bíð hér til þess við systkin komum aftr“. Nú gerði Þorsteinn svá; enn er stund löng var liðin, kom þar Sindri dvergr ok þau systkin með honum. Sindri heilsar Þorsteini glaðlega ok mælti: „Hvat viltu mér,

Þorsteinn?" „Þat", segir Þorsteinn, „at ek vilda at þú legðir ráð á með mér, hversu ek gæti unnit Ötunfaxa víking". „Þar sé ek ekki ráð til", segir Sindri, „at nokkurr menskr maðr geti Faxa unnit; miklu er hann verri viðreignar enn nokkurr annarr; vil ek letja þik þess, at halda til orrostu við hann, því at þú lætr þar menn þína, ok er þér bezt at halda í burt í nótt undan eyjunum". „Þat skal aldri verða", segir Þorsteinn, „þótt ek viti þat fyrir, at ek missa lífit, þá vil ek þat þó heldr enn flýja at óreyndu". „Þat sé ek", segir Sindri, „at þú ert hin mesta kempa, legg ek þat til með þér, at þú affermir öll skip þín í nótt, ok berir fjárhlut á land, enn hlaðir skipin af trjám ok grjóti; síðan haf þú þik snemma at á morgin, ok kom fyrr at þeim enn þeir vakna; megið þit kemba þeim ekki haglegar tjaldkúlur; þurfið þit þess alls við, ef þér getið nokkurn bug á Faxa unnit, því at þat vil ek segja þér, at því síðr bíta hann nokkur járn, at hann bítr eigi sverðit Angrvaðill. Hér er einn tygilknífr, er Herríðr dóttir mín vill gefa þér ok launa þér svá gullit, ok þat ætla ek at hann bíti á Ötunfaxa, ef þú kemr honum haglega við. Herrauðr sonr minn mun því launa þér beltit, at þú skalt nefna mik á nafn, ef þér þykkir nokkut ábresta. Munu vit nú skilja fyrst at sinni, ok far þú vel ok heill; þat mæli ek um at mínar dísir sé þér jafnan til fylgis". Síðan fór Þorsteinn til báts síns ok røri til sinna manna. Bjóst hann við þegar um nóttina ok fœrði fé af skipum enn grjót í staðinn; ok er þat var gert, kom Brennir karl af bœ ofan, ok hafði kylfu stóra í hendi, alla slegna af járni ok stórum járngöddum; hon var svá þung at varla gat meðalmaðr lyft af jörðu. Brennir mælti: „Handvópn þetta vil ek gefa þér, Þorsteinn frændi, ok mun þér einum vópn-

hæft sakir þunga, enn þó mun hon heldr létt við Ötunfaxa; þykki mér nú ráð at Angantýr hafi sverðit Angrvaðil, enn þú berist með kylfunni; þó hon sé ekki fimlegt meðfœri, þá mun hon þó mannskœð vera; vilda ek nú, frændi, geta veitt þér meira lið, enn eigi hefi ek föng á því". Snýr hann þá á land upp.

XXIII. Síðan greiddu þeir róðr fram fyrir nesit er þeir vóru búnir, ok geta þá at líta, hvar Ötunfaxi liggr með öllu sínu skipaliði. Létu þeir þegar ganga grjótflaugina svá hart ok ákaft, at þeir drápu meir enn hundrað manna, áðr þeir vöknuðu, enn frá því er liðit vaknaði, tóku þeir snarplega við; var þá bardagi hinn mannskœðasti; fell mart manna af þeim fóstbrœðrum, því at svá mátti at kveða, at Faxi skyti af hverjum fingri. Gekk svá alt til nætr; vóru þá hroðin tíu skip þeira fóstbrœðra. Annan dag eftir tóku þeir til orrostu, ok gekk með þvílíku móti mannfallit, sem hinn fyrra dag; réðu þeir jafnan til uppgöngu á skip Faxa ok gerðu mikinn mannskaða hvert sinn, enn á drekann Elliða komust þeir aldri fyrir vörn Faxa, ok þess at hann var svá borðhár; enn um kveldit vóru hroðin öll skip þeira fóstbrœðra, nema drekinn Úfanautr. Þat sáu þeir báða daga, at sinn maðr kom fram á hvern hamarinn, ok skaut í ákafa út á skip Faxa; þar sáu þeir Sindra dverg, ok varð maðr fyrir hverri ör; fekk Faxi af því mikinn mannskaða. Á öðrum hamrinum var Brennir, ok skaut heldr bogmannlega út á skipin. Eigi var traust at eigi fyki steinar á skipin, ok leituðu þeir allir grunns, er hann kastaði; sukku af því mörg skipin fyrir Faxa; var þá ok svá komit, at öll skip hans vóru hroðin nema Elliði. Þetta var þann tíma, er nótt var björt, ok heldu þeir bardaga alla nóttina. Þorsteinn réð til uppgöngu á drekann ok Angantýr ok Beli, enn

mart var manna eftir á Elliða. Faxi hleypr fram á móti þeim fóstbrœðrum Angantý ok Bela; þeir eigast við hart vópnaskifti; bitu Faxa engin járn, enn eigi höfðu þeir lengi barizt, áðr sár bárust á þá báða; í því kom Þorsteinn at ok sló með kylfunni sem honum var hœgast utan við vangann á Faxa, enn hann laut hvergi við; þá sló Þorsteinn annat ok øngu minna; þá leiddust Faxa höggin, ok stökk fyrir borð ok í kaf, svá í iljar honum var at sjá; þeim varð bilt báðum Bela ok Angantý eftir at fara. Þorsteinn hljóp þegar fyrir borð ok lagðist eftir Faxa, enn hann undan; var því líkast sem hvalr legðist þar sem Faxi fór; gekk svá lengi ok þar til er Faxi kom á land; enn þeir fóstbrœðr börðust við menn sem eftir vóru, ok léttu eigi fyrr, enn þeir höfðu drepit þá alla, er á drekanum vóru; síðan tóku þeir sér bát ok røru til lands at þeim Faxa ok Þorsteini. Nú sem Faxi er á land kominn, enn Þorsteinn lagðist at framan, þreif Faxi upp stein ok sendi at Þorsteini, enn hann fór í kaf undan ok lagðist út undan, ok varð mikit áfall af því at steinninn kom niðr. Upp tók hann annan ok hinn þriðja, ok fóru allir á eina leið; ok í því kómu þeir fóstbrœðr Angantýr ok Beli. Þorsteinn kastaði eftir kylfunni á drekanum, er hann hljóp fyrir borð, ok hafði Beli tekit upp kylfuna ok kom þar at sem Ötunfaxi stendr, ok slær með kylfunni aftan undir hnakkann ok þegar annat eftir, enn Angantýr grýtti hann með stórum steinum. Tók Faxa nú heldr at sárna skallinn ok leiddist at búa undir þeira höggum, ok steypti sér í kaf ofan af hamrinum; lagðist hann þá á haf ok Þorsteinn eftir, ok er Faxi sá þat, snøri hann í móti Þorsteini, ok takast þeir til á sundinu; höfðu þeir þá sviftingar miklar ok stórar; fœrðu hvárir aðra í kaf; þó kendi Þorsteinn aflsmunar.

Þar kom at Faxi færði Þorstein til grunna; tók þá af honum sundlætin. Þorsteinn þóttist þá vita, at Faxi ætlar at bíta sundr barkann í honum. Þorsteinn mælti: „Hvat mun mér annan tíma meiri þörf á þér, Sindri dvergr, enn nú“. Þorsteinn varð við þat varr, at gripit var á herðar Faxa svá hart, at því næst var hann við grunni niðri ok Þorsteinn ofan á honum; hann var þá mjök móðr ok þjakaðr af umfangi þeira. Þorsteinn tekr þá tygilknífinn, sem Sindri gaf honum; hann stingr honum fyrir bringspalir Faxa, svá at sökk alt upp at skafti; reist hann þá niðr allan kviðinn at smáþörmum; þó fann hann at Faxi var eigi dauðr, því hann mælti þá: „Mikit þrekvirki hefir þú unnit, Þorsteinn, er þú hefir mér fyrir komit, því at ek hefi átt níu tigi orrostur ok haft í öllum sigr nema í þessi; ek hefi sigrazt átta tigi sinna í einvígum, svá ek hefi á hólm gengit, enn ek er nú níu tigi ára gamall“. Ekki þótti Þorsteini gagn at hann fleipraði fleira, ef hann mátti at gera; rak hann þá ór honum innan, þat laust var. Nú er at segja af þeim Angantý ok Bela, at þeir tóku sér skip ok røru fram á sjóinn ok leita at þeim Faxa ok Þorsteini, ok finna þá hvergi langan tíma; þá kómu þeir þar at, sem sjórinn var blandinn ok rauðr af blóði; þóttust þeir þá vita, at þar mundi Faxi á grunni niðri ok Þorstein drepit hafa; ok er stund leið, sáu þeir at flaut á sjónum nokkut óþokkalegt; þeir fóru þangat ok sáu þar fljóta innyfli mikil ok óséleg; litlu síðar kom Þorsteinn upp, ok var þá svá lúinn ok yfirkominn, at eigi gat hann flotit á sjónum. Røru þeir þá at honum ok drógu hann upp í skipit; var honum þá minni vón lífs, enn ekki var hann mjök sárr, enn hlaupit var niðr hold af beinum í hnykla; fóru þeir ok leituðu honum hœginda; raknaði hann þá skjótt; fóru þeir aftr til eyj-

anna ok könnuðu valinn, ok vóru eigi meir enn þrjá tigi manna grœðandi; fóru þeir þá til Brennis karls ok þökkuðu honum liðsemd sína; svá fór Þorsteinn til hinnar minni Brennieyjar, at finna Sindra dverg, ok gaf honum góðar gjafir, ok skildu með hinni mestu vináttu. Tók Þorsteinn drekann Elliða í sitt hlutskifti; enn Beli hafði drekann Úfanaut, enn Angantýr tók svá mikit gull ok silfr sem honum líkaði í sitt hlutskifti. Gaf Þorsteinn Brenni frænda sínum öll þau skip, er (þeir) kómust ekki með, enn þeir heldu burt á þrim skipum heim í Sogn ok sátu þar um vetrinn.

XXIV. At vórdögum heldu þeir í hernað. Angantýr spyrr, hvert þá skyldi halda; segist hyggja at eytt mundi víkingum í Eystrasalti. „Þá skulum vér“, segir Beli konungr, „halda vestr um haf, því at þangat höfum vér ekki herjat áðr“, segir hann. Nú gera þeir svá; þegar þeir koma til Orkneyja, ganga þeir þar á land ok herja, brenna bygðir enn ræna fé; gera þeir mikit hervirki, enn alt var hrætt við þá ok stökk undan. Herrauðr hét jarl sá, er stýra átti eyjunum; enn er hann spyrr þetta hervirki, safnar hann liði í móti þeim, ok fór nætr sem daga, þar til þeir fundust við ey þá, er heitir Papey; þar slær þegar í bardaga með þeim; var þar engi liðsmunr. Þeir börðust svá tvó daga, at ekki mátti í milli sjá, hvárir sigrast mundu; þar kom um síðir at mannfallinu hallaði á Herrauð; hruðust þá skip hans; náðu þeir brœðr þá uppgöngu, ok þar kom um síðir at Herrauðr jarl fell ok flestalt lið hans. Síðan fóru þeir um allar eyjar ok lögðu undir sik; eftir þat bjuggust þeir til heimferðar. Bauð Beli konungr Þorsteini eyjarnar ok gerast þar jarl yfir, enn hann kveðst þat ekki vilja; „vil ek heldr vera hersir ok skilja ekki við þik, enn heita jarl ok vera fjarlægr þér

at vistum". Þá bauð hann Angantý at vera þar jarl yfir, ok þat þá hann, ok gerðist hann jarl yfir eyjunum, ok skyldi lúka skatt árlega. Síðan heldu þeir heim í Sogn, ok sátu þar þann vetr; þeir heldu menn sína vel bæði at vópnum ok klæðum; þóttu nú øngvir menn framari enn þeir fóstbrœðr. Þeim varð barna auðit; hét Helgi ok Hálfdan synir Bela, enn Ingibjörg dóttir; var hon yngst þeira systkina. Þorsteinn átti þann son, er Friðþjófr hét. Haraldr óx upp í eyjunni hjá Grími, enn þegar hann hafði aldr til, lagðist hann í hernað, ok varð hinn frægasti maðr, þótt hans sé lítt getit í þessi sögu; helt hann nafni sínu, ok var kallaðr Haraldr kesja, ok er mart manna frá honum komit. Þeir Þorsteinn ok Beli, Grímr ok Haraldr heldu vináttu sinni meðan þeir lifðu.

XXV. Nú er þar til at taka sem Jökull Njörfason er, at hann stýrði Upplöndum, þá er þeir vóru báðir dauðir Njörfi ok Víkingr; höfðu þeir vel haldit vináttu sinni alt til dauðadags. Jökull aflaði sér skipa ok fjár, ok var hinn harðasti víkingr, ok fór í meðallagi með her sínum, enn ekki betr; gekk svá fram nokkur ár, at hann var hinn nafnfrægasti; hann lá í hernaði mest um Eystrasalt. Eigi höfðu þeir Þorsteinn ok Beli lengi heima verit, áðr þeir bjuggust í hernað, ok heldu suðr með landi, svá í gegnum Eyrarsund, ok herjuðu á Saxland um sumarit, ok gerðu mikit hervirki, ok fengu þar mikit fé í gulli ok silfri ok mörgum öðrum gersimum. Síðan ætluðu þeir at sigla heim sem þeir gerðu, ok er þeir kómu fyrir mynni á Limafirði, þá kemr at þeim stormr veðrs ok rak þá til hafs, ok skilja skjótlega skipin; tekr þá sjór at ganga á bæði borð, ok

stóðu allir menn í austri. Þar kemr at þessi stormr rekr upp nauðreka drekann Elliða at Borgundarhólmi einskipa. Þar kemr við land þann tíma Jökull með tíu skipum, ok öll vel búin sakir vópna ok manna; þarf þá eigi at (sökum) at spyrja, at Jökull lét sœkja at Þorsteini ok mönnum hans. Þorsteinn var lítt við búinn, því þeir vóru mjök dasaðir af mœði ok sjávargangi. Þessi bardagi var bæði harðr ok mannskœðr; var Jökull enn ákafasti ok eggjaði fast menn sína, ok segir at þeir mundu aldri í betra fœri komast við Þorstein; „mun oss ok ævinleg brígzl í vera, ef Þorsteinn kemst nú undan“. Sóttu þeir þá af Þorsteini ok mönnum hans, ok léttu eigi fyrr við enn menn hans vóru allir fallnir, svá enginn maðr stóð á drekanum nema Þorsteinn einsaman; hann varðist þá enn karlmannlega; var þat þá langan tíma at þeir kómu øngu sári á hann; þar kom þó um síðir at þeir (kómu) svá nærri honum, at þeir kómu á hann spjótalögum, ok hjó hann þau flestöll af sér, því at sverðit Angrvaðill beit sem vant var. Jökull sótti þá fast at ok lagði til hans spjóti í gegnum lærit. Í því hjó Þorsteinn til Jökuls; þat högg kom á höndina fyrir framan olboga ok tók af höndina; í því gátu þeir borit skjöldu at Þorsteini ok tekit hann; þá var komit at kveldi, svá þeim þótti eigi vígt at honum; var þá settr fjötr á fœtr honum enn bogastrengr á hendr; vóru þá fengnir til tólf menn at geyma hans um nóttina. Ok er allir vóru á land komnir nema þeir tólf ok Þorsteinn, mælti hann: „Hvárt vilið þér heldr skemta mér eðr ek skemti yðr?“ Þeir kváðu honum óvant um skemtun, at hann skyldi deyja þegar á morgin. Þorsteinn hugsaði nú sitt ráð ok þóttist eigi vel staddr vera; hann mælti þá hljótt fyrir munni sér:

„Hvat mun ek nú í annan tíma þurfa þín meir, Sindri félagi, enn nú, ef eigi væri lokit allri okkar vináttu?“ Sló þá dimmu yfir varðmennina ok því næst sofnuðu þeir allir. Þá sá Þorsteinn, hvar Sindri fór eftir skipinu ok at honum ok mælti: „Lítt ertu staddr nú, Þorsteinn félagi, ok mun ráð at bjarga þér“. Hann blés upp lásinn; síðan hjó hann af honum bogastrenginn; var Þorsteinn þá lauss; tók hann þá sverðit, því at hann vissi, hvar hann hafði við þat skilit; snøri hann þá til varðmanna ok drap þá alla; síðan hvarf Sindri í burt, enn Þorsteinn tók sér bát ok røri í land, ok fór burt ok heim í Sogn. Var þar fagnafundr með þeim Bela, ok þóttist hann Þorstein ór helju heimt hafa. Jökull vaknar snemma um morgininn, ok hugði gott til at taka bandingjann ok drepa, enn er þeir kómu þar, var bandinginn burtu, enn varðmenn dauðir; þóttust þeir þá sakna vinar í stað. Helt Jökull heim ok undi lítt við sína ferð, missi Þorsteins, enn fengit þau örkuml, at hann varð aldri heill; var hann kallaðr síðan Jökull enn einhenti. Þeir fóstbrœðr Beli konungr ok Þorsteinn söfnuðu liði ok fóru til Upplanda, ok gerðu orð Jökli ok hösluðu honum völl til orrostu. Jökull safnaði mönnum, ok sátu þó margir heima, þeir er lýðskyldugir vóru undir Jökul ok gerðu þat fyrir vináttu sakir við Þorstein, ok er Jökull fekk fátt manna, þá treystist hann eigi at halda til orrostu við þá, ok stökk hann ór landi ok fór þá til Vallands til Vilhjálms mágs síns; tók hann þar þriðjung ríkis til forráða. Beli konungr ok Þorsteinn lögðu undir sik Upplönd, ok fóru heim síðan ok settust um kyrt. Nokkuru síðar kómu menn af Vallandi til móts við Þorstein, þeir er Jökull sendi; var þat at erindum at

Jökull bauð Þorsteini sættir, ok skyldu þeir finnast á Limafirði, ok hafa þrjú skip hvárir, ok tengja saman sættir. Þorsteini felst þetta vel í geð, sagðist nauðigr hafa átt ófrið við Jökul sakir Njörfa konungs ok vináttu þeira Víkings; var þetta nú staðráðit. Fóru sendimenn heim, enn Þorsteinn bjóst heiman um sumarit ok hafði drekann Elliða ok tvau skip önnur. Bela þótti sjá ferð ekki vænleg; þótti Jökull svikull ok ótrúr; þat var ráð hans, at hann sendi undan njósnarmenn, at vita hvárt alt væri trygt af hendi Jökuls, ok fœri svá aftr í móti þeim til Eyrasunds. Svá gerðu þeir, ok kómu aftr ok sögðu þeim at þeir lægi á Limafirði með þrim skipum ok alt væri kyrt um þá. Heldu þeir þá fram ferðinni á fjörðinn, ok fundust í nefndum stað, ok gengu þar saman sættir með þeim at svá fyrir skildu, at mannalát, áverkar ok bardagar skyldi vera jafnt, enn Jökull skyldi taka aftr ríki sitt, ok skyldi eigi vera skattgildr undir nokkurn mann; ríki þat, er Þorsteinn átti at Upplöndum, skyldi falla undir Jökul fyrir handarhöggit; með þessu skyldu þeir vera sáttir. Fór Jökull þá heim í ríki sitt ok settist þar um kyrt. Þeir Þorsteinn ok Beli fóru heim í Sogn, ok settust nú at ríkjum sínum ok léttu öllum hernaði. Önduð var Ingibjörg kona Þorsteins, ok hafði Ingibjörg Beladóttir hennar nafn. Friðþjófr óx upp með föður sínum. Þorsteinn átti dóttur, er Véfreyja hét; hon var þá roskin, er hér var komit sögunni, því at hon var getin í hellinum hjá Skellinefju, ok þar var hon fœdd; brá henni um vísdóm til móður sinnar; hon tók Angrvaðil eftir Þorstein föður sinn; ok er mart ágætra

manna frá Þorsteini komit. Þótti öllum mönnum Þorsteinn vera hinn frægasti maðr ok hinn ágætasti af þeim mönnum, sem honum vóru samtíðis. Lúkum vér hér nú sögu Þorsteins Víkingssonar með þessu efni, ok er hin gamansamlegasta.

# Friðþjófs saga ens frœkna.

Beli hét konungr. Hann réð fyrir Sygna fylki.
átti tvó sonu ok eina dóttur. Helgi hét son
annarr Hálfdan enn dóttir Ingibjörg; hon var mjök
ok at öllu fremst konungs barna. Drotning Bela
ungs var önduð. Þaðan skamt fyrir vestan fj..
var sá staðr, er þeir kölluðu Baldrshaga; þar var
staðr ok hof mikit. Ingibjörg var fóstruð með
manni, er Hildingr hét; hann var ríkr bóndi.
hét ágætr bóndi, er bjó í Sogni. Sonr hans hét
þjófr; hann var manna vænstr ok enn mesti íþró
maðr ok langt fyrir konungs sonum. Friðþjófr
jafnan með Hildingi ok vóru þau konungs dóttir
systkin ok báru langt af öðrum mönnum. Tveir menn
nefndir; hét annarr Björn enn annarr Ásmundr,
stórættaðir, ok fóstbrœðr Friðþjófs honum vel vi
Konungr var sér ekki gnógr um lausafé, enn Þorst
hersir hafði þriðjung ríkis ok skyldr til landva
með konungi, ok var konungi enn mesti styrkr at h
um. Hann gerði konungi veizlu hit þriðja hvert ár,
vóru þær veizlur enar stórmannlegustu. Beli k



# Friðþjófs saga ens frœkna.

---

Beli hét konungr. Hann réð fyrir Sygna fylki. Hann átti tvó sonu ok eina dóttur. Helgi hét son hans ok annarr Hálfdan enn dóttir Ingibjörg; hon var mjök væn ok at öllu fremst konungs barna. Drotning Bela konungs var önduð. Þaðan skamt fyrir vestan fjörðinn var sá staðr, er þeir kölluðu Baldrshaga; þar var griðastaðr ok hof mikit. Ingibjörg var fóstruð með þeim manni, er Hildingr hét; hann var ríkr bóndi. Þorsteinn hét ágætr bóndi, er bjó í Sogni. Sonr hans hét Friðþjófr; hann var manna vænstr ok enn mesti íþróttamaðr ok langt fyrir konungs sonum. Friðþjófr var ok jafnan með Hildingi ok vóru þau konungs dóttir fóstrsystkin ok báru langt af öðrum mönnum. Tveir menn eru nefndir; hét annarr Björn enn annarr Ásmundr, ekki stórættaðir, ok fóstbrœðr Friðþjófs honum velviljaðir. Konungr var sér ekki gnógr um lausafé, enn Þorsteinn hersir hafði þriðjung ríkis ok skyldr til landvarnar með konungi, ok var konungi enn mesti styrkr at honum. Hann gerði konungi veizlu hit þriðja hvert ár, ok vóru þær veizlur enar stórmannlegustu. Beli konungr

tók nú sótt ok heimti til sín sonu sína ok mælti: „Þessi sótt mun mik heimta af ríkinu ok svó lífinu; vil ek biðja ykkr, at þit hafið þá vini, sem ek hefi haft, því at mér sýnist ykkr alt skorta við þá feðga, ok munu þeir vinhollir ef þit kunnið til at gæta. Ekki skal fé bera í haug hjá mér; haugr minn skal standa hjá firðinum, enn skamt mun okkar Þorsteins milli verða ok er vel at vit köllumst á". Ok síðan dó hann. Þá tók Þorsteinn sótt ok mælti: „Þess vil ek biðja þik, Friðþjófr, at þú sveigir til við konungs syni, því svó á at vera fyrir tígnar sakir, ok ver maðr hygginn um þitt mál". Síðan dó hann, ok var hann heygðr gegnt Bela konungi. Björn mat Friðþjófr mest, enn Ásmundr þjónaði þeim. Skip átti Friðþjófr, er Elliði hét; annarr gripr var hringr, er enginn var annarr þvílíkr. Þat lék orð á, at Friðþjófr þótti eigi minni sómamaðr fyrir utan konungs tígn enn konungs synir, ok fundu menn þat, at með þeim Friðþjófi ok konungs dóttur var ástúðlegt. Þat fundu þeir konungs synir, ok líkaði alt saman illa, ok gerðist fæð á með þeim Friðþjófi. Nú kom at því, at konungs synir áttu þangat veizlu at sœkja, ok gekk hon at vanda, ok var þat öllum auðsætt, hversu hann var langt um fram þá. Hann talaði oft við konungs dóttur, ok þá mælti hon: „Góðan hring áttu, Friðþjófr", segir hon. Hann svarar: „Ekki á ek þat, er ek hefi eigi aflat", segir hann. Hon svarar: "Þat er mál manna, at sá eigi fé sem lifir, enn eigi dauðir menn". Hann segir: „Kostr mun þér at eiga hringinn ok lóga eigi; send mér ef þér leiðist". Hon mælti: „Þú skalt fá í móti hring er ek á", ok svó var. Eftir þat skildu þau. Hann var nú fátölugr. Fóstbrœðr hans spurðu[1], hvat honum væri. Hann svarar: „Kvónfang

1) spurde *hdr*.

er mér í hug; þó þat sé mér oftígn, þá em ek þó eigi minni háttar". Björn svarar: „Því skulum vér þá eigi prófa". Síðan fóru þeir. Konungarnir sátu þá á haugi föður síns, ok kvaddi Friðþjófr þá ok mælti: „Þat er erindi mitt hingat, at ek bið systur ykkrar". Þeir svöruðu: „Eigi er þessa vitrlega leitat, at gefa hana ótígnmanni, ok eigi játum vér því, at hon sé ótígnum manni gefin". Hann svarar: „Þá er skjótt sagt, at ek mun yðr aldri lið veita". „Þat hirðum vér eigi", sögðu þeir. Hann kemr nú heim ok tekr aftr gleði sína.

II. Hringr hét konungr, er réð fyrir Svíþjóðu. Hann mælti einn tíma við sína heimulega vini: „Þat hefi ek spurt, at synir Bela konungs hafi slitit vinfengi við Friðþjóf, er ágætastr er allra þeira. Nú vil ek senda menn mína á fund þeira, at þeir gangi á mitt vald, ellegar mun ek gera lið á hendr þeim ok mun laust fyrir liggja, því þeir hafa hvórki við mér liðs afla né vitsmuni, ok er gott á gamals aldri at yfir vinna þá". Sendimenn kómu til þeira ok mæltu svó: „Svía konungr sendi ykkr orð ok vill at þit gjaldið honum skatt eða berizt við hann ella". Þeir kváðust eigi vilja nema þat á unga aldri, er þeir vildu eigi í ellinni kunna, at þjóna honum með svívirðing, ok fóru sendimenn með þeim erindum aftr til konungsins, enn konungs synir söfnuðu liði ok fengu lítit ok sendu orð Friðþjófi ok báðu hann liðs. Hann sat at tafli er sendimenn kómu. Þeir mæltu: „Konungar vórir sendu þér kveðju ok vildu liðsinni þitt til orrostu". Hann svarar øngvu ok mælti við Björn: „Tvíkostr er þér, Björn", segir hann, „ok leita ráðs tvó vega fyrir at tefla". Þá mæltu sendimenn: „Hvórt heyrir þú eigi vórt mál?" Hann kvaðst löngu heyra, „enn lið mun ek þeim aldri veita". Síðan fóru sendimenn ok sögðu

svó búit þeim brœðrum. Eftir þat bjuggust þeir til ferðarinnar, ok kváðu þat mundu ráð, at flytja systur sína í Baldrshaga, ok átta konur með henni, „því enginn mun svó djarfr at þar neinu grandi“. Var þar hof ok goðablót ok skíðgarðr um hofit, ok skyldi þar ekki saman koma konur ok karlmenn. Konungarnir fóru nú í hernað. Þat var einn tíma, at konungar báðir vóru á brott farnir, at Friðþjófr bað sína menn setja fram Elliða ok vita, hvórt hann kynni at skríða til Baldrshaga. Kómu þeir þar ok vóru viðtökur góðar. Settist Friðþjófr hjá konungs dóttur ok allir hans menn skipuðu sæti. Þá mælti konungs dóttir: „Djarft sœkir þú nú, Friðþjófr, er þú vilt nú halda hér fjórtánmenning í Baldrshaga“. Hann svarar: „Ekki hirði ek um Baldr eða blót yður[1]; jafngóðar eru mér þínar málsemdir sem heima“. Þar skorti ekki drykk né góða gleði, ok ferr nú svó fram hvern dag meðan konungarnir vóru á brott, at þeir fara þangat ok skemta sér.

III. Nú er at segja frá viðskiftum konunganna er þeir fundust, at Hringr konungr hafði miklu meira lið; gengu þá á milli vinir beggja ok báðu þá at sættast, enn Hringr konungr mælti: „Vili konungarnir ganga á mitt vald ok gifta mér systur sína ok gefa upp lausafé sem henni sómir, þá munu þeir vera í friði“. Enn með því at konungarnir höfðu lítit lið þá játuðu þeir þessu ok bundu þetta með svardögum, ok skildust þeir vinir, ok fóru þeir brœðr heim. Nú er at rœða um Friðþjóf. Hann mælti: „Vel hafi þér fagnat oss, konungs dóttir, enn nú munum vér heim fara at sinni, enn þá konungar eru heim komnir, þá gerið oss vissu á einhvern hátt“. Konungs dóttir svarar: „Ekki hafi þér at dœmum gert þetta, enn at vísu eigum

1) ydar *hdr*.

vér vinum at fagna ef þér komið". Eftir þat fóru þeir heim, ok um morguninn gekk Friðþjófr út og mælti: „Nú má vera, Björn félagi, at hefti skemtanar ferðir okkrar[1] í Baldrshaga". Nú koma konungar heim ok verða nú varir við, hvat fram hefir farit meðan þeir vóru á brott; gerðu þeir sig stórlega reiða; sögðu sér í því gerða mikla svívirðing. Fóru þá enn vinir þeira á milli ok báðu Friðþjófi griða ok at hann gerði nokkura yfirbót við konungana. Friðþjófr mælti: „Sá einn hlutr er í frið gerðr af minni hendi, at gera minningar við hina fyrri menn, enn øngvan trúleik mun ek þeim sýna". Þá mæltu sendimenn: „Þat vilja konungar taka í sætt, at þér heimtið skatt af jarlinum Angantý, er ræðr fyrir Orkneyjum, því sá skattr hefir lengi niðri legit". Friðþjófr svarar: „Þá vil ek alt fé vórt hafi frið", ok því var heitit.

IV. Þeir Friðþjófr ok hans menn bjuggust nú þrettán saman til skipsins Elliða. Svó var ætlat, at Hringr konungr skyldi sœkja konungs dóttur um haustit. Ok er Friðþjófr var á brott farinn, þá mælti Helgi: „Þat mun betr vera, bróðir, at Friðþjófr taki hegning; munum vit brenna bœ hans". Síðan brendu þeir bú hans á Framnesi. Eftir þat keyptu þeir af fjölkunnigum konum, at þær gerði œðiveðr at Friðþjófi ok mönnum hans. Nú sem þeir kómu skamt frá landi þá ókyrði sjóinn ok gerði storm mikinn[2]. Þá kvað Friðþjófr vísu:

„Þat var forðum
á Framnesi
rœdda ek oft
við Ingibjörgu.
Nú skal ek sigla

1) ockar *hdr.*
2) stor mikiñ *hdr.*

í svölu veðri,
láta létt und[1] mér
lögdýr bruna.

Ok mun nú kostr", segir hann, „at reyna góða liðsmenn ok er þetta inndælla enn í Baldrshaga". Björn svarar: „Slíks var vón, at eftir mundi koma, ok tökum enn þessu vel". Ok síðan bjuggust þeir ágætlega, því góðum drengjum var saman skipat. Þá kvað Friðþjófr vísu:

„Eigi of sér til alda,
erum vestr í haf komnir,
allr þykkir mér ægir
sem í eimyrju hrœri;
hrynja[2] hávar bárur,
haug verpa svanflaugar;
nú er Elliði orpinn
ákaflegri báru".

Björn segir: „Svó er, fóstbróðir; ekki sakar þó enn, þó þær glumri á borðunum"; ok enn kvað Friðþjófr:

„Mjök drekkr á mik,
mær mun klökkva
ef ek skal sökkva
í svana brekku;
austr er orðinn
í Elliða,
*þó lá blæja
*á bliki nokkut".

Björn mælti: „Þess minnir þik; ætlar þú enar sygnsku meyjar tárfeldar eftir þik". „Þat kemr mér í hug", segir hann. Síðan eftir þetta gerði svó mikinn storminn, at á fell forsum. Þá kvað Björn vísu:

„Erat sem ekkja
á þik vili drekka,
björt baugvara
biði nær fara;

1) under *hdr.*
2) hrijna *hdr.*

sölt eru augu,
sukkuð í laugu,
bil*ar* sterka arma,
bítr mér í hvarma“[1].

Friðþjófr mælti: „Svó mun þér þykkja; ýmiss verðr at freista“. Þá kvað Ásmundr:

„Þá var svarf um siglu
er sær of mér gnúði,
ek v*a*rð einn með átta
innanborðs at vinna;
dælla er til dyngju
dagverð konum fœra
enn sæ Elliða ausa
á úrigri báru“.

Friðþjófr mælti: „Nú brá þér í þræla ættina“. Síðan kvað Friðþjófr:

„Sat ek á bólstri
í Baldrshaga,
kvað ek *þaz*[2] kunna
fyr[3] konungs dóttur.
Nú skal ek Ránar
rannbeð troða,
enn annarr mun
Ingibjargar“.

Björn svarar: „Nú eru stórkviðir í, stallbróðir; mæl aldri slíkt; er nú æðra í orðum þínum“. Hann svarar: „Eigi er þat nú trautt, at eigi kœmi mér þat í hug“. Þá kvað hann:

„Þess hefik gangs of goldit

---

1) Þessi vísa er hér tekin eftir hinni lengri Friðþjófssögu í *Fas.*, af því að þar mun hún vera nær lagi enn í *hdr.* Í því er hún þannig rituð:

Erat sem ólga | aur at dreka | biörtt baugvarit | bide nær fara sölt eru nú | sickiu e*kki* lögi | bilskortt arma | bijtur mier i huarma.

2) tg. fyrir ‘hvat ek’, sem stendr í *hdr.*

3) fyrer *hdr.*

*gekk mér enn þér eigi
við ambáttir átta
Ingibjargar at þinga;
saman höfum brenda bauga
í Baldrshaga lagða;
var*at* vilgi fjarri
var*ðr* Hálfdanar gar*ða*"[1].

Björn mælti: „Við slíkt er nú at una, fóstbróðir". Ok í því kom svó mikit áfall, at ór laust borðin skipinu ok fórust fjórir mennirnir. Þá mælti Friðþjófr: „Nú er þat víst, at til Ránar skal fara ok búumst veglega; skal hverr vór gull hafa á sér og höggvum nú í sundr hringinn Ingibjargar-naut ok skiftum honum með oss", ok þá kvað hann:

„Nú hefir fjórum
of farit vórum
lög*r* lagsmö*nnum*,
þeim er lifa skyldu;
enn Rán býðr
röskvum drengjum
siðlaus kona
sess o*k* rekkju".

Björn mælti: „Eigi er slíks ørvænt, enda eigi vís vón". Þá kvað Friðþjófr:

„Þann sk*al* hring um höggva,
er Hálfdanar[2] átti,
áðr oss tapi ægir,
auðigr faðir, rauðan;
sjá skal gull á gestum,
ef vér gistingar þurfum,

1) Þessi vísa er hér tekin eftir hinni lengri Friðþjófss. í *Fas.*, enn tilgáturnar bygðar á *hdr.*; þar er vísan þannig: Þess hef ek gagns of golldit | gieck mærin̄ þer eige | med ambátter átta Ingebiörg á þijnge | samit höfum brendra bauga | j Balldurshaga lagdar | varar vilge fiærre | vards Halfdanar garde.

2) Þannig lengri sagan í *Fas.*; 'erat Hálfdan' *hdr.*

þat dugir rausnar rekkum
í Ránar sal miðjum".

Nú fundu þeir, at skriðr var á skipinu mikill, enn ókunnigt var þeim hvar þeir vóru komnir. Síðan fór Friðþjófr upp í tré ok kom aftr ok mælti: „Sá ek nú mjök kynlega sýn; hvalr einn legst í hring um skipit ok væri mér landa vón nærri oss, ok get ek hann vili banna oss landit, ok hygg ek þá Helga eigi búa við oss vingjarnlega ok munu þeir hafa sent oss øngva vinsending. Tvær konur sá ek á baki hvalnum ok gera oss fararbann. Nú munum vér til hætta, hvórt meira má gifta vór eðr tröllskapr þeira og stýrum at þeim". Þá kvað hann vísu:

„Sé ek tröllkonur
tvær á báru,
þær hefir Helgi
hingat sendar;
þeim skal sníða[1]
sundr í miðju
'hrygg Elliði
áðr af hafi skríði".

Síðan eggjaði hann þá mjök ok kom svó með frœknleika hans, at þeir brutu hrygg í hvórritveggju hamhleypunni. Síðan kyrði sjóinn ok marði þá skipit uppi. Vóru þeir þá ok komnir at landi, enn svó var þeim nær ekit, sem eftir lifðu, at Friðþjófr kom þeim öllum á land, nema Björn gat sjálfr borgit sér. Breiddi Friðþjófr síðan á þá seglit ok kvað vísu:

„Ek bar átta
til eldstóar
dæsta drengi
í drifaveðri;
nú hefik segli
á sand komit,

1) Þannig báðar sög. í *Fas.;* sigla *hdr.*

erat[1] ór hafsmegni
hœgt at rýma“.

Ok enn kvað hann:

„Þurfa ei drengir
dauða at kvíða,
veri þjóðglaðir
þegnar mínir;
enn mun þat verða
ef vitu draumar,
at ek eiga mun
Ingibjörgu“.

Björn mælti: „Enn kemr þér hon í hug; dælla er nú um annat at þenkja, enn þó gerir þú karlmannlega“.

V. Þar skamt frá er þeir Friðþjófr vóru at komnir réð fyrir Angantýr jarl. Þat bar til nýlundu heima hjá jarli, at maðr drakk víti sitt, er Hallvarðr hét, ok skyldi sitja á skála mót veðri. Hann helt á horni ok sást um, ok er hann gat að líta ferðir mannanna, kvað hann vísu:

Erat *á* skála
skjól at drekka
vestr-víkingi
sem vera inni;
þó eru hraustari
þeir er hlunngota
drengir ausa
í drifaveðri“.

Ok enn kvað hann:

„Sex sé ek ausa
enn sjau róa
dæsta drengi
í drifaveðri:
þat[2] er gunnhvötum
glíkt í stafni
Friðþjófi, *er* fram
fellr á árar“.

1) er *hdr.* 2) Þannig lengri sagan í *Fas.*; þar *hdr.*

Síðan gekk hann at byrlaranum og kvað vísu:

„Taktu af[1] gólfi,
gangfögr kona,
horn hvolfanda,
hefik ór drukkit;
menn sé ek á mar,
þá er munu þurfa
hreggmóðir liðs
áðr höfnum nái".

Jarlinn mælti: „Hvat er tíðinda?" „Herra", segir hann, „menn dragast at landinu, ok hygg ek vera allgóða drengi". Jarlinn mælti: „Gangið á móti þeim, ef þar er kominn Friðþjófr, er nú er einn ágætastr allra manna."

VI. Atli hét víkingr; þeir vóru tólf saman; hann heyrði rœtt um Friðþjóf ok hans fylgjara, at þeir mundu lítt staddir; þá mælti hann: „Þat er mér sagt, at Friðþjófr hafi þat heit strengt, at hann mundi øngvan fyrr friðar biðja; er nú þat at reyna, ef svó er sem þér segið, at hann sé hér við land kominn". Hallvarðr kvað þat óskylt at reyna. Atli fór síðan ok kom í þat mund, er Friðþjófr vaknaði, því at honum hafði höfgat, ok mælti: „Hitt er nú ráð, Friðþjófr, at verða vel við ok sanna hit fornkveðna, at 'öndverðir skulu ernir klóast', því ekki mundir þú þykkjast þurfa griða at biðja". Friðþjófr kvað þá vísu:

„Þér munuð ekki
oss of kúga,
æðrufullir
eyjarskeggjar;
heldr mun ek ganga
enn griða biðja
einn til ógnar
við yðr tíu".

Síðan kom Hallvarðr ok mælti: „Hættið þessari rœðu;

1) Þannig lengri sagan í *Fas.* Gack þú á *hdr.*

allir séu (þér) hér velkomnir, svó vill jarl". Var þá farit til hallar. Friðþjófr kvað (sér) þat vel líka, enn sœma þó við hvórttveggja. Hallvarðr mælti: „Heyrt höfum vér þín getit, Friðþjófr, ok nú erum vér at sönnu komnir, ok hafið þér komit í mikla mannraun". Hann kvað þá vísu[1]. Nú er þeir vóru með góðu yfirlæti, gerðist Friðþjófr ókátr. „Hví ertu fákátr?", segir jarl, „enn vér viljum vel til þín gera, ok ef þú ferr skatt at heimta, þá liggja þar skjót svör fyrir, at konungar þessir fá øngvan góðan hlut af oss, er einkis eru virðir, enn þú skalt fá þat (sem) þú um biðr ok ger þat af fé sem þér líkar, enn ekki hræðumst ek þá, enn í mót vil ek vingan þína". Friðþjófr segir: „Vingjarnlega er um mælt, ok mun ek þat þiggja". Nú var hann þar í góðri virðing af jarlinum um nokkurar stundir.

VI. Nú er þar frá at segja, at Hringr konungr kom til veizlu ok gekk at brullaupi sínu, enn þat hafði vorðit til tíðinda, at hinar fjölkunnigu konur fellu af seiðhjalli sínum, ok er veizlunni var lokit, gat Hringr konungr litit hringinn Friðþjófsnaut á hendi Ingibjörgu ok mælti: „Hvaðan kom þér hringr sá?" Hon kvað það erfð sína. „Nei", segir hann, „Friðþjófr mun hafa gefit þér; ekki skaltu hafa gull hans; fá muntu gull í ríki mínu". Síðan fekk hon hringinn í hönd konu Helga ok bað hana senda Friðþjófi, sem þau höfðu mælt. Eftir þat fór konungr heim í ríki sitt ok Ingibjörg með

1) Vísa þessi er eigi í *hdr.*, enn er þannig í *Fas.*, í hinni styttri Friðþjófssögu:

| | |
|---|---|
| Jusum vér, enn yfir | *þat var kynvar |
| *fell úr svala báru, | *kvenna drengja |
| teitir á tvau borð | hversu vér fórum |
| tíu dœgr ok átta; | *með firði. |

Og er síðari hlutinn auðsælega mjög úr lagi fœrðr.

honum, enn Friðþjófr bjóst brott ór Orkneyjum ok lét jarlinn bœta skip hans, ok skildust þeir jarl enir beztu vinir. Síðan kómu þeir Friðþjófr aftr til Noregs ok í Sogn ok fyrir bœ þann, er átt hafði Friðþjófr. Þá mælti hann: „Sortnað hafa hér nú bygðirnar". Hann hefir nú mál af mönnum, ok verða honum nú allir fegnir ok sögðu honum nú tiltœki konunganna. Hann kvað vísu:

„Drukkum forðum
á Framnesi
frœknir drengir
með föður mínum.
Nú sé ek brendan
bœ þ*ann* vera;
á ek öðlingum
ilt at gjalda".

Hann spyrr þá, at konungarnir vóru í Baldrshaga ok blótuðu. Þá mælti Friðþjófr: „Hvat sýnist þér, Björn, hversu með skal fara?" Björn mælti: „Þik læt ek hafa ráð fyrir oss", segir hann. „Þá ætla ek at fœra þeim skattinn", segir Friðþjófr, „hversu sem af hendi verðr leystr", ok svó gerðu þeir ok gengu frá skipi. Þá mælti Friðþjófr við Björn: „Ek mun ganga einn upp, enn þér skulið brjóta skip þeira á meðan, því at svó eins mun erindit af hendi leyst, at líklegt er oss þykki eigi einn veg". Konungarnir sátu nú í húsinu, enn konur þeira bökuðu goðin við eldana. Þá kvað Friðþjófr vísu:

„Einn mun ek ganga
up*p* frá ströndu;
þarf ek lítit lið
lofða at fin*na*;
verpið *ér*[1] eldi
í jöfra bœ
ef ek *eigi* kem
aftr at kveldi".

1) verpe þier *hdr.*

Björn mælti: „Þetta er vel kveðit“. Síðan gekk Friðþjófr inn fyrir Helga ok mælti: „Nú muntu vilja hafa skattinn“, fœrði upp sjóðinn ok rak á tennr honum ok braut ór honum tvær, ok fell Helgi í óvit. Enn Friðþjófr gekk at eldinum ok sá hringinn á konu Helga ok greip til hennar svó hon dragnaði, enn goðit valt út á eldinn, ok er hann kom at dyrunum, raknaði hringrinn af hendi henni, enn Friðþjófr gekk út ok kvað vísu:

„Tak þú við skatti,
skatna dróttin*n*,
fremstum tönnum,
nema þú framar beiðir[1];
silfr er á botni
belgjar niðri,
sem vit Björn höfum
báðir ráðit“.

Eftir þat gekk Friðþjófr út, helt upp hringnum ok mælti:

„Hafa skal ek baug
*ór beggja höndum
*ór svefnhúsi
*seggja meiðum
sá er hugr á mér
*af *þ*eim hringi digrum
*verðr þeim er varðar
*við lítilmagna“[2].

Björn mælti: „Þá skiftir þú at högum, at hon er eftir enn þú hafir hringinn“. Síðan ganga þeir til skipa, ok varð Friðþjófi litit aftr ok kvað vísu:

„Gekk ek því frá garði

1) eñ þú fridar bidiest *hdr.*

2) Vísa þessi er tekin eftir hinni styttri Friðþjófss. í *Fas.*, þótt hún sé aflöguð og óskiljanleg. Í *hdr.* er vísa þessi engu betri. Þar er hún þannig: Hafa sk*al* ek baug or brend*u*m | baud nu svefnhúse Svölnes sá er hugur á mier er digrañ ekki stód ek unda señ j ötla (ökla?) þar á m*ik*lum | gramur skyle v*er*dr þui er vardar | vagna lítilmagne.

*grunskjöldunga tveggja
*at ek illsöngs eyra
. . . . . . . . . . . . . .[1]
nær var *ek* nála gunni[2]
. . . . . . . . . . . . . .
þat rak *mik* hér frá húsi
heldr meir enn fleira".

VIII. Nú er þar til at taka er Helgi konungr raknaði við ok bað menn út ganga ok mælti: „Fyrirgert hefir sá sér, er eigi hlífir griðastöðum". Ok er þeir kómu út, bað hann fá sér boga sinn, ok er hann sveigði brast boginn í sundr. Friðþjófr sá þetta, sté á skip ok tók til ára, braut báðar ok kvað vísu:

„Kysta ek unga
Ingibjörgu
Beladóttur
í Baldrshaga;
svó skulu árar
Elliða báðar
brotna sundr
sem bogi Helga".

Síðan runnu þeir til skipanna, enn þau vóru öll brotin. Þá mælti Björn við Friðþjóf: „Hvat skal nú at hafast, fóstbróðir". Hann svarar: „Ek vil upp taka hermanna siðu og ráðast í víking". Ok svó gerðu þeir, ok vóru með Friðþjófi ágætir menn. Hann drap illmenni, enn bœndr vóru í friði, ok urðu þeir stórauðigir. Þat er sagt eitt sinn, at Friðþjófr mælti til manna sinna: „Leiðist mér nú þessi iðjan; ætla ek nú at skiljast við yðr ok ætla ek at hitta Hring konung, ok komið

1) Það vísuorð, er hér vantar, virðist vera í *hdr.*: 'eñ miña granam', og er ekki vit í því. Hin styttri saga í *Fas.* hefir: 'í enni mína grandvær', og er það jafnóskiljandi.

2) Hér virðist standa í *hdr.*: 'vndiñstingu fundiñ'. Í *Fas.* stendr: 'við gistingar fundi'.

at vitja mín at sumri". Björn svarar: „Þat er óvænleg ætlan, enn þó muntu ráða vilja, enn viltu ekki aftr ok drepa konungana". Hann svarar: „Til einskis er þat", ok kvað vísu:

„*Máttkat*[1] ek eiga
Ingibjörgu
Beladóttur
í Baldrshaga;
því sk*al* ek hitta
Hring at máli
o*k* vita hvé fylkir
fagnar greppi".

Björn svarar: „Ófúss em ek (á) þat, at hætta þér einum í hendr hans". Hann kvaðst ráða vilja, „ok flytið mik þangat", ok svó gerðu þeir, ok er hann kom nær bœnum, tók hann sér stafkarlsbúning ok saltkufl[2] einn mikinn ok lagði yfir sik. Hann var mikill maðr vexti ok stórlega fríðr sýnum. Síðan hitti hann hirðmenn nokkura ok fór óframlega ok spurði hvaðan þeir[3] væri. Þeir sögðust vera ór hirð Hrings konungs. Hann spurði: „Er hann ríkr konungr?" Þeir svöruðu: „Svó lízt oss, enn þó er auðsét, at þú munir hafa aldr til at stýra vitsmunum, svó at þú vitir hversu voldugr þinn konungr er". Hann svarar: „Meir hefi ek hugsat at fága saltkatla enn spyrja um konunginn". Síðan gekk hann til hallarinnar, kom inn ok nam staðar utarlega. Konungr sá manninn ok mælti: „Drotning", sagði hann, „maðr gekk inn í höllina". Drotning mælti: „Þat eru hér lítil tíðindi". „Svó er ok", segir hann. Konungr mælti: „Gakk, sveinn,

---

1) Mætkat *hdr.*
2) saltkarlskufl *Fas.*
3) hañ *hdr.*

ok spyr hver hann er eða hvaðan hann kom, eða hvar hann á kynni". Sveinninn kom fyrir hann ok mælti: „Hvat heitir þú, eða hvar varstu í nótt?" Hann svarar: „Tíðum berr þú at, eða muntu nokkura grein kunna at gera þótt ek segi þér. Þjófr heiti ek, at Úlfs[1] var ek í nótt, enn í Angri upp fœddr". Sveinninn sagði þetta konungi. „Þér skilst vel", sagði konungr; „veit ek hér í ráð heitis hans, enn það má ok vera, at manninum sé eigi oft hughœgt, enn það má vera, at stytt sé nafn hans, ok hafi hann með ótígnum verit um hríð, ok [þykki mér mikit um manninn vert"[2]. „Hvers er vert um stafkarla?" segir hon. Konungr mælti: „Forvitni er mér á at sjá hann ok sé ek at hann hugsar margt". Síðan sendi konungr eftir honum ok kom hann fyrir hann. Konungr mælti: „Hvat heitir sjá mikli maðr?" Hann sagði et sama til. Konungr mælti: „Svó má vera, ok hversu viltu fagna honum, drotning", segir hann. Hon svarar: „Sem öðrum stafkörlum". „Nei", sagði konungr, „hann mun verit hafa á skógi í nótt, er hann kvaðst Úlf gista, ok þarf hann beina, ok sit hér millum okkar drotningar", segir konungr. Drotning mælti: „Gamalœrr gerist þú nú, er þú skipar hér stafkörlum". Konungr mælti: „Eigi er ráðit þat, kasta kuflinum, Þjófr". Hann kvað þat eigi hœfa, „ok em ek óframr maðr". Konungr mælti: „Ger sem ek vil, ek verð at ráða". Síðan fór hann ór kuflinum, ok var maðrinn stórlega vel búinn. Konungr mælti: „Nú kalla ek betr vera; fá honum, drotning, skikkju sœmilega". Hon kvað svó vera skyldu, enn lítit var henni um. Konungr mælti: „Hring hefir þú

1) Ulfe *hdr.*

2) Þannig styttri sagan í *Fas.*; 'ok þeinck nú drottning um manniñ' *hdr.*

góðan, Þjófr, ok lengi muntu þar hafa salt til brent". „Þat er", segir hann, „föðurarfr minn". Konungr mælti: „Þat má vera". Settust þeir nú niðr, enn drotningu setti dreyrrauða ok vildi øngu við hann skifta, enn konungr var allglaðr ok kunni Þjófr honum margt at segja. Vel þokkaðist hann mönnum ok var þar í í góðu yfirlæti um vetrinn, enn drotning mælti fátt við hann.

IX. Þess er getit eitthvert sinn, at konungr skyldi fara til veizlu. Þá mælti konungr: „Viltu fara með oss, Þjófr?" „Já, herra", segir hann. Síðan fóru þau, ok var þeim konungi ok drotningu ekit um ís. Þá mælti Þjófr: „Fari þér varlega, ótraustr er ísinn". Konungr mælti: „Oft finst þat á, at þú hyggr um oss", ok litlu síðar brast ísinn, enn Þjófr hljóp at vagninum ok bjargaði konunginum ok öllu því er í var vagninum, enn drotning var þar ok kipti hann henni þegar upp á ísinn. Konungr mælti: „Vel var nú borgit, ok eigi mundi Friðþjófr betr hafa dugat, ok slíkt eru fylgdarmenn".

X. Þat var einn dag er vóraði, at konungr mælti við Þjóf: „Göngum nú í dag ok sjáumst um, því hér er fagrt, lystilegt ok gott landslag". Hann kvað svó vera skyldu. Gengu þeir síðan tveir saman, konungr ok Þjófr, ok kómu í skóg einn fagran. Þá mælti konungr til hans: „Syfjar mik nú mjök". Þjófr mælti: „Far heim, herra, því þat sómir betr tígnum manni". „Eigi má ek þat gera", segir konungr, „því at miklu meira syfjar mik". Lagðist hann nú niðr ok hraut þegar. Þjófr sat hjá honum, dró út sverðit ok fleygði því á brott, enn konungr settist þá upp ok mælti síðan: „Var nú nokkut svó, Friðþjófr, at ýmist kom í skapit; vel skaltu hér

kominn vera, ok þegar[1] þú komst hingat kenda ek þik hit fyrsta kveld, ok ekki máttu heðan skjótt á brott fara, því nokkut mun fyrir þik leggjast". Friðþjófr svarar: „Vel hafi þér mér veitt ok ágætlega, enn á brott skal ek nú skjótt". Eftir þat gengu þeir heim. Ok um morguninn snemma var drepit á skemmudyr konungs. Hann spurði, hver þar væri. „Hér er Friðþjófr", segir hinn, „ok ætla ek nú til ferðar", ok kvað hann þá vísu:

„Nú skal*k* þér of þakka,
þú he*fi*r prúðl*ega* veitta
— búinn er greppr at ganga —
gisting ara nisti;
ek ma*n* Ingibjörgu
[æ meðan lifum bæði;
lifi hon heil, enn hljótum
hnoss fyrir koss at senda"[2].

Konungr mælti: „Varð nú svó, at henni var meir þökkut veizlan enn mér; ekki hefir hon þó nú verit betr[3] til þín enn ek. Snæðum nú öll saman áðr þú farir ok verum kát; sit upp, Ingibjörg". Hon kvaðst eigi því nenna. „Nei", segir konungr, „vér skulúm öll saman matast", ok svó var. Þá mælti konungur: „Hér vilda ek þik dvelja, Friðþjófr". Hann mælti: „Fara ætla ek nú", ok kvað vísu:

„Bú þú, Hringr konungr,
heill ok lengi[4],
œðstr öðlinga
undir heims skauti[5];

1) strax þegar *hdr.*

2) Þannig lengri sagan í *Fas.*; medan vid lifum bæde | hun sitie heil ok hitte | hnoss fyrer koss at senda *hdr.*

3) betre *hdr.*

4) Þannig *Fas.* Hringr konungr, heill verttu leinge *hdr.*

5) under ymers hause *hdr.*

gættu, vísir, vel
vífs ok landa;
skulu vit Ingibjörg
aldri finnast".

Þá kvað konungr vísu:

„Far þú eigi svó,
Friðþjófr, heðan,
dýrstr döglinga,
í döprum hug;
þér man ek[1] gjafir
þínar launa
víst betr enn þik
of varir sjálfan".

Ok enn kvað konungr:

„Gef ek frœknum
Friðþjófi konu[2],
ok alla með
eigu mína".

Friðþjófr kvað:

„Mun ek þær gjafir
þiggja eigi,
nema þú, fylkir[3],
hafir fjörsótt tekit".

Konungr svarar: „Eigi munda ek gefa þér nema þat væri; ek em sjúkr, enn ek ann þér þessa ráðs bezt ok henni þín at njóta, því þit eruð fyrir flestum mönnum. Nú mun ek gefa þér konungs nafn, því brœðr hennar munu þér ei unna virðingar, ok fastna ek þér sjálfr konuna". Friðþjófr mælti: „Hafið mikla þökk fyrir, herra, enn eigi vil ek hærra nafn bera enn jarlsnafn". Síðan dó konungr; enn Friðþjófr gerði brullaup sitt ok var þá bæði senn drukkit erfi eftir konunginn. Síðan

1) mon ek þier *hdr.*
2) Gief ek þier fræknum | Fridþiofur konu *hdr.*
3) frægur *hdr.*

settist Friðþjófr at löndum ok þótti enn mesti ágætismaðr, ok áttu þau Ingibjörg börn saman. Varð Friðþjófr jarl kallaðr, ok er þetta fréttu brœðr hennar, mælti Helgi til bróður síns: „Slíkt eru nú firn mikil, at ótíginn maðr skal eiga systur okkra[1]. Nú förum ok gerum her á hendr honum ok rennum þessum ósköpum“. Ok svó gerðu þeir, söfnuðu miklu liði ok fóru á hendr Friðþjófi, ok er hann frétti þat, mælti hann til drotningar: „Nú eigum vér starf fyrir höndum, ok hvernig sem gengr til, þá vilda ek eigi at þér mislíkaði“. Hon svarar: „Þar er nú komit, at ek mun þik sízt láta“. Síðan fóru þeir til orrostu, ok gekk Friðþjófr svó hart fram, at hann var fremstr af sínum mönnum, ok mœttust þeir Helgi konungr ok börðust. Enn svó lauk, at Helgi konungr fell. Var þá blásit sigrópi. Þá mælti Friðþjófr: „Tveir eru kostir, Hálfdan, (at) taka sættir eðr þola bana; sýnist þat nú, at ek hafi betri málefni enn þit brœðr“. Hann kvaðst mundu þann kost taka, ok svó var. Ok fór hann heim til ríkis síns. Enn Friðþjófr settist nú at löndum, og var hann frægr maðr um öll lönd af sinni hreysti. Átti hann margt barna með konu sinni ok varð gamall maðr. Ok lýkr hér sögunni af Friðþjófi Þorsteinssyni.

1) ockar *hdr.*

---

# Hér hefr upp sögu Ketils hængs.

---

Hallbjörn hét maðr; hann var kallaðr hálftröll;
var son Úlfs hins óarga; hann bjó í eyjunni Hra
hon liggr fyrir Raumsdal; hann var ríkr maðr ok
fyrir þeim bœndunum norðr þangat. Hann var kvó
maðr, ok átti þann son, er Ketill hét; hann var m
vexti ok karlmannlegr maðr, ok ekki vænn. Enn
ar Ketill var nokkurra vetra gamall, lagðist h
eldahús; þat þótti þá röskum mönnum athlœgi,
gerði. Þat var vandi Ketils, þá hann sat við e
hann hafði aðra hönd í höfði sér, enn með annarri
aði hann í eldinn fyrir kné sér. Hallbjörn bað
eigi hafa hönd í höfði sér, ok sagði, at þá mundi
með þeim. Ketill svarar engu; hann hvarf í
nokkuru síðar, ok var í burtu þrjár nætr; þá kom
heim, ok hafði stól á baki sér; hann var vel gerr;
gaf hann móður sinni, ok kveðst henni meiri ást
at launa enn föður sínum. Þat vat einn tíma um
arit veðrdag góðan, at Hallbjörn lét aka heyi,
mikit undir; Hallbjörn gekk þá í eldaskálann til
ok mælti: „Nú væri ráð, frændi, at duga vel, ok



# Hér hefr upp sögu Ketils hængs.

Hallbjörn hét maðr; hann var kallaðr hálftröll; hann var son Úlfs hins óarga; hann bjó í eyjunni Hrafnistu; hon liggr fyrir Raumsdal; hann var ríkr maðr ok mjök fyrir þeim bœndunum norðr þangat. Hann var kvóngaðr maðr, ok átti þann son, er Ketill hét; hann var mikill vexti ok karlmannlegr maðr, ok ekki vænn. Enn þegar Ketill var nokkurra vetra gamall, lagðist hann í eldahús; þat þótti þá röskum mönnum athlœgi, er svá gerði. Þat var vandi Ketils, þá hann sat við eld, at hann hafði aðra hönd í höfði sér, enn með annarri skaraði hann í eldinn fyrir kné sér. Hallbjörn bað hann eigi hafa hönd í höfði sér, ok sagði, at þá mundi batna með þeim. Ketill svarar engu; hann hvarf í burtu nokkuru síðar, ok var í burtu þrjár nætr; þá kom hann heim, ok hafði stól á baki sér; hann var vel gerr; hann gaf hann móður sinni, ok kveðst henni meiri ást eiga at launa enn föður sínum. Þat vat einn tíma um sumarit veðrdag góðan, at Hallbjörn lét aka heyi, ok lá mikit undir; Hallbjörn gekk þá í eldaskálann til Ketils ok mælti: „Nú væri ráð, frændi, at duga vel, ok aka

heyi í dag, því at allir eru í önn nýtir“. Ketill spratt þá upp ok gekk út; Hallbjörn fekk honum tvó eyki ok eina konu til verks; ekr hann nú heyi til garðs, ok gengr at svá rösklega, at átta urðu undan at hlaða um síðir, ok þóttust þó allir nóg hafa at gera; enn er kveld kom, var borgit öllu heyinu, enda vóru þá sprungnir báðir eykirnir. Hallbjörn mælti þá: „Nú þykki (mér) ráð, frændi, at þú takir við fjárvarðveizlu, því at þú ert nú ungr ok upprennandi ok til alls vel fœrr, enn ek gerumst gamall ok stirðr ok til einkis meir“. Ketill kvaðst eigi þat vilja. Hallbjörn gaf honum þá øxi eina harðla stóra ok mjök bitrlega ok furðu gott vópn. Hann mælti: „Einn er sá hlutr, frændi, at ek vara þik mest við, at þegar degi er sett, vil ek at þú sért lítt úti, ok þó allra helzt, at þú gangir eigi norðr á eyna frá bœnum“; margt glósaði Hallbjörn þá fyrir Katli syni sínum. Björn er maðr nefndr; hann bjó skamt þaðan; hann hafði þat jafnan lagt í vanda, at dára Ketil, ok kallaði hann Ketil Hrafnistufífl. Björn røri jafnan á sjó til fiska; þat var einn dag at hann var róinn, at Ketill tók einn fiskibát ok vað ok öngul, ok røri út á mið ok sat til fiska; þar var Björn fyrir; ok er þeir sáu Ketil, hlógu þeir mjök ok dáruðu hann fast; gekk Björn enn mest fyrir þessu sem hann var vanr; þeir fiskuðu vel, enn Ketill dró eina löngu heldr kostilla, enn ekki fleira fiska. Enn er þeir Björn höfðu hlaðit, kiptu þeir upp veiðarfœrum sínum ok bjuggust heim, ok svá gerði Ketill; þeir hlógu þá at honum. Ketill mælti þá: „Nú vil ek leggja af við yðr alla mína veiði, ok skal sá yðarr eiga, sem fyrst náir“; hann þrífr þá upp lönguna ok sendi á skip þeira; langan kom við eyrat Birni bónda svá hart, at haussinn lamdist, enn Björn hraut útbyrðis ok þegar í kaf, ok kom aldri upp

síðan; þá røru hinir at landi ok svá hvórirtveggju; fátt gaf Hallbjörn sér at þessu. Eitt kveld eftir dagsetr tók Ketill øxi sína í hönd sér ok gekk norðr á eyna; enn er hann var kominn eigi allskamt í burt frá bœnum, sér hann dreka einn fljúga at sér norðan ór björgunum; hann hafði lykkju ok sporð sem ormr, enn vængi sem dreki; eldr þótti honum brenna ór augum hans ok gini; eigi þóttist Ketill slíkan fisk sét hafa eðr nokkura óvætti aðra, því at hann vildi heldr eiga at verjast fjölda manna. Dreki sjá sótti at honum, enn Ketill varðist með øxinni vel ok karlmannlega; svá gekk lengi alt þar til at Ketill gat höggit á lykkjuna ok þar í sundr drekann; datt hann þá niðr dauðr. Síðan gekk Ketill heim, ok var faðir hans úti í túni, ok heilsar vel syni sínum, ok spurði, hvórt hann hefði við nokkura glettivætti varr orðit norðr á eynni. Ketill svarar: „Ekki kann ek at fœra í frásagnir, hvar ek sé fiska renna, enn satt var þat, at sundr hjó ek einn hæng í miðju, hverr sem hrygnuna veiðir frá“. Hallbjörn svarar: „Lítils mun þér síðar vert þykkja um smáhluti, er þú telr slík kvikendi með smáfiskum; mun ek nú auka nafn þitt ok kalla þik Ketil hæng“; settust þeir nú um kyrt. Eldsætinn var Ketill mjök. Hallbjörn sótti mjök veiðiskap, ok beiddist Ketill at fara með honum; enn Hallbjörn kvað honum makara at sitja við elda enn vera í sjóförum. Enn er Hallbjörn kom til skips, var Ketill þar fyrir, ok kunni Hallbjörn þá eigi at reka hann aftr; gekk Hallbjörn þá fyrir framstafn á ferjunni, enn bað Ketil ganga fyrir skut ok setja á; Ketill gerði svá, ok gekk hvergi. Hallbjörn mælti: „Ólíkr ertu frændum þínum, ok seint ætla ek, at afl verði í þér; enn ek var vanr, áðr enn ek eltumst, at setja einn ferjuna“. Ketill reiddist þá ok hratt fram ferjunni svá hart, at Hall-

björn hraut fallinn út á fjörugrjótit, enn ferjan stöðvaðist ekki fyrr enn út á sjó. Hallbjörn mælti þá: „Lítt lætr þú mik njóta frændsemi frá þér, er þú vilt brjóta bein í mér, enn þat vil ek nú tala, at ek ætla, at þú sért nógu sterkr, því at ek vilda nú reyna afl þitt, ok stóð ek við sem ek gat fastast, enn þú settir fram sem áðr; þykki mér góð sonareign í þér“; fara þeir nú í veiðistöð. Hallbjörn gætti skála, enn Ketill røri á sjó; hann komst við stór föng; þá røru at honum tveir menn allvíglegir; þeir báðu hann láta laus föngin; enn Ketill neitar því ok spurði þá at nafni; annarr kveðst heita Hængr, enn annarr Hrafn, ok vera brœðr. Þeir sóttu at honum, enn Ketill varðist með kylfu ok sló Hæng fyrir borð ok drap hann svá, enn Hrafn røri á burt. Ketill fór heim til skála síns, ok gekk faðir hans á mót honum ok spurði, hvórt hann hefði nokkut fundit manna um daginn. Ketill kveðst fundit hafa brœðr tvó, Hæng ok Hrafn; Hallbjörn mælti: „Hversu fóru skifti yðar? enn gerla veit ek deili á þeim; þeir eru hraustir menn, ok eru útlægir úr bygðinni fyrir óspektir sínar“. Ketill kveðst hafa drepit Hæng fyrir borð, enn Hrafn hefði flúit. Hallbjörn mælti: „Gjarn ertu, frændi, á stórfiskana, ok því er þó vel til fundit um nafn þitt“. Annan dag fóru þeir heim með föng sín; þá var Ketill ellifu vetra, ok batnaði nú frændsemi þeira.

II. Þenna tíma var hallæri mikit á Hálogalandi, enn bú þeira eru mjök í sjónum. Ketill kveðst þá vilja fara til fiskjar ok vera eigi allr ómagi. Hallbjörn bauð at fara með honum. Ketill kveðst vera vel einfœrr meðr ferjuna. „Þetta er óráðlegt“, sagði Hallbjörn, „ok viltu einráðr vera; enn þrjá fjörðu mun ek nefna fyrir þér; heitir einn Næstifjörðr, annar Miðfjörðr, þriði Vitaðsgjafi, ok hefir nú langt verit síðan ek fór ór þeim tveim, ok

var þá eldr í báðum skálum". Þetta sumar fór Ketill í Miðfjörð, ok lifði þar eldr í skála; inni í fjarðarbotni fann Ketill stóran skála, ok var bóndinn þar ekki heima er Ketill kom; mikinn veiðifanga sá hann þar, ok grafir stórar í jörð niðr grafnar, ok reif hann alt upp ór þeim, ok kastar út hér ok hvar; hann fann þar í af hvölum ok hvítabjörnum, selum ok rostungum ok alls konar dýrum, enn á botninum í hverri gröf fann hann mannakjöt saltat; alt rak hann þat út, ok spilti hann þar hvívetna; enn er kveldaði heyrir hann áragang mikinn; gekk hann þá til sjóvar; bóndi røri þá til lands; hann hét Surtr; mikill var hann ok illilegr. Þegar skipit kendi grunns, sté hann fyrir borð, ok tók skipit ok bar upp í naust, ok nálega óð hann jörðina til knjá; hann var dimmraddaðr, ok mæltist við einsaman: „Hér er illa um gengit", sagði hann, „at hrökt er öll eiga mín, ok með þat þó verst farit, sem bezt er, sem eru mannakrof mín; væri slíkt launa vert; hefir nú ok eigi haglega um skifzt, at Hallbjörn vinr minn sitr nú kyrr heima, enn Ketill hængr, eldhúsfíflit, er nú hér kominn, enda væri mér aldri við of, at launa honum; væri mér næsta skömm í því, at bera eigi langt af honum, þar sem hann hefir vaxit upp við eld ok verit kolbítr". Hann snýr heim til skálans, enn Ketill undan, ok nemr stað að hurðarbaki með reidda øxina; enn er Surtr kemr at skálanum, verðr hann at lúta í dyrunum harðla mjök, ok rekr fyrst inn höfuðit ok herðarnar; Ketill höggr þá á hálsinn með øxinni; hon söng hátt við, er hon sneið af honum höfuðit; fell jötuninn þá dauðr á skálagólfit; þar hlóð Ketill ferju sína, ok fór heim um haustit. Annat sumar fór hann til Vitaðsgjafa; Hallbjörn latti þess, ok kvað gott heilum vagni heim at aka; Ketill kvað ekki

duga ófreistat, „ok mun ek fara“, sagði hann. „Reimt mun þér þar þykkja“, sagði Hallbjörn, „enn auðsýnt er þat, at þú vilt mínar eldstóar kanna ok við mik jafnast í hvervetna“. Ketill kvað hann rétt geta. Síðan fór hann norðr í Vitaðsgjafa, ok fann þar skála ok bjóst um; þar skorti ekki veiðiskap; mátti þar taka fiska með höndum sér. Ketill festi fangit í naust sitt ok fór síðan at sofa; enn um morguninn er hann kom til var í burtu alt fangit. Aðra nótt vakti Ketill; þá sá hann jötunn ganga í naustit, ok batt sér byrði mikla; Ketill gekk at honum, ok hjó til hans með øxinni á öxlina, og fell byrðrin ofan; jötuninn brást við fast er hann fekk sárit, svá at Katli varð laus øxin, ok stóð hon föst í sárinu; jötuninn hét Kaldrani; hann hljóp inn í fjarðarbotninn ok í helli sinn, enn Ketill eftir. Þar sátu tröll við eld ok hlógu mjök, ok kvóðu Kaldrana hafa fengit maklega skrift fyrir sinn tilverknað; Kaldrani kvað sárinu meiri þörf smyrsla enn ávíta. Þá kom Ketill í hellinn, ok kveðst vera læknir ok bað færa sér smyrsl ok kveðst vilja binda sár hans. Tröllin fóru innar í hellinn; enn Ketill þreif øxina ór sárinu, ok hjó jötuninn banahögg; fór heim síðan til skála síns ok hlóð ferju sína ok fór heim síðan; ok tók Hallbjörn vel við honum, ok spurði, ef hann hefði við nokkut varr orðit. Ketill kvað þat fjarri farit hafa; Hallbjörn kvað þá mjök endr rjóða, „ok saztu um kyrt?“ sagði hann. „Já“, sagði Ketill.

III. Um haustit fyrir vetrnætr bjó Ketill ferju sína. Hallbjörn spurði, hvat þá skal at hafast. Ketill kveðst ætla í veiðiför. Hallbjörn kvað þat øngra manna hátt, „ok gerir þú þetta í óleyfi mínu“. Ketill fór ekki at síðr; ok er hann kom norðr á fjörðu, tók hann ofviðri ok sleit undan til hafs ok náði ekki höfn, ok rak

hann at björgum nokkurum norðr fyrir Finnmörk ok lendi þar er björgin skildust; bjóst hann nú um ok sofnar; enn hann vaknar við þat, at skipit skalf alt; hann stóð upp ok sá, at tröllkona tók í stafninn ok hristi skipit. Ketill hljóp í bátinn, ok tók upp smjörlaupa nokkura, ok hjó festina ok røri í burt; helzt ofviðrit; þá lagðist hvalr at honum, ok skýldi skipinu við veðrinu, ok þótti honum manns augu í honum vera; ok þá rak hann at skerjum nokkurum ok braut hann bátinn, ok lagðist í sker nokkur ok sá hann þá ekki nema sorta til lands, ok lagðist hann þangat eftir hvíld sína, ok komst at landi ok hitti götu ór fjörunni ok fann bœ; þar stóð maðr úti fyrir dyrum ok klauf skíð; hann hét Bruni; sá tók við honum vel ok kvað vísu:

„Heill kom þú, Hængr!
hér skaltu þiggja
í allan vetr
með oss vera;
þér mun ek fastna,
nema þú fyrirlátir,
dóttur mína,
áðr dagr komi“.

Ketill kvað vísu:

„Hér mun ek þiggja,—
hygg ek at valdi
Finns fjölkyngi
feikna veðri;
ok í allan dag
einn jós ek við þrjá;
hvalr kyrði sjá; —
hús mun ek þiggja“.

Þeir gengu síðan inn; þar vóru fyrir tvær konur. Bruni spurði, hvórt hann vill liggja hjá dóttur hans eðr einnsaman; hon hét Hrafnhildr, ok var harðla stór vexti ok þó drengileg; svá er sagt, at hon hafði alnarbreitt andlit. Ketill kveðst hjá Hrafnhildi liggja vilja. Síðan

fóru þau í rekkju, ok breiddi Bruni á þau uxahúð efsta; Ketill spurði, hvat því skyldi. „Ek hefi hingat boðit Finnum, vinum mínum“, (sagði Bruni), „ok vil ek eigi, at þit verðit fyrir sjónum þeira; þeir skulu nú koma til smjörlaupa þinna“. Finnar kvómu, ok vóru eigi mjóleitir; þeir mæltu: „Mannfögnuðr er oss at smjöri þessu“; síðan fóru þeir í burt; enn Ketill var þar eftir, ok skemti sér við Hrafnhildi; hann fór ok jafnan í skotbakka ok nam íþróttir; stundum fór hann á dýraveiðar með Bruna. Um vetrinn eftir jól fýstist Ketill í burt; enn Bruni kvað eigi þat mega fyrir vetrarríki ok illum veðrum: „enn Gusi Finna konungr liggr úti á mörkum“. Um vórit bjuggust þeir Bruni ok Ketill til ferðar; þeir fóru hit fremra um fjörðu; ok er þeir skildu, mælti Bruni: „Far þú þá leið, sem ek vísa þér, enn eigi á skóginn“; hann gaf honum skeyti nokkur ok brodd einn, ok bað hann hans neyta, ef hann þyrfti, í nauðsyn sína; síðan skildu þeir, ok fór Bruni heim. Ketilll mæltist við einnsaman: „Því mun ek eigi fara hina skemri leiðina, ok hræðast ekki grýlur Bruna?“ síðan snøri hann á skóginn, ok sá hann mjallroku mikla, ok at maðr rendi eftir honum ok hafði tvá hreina ok vagn. Ketill kvaddi hann með vísu:

„Skríð þú af kjálka,
kyrr þú hreina,
seggr síðförull,
seg, hvat þú heitir“.

Sá svarar:

„Gusa kalla mik
göfgir Finnar;
em ek oddviti
allrar þjóðar.

Hvat er þat manna,

er mér í móti ferr
ok skríðr sem vargr af viði?
sæðru skaltu mæla,
ef þú undan kemst
þrisvar fyrir Þrumu.

Því tel ek þik ósnjallan“; þeir fundust fyrir Ófara-Þrumu. Ketill kvað vísu:

„Hængr ek heiti,
kominn ór Hrafnistu,
hefnir Hallbjarnar,
hví skríðr þú svá, hinn armi?
friðmálum mæla
mun ek ei við Finn ragan,
heldr mun ek boga benda,
þann mér Bruni gaf“.

Gusi þóttist nú vita, hverr Hængr sé, því at hann var frægr mjök. Gusi kvað vísu:

„Hverr er á öndrum
öndverðan dag,
gjarn til gunnar
í grimmum hug?
vit skulum freista
flein at rjóða
hvórr at öðrum,
nema hugr bili“.

Ketill kvað:

„Hæng kalla mik
hálfu nafni;
mun ek veita þér
viðnám heðan;
skaltu víst vita,
áðr vit skiljum,
at búkörlum
bíta örvar“.

Gusi kvað:

„Bústu nú við
bitri eggþrumu;
haf þú hlíf fyrir þér,
hart mun ek skjóta;
þér mun ek bráðlega
at bana verða,
nema þú af auði
öllum látir“.

Ketill kvað:

„Mun ek af auði
eigi láta
ok fyrir einum þér
aldri renna;
fyrr skal þér höggin
hlíf fyrir brjósti,
ok fyrir sjónum
svart at ganga“.

Gusi kvað:

„Skaltu ei gulli
né gersimum

með heilum hug
heima ráða;
kemr þér bani
brátt at höndum,
ef vit skulum úti
oddum leika".

Ketill kvað:

„Mun ek ei gulli
við Gusa skifta,
né heldr fyrri
til friðar mæla;
mér er bragr
betri miklu
enn mér er hugr
ok heðankvóma".

Síðan bendu þeir upp boga sína, ok lögðu örvar á streng ok skutust í odda, ok fór svá tylft örva hvórs, at niðr fellu. Fleinn einn var þá eftir, er Gusi átti; broddr Ketils var ok eftir; þá tók Gusi fleininn, ok sýndist honum hallr ok steig hann á. Ketill mælti:

„Feigr er nú
Finnr hinn ragi
er hann fóttreðr
flein sinn rangan".

Síðan skutust þeir at, ok mœttust nú ekki á fluginum, ok fló broddrinn í brjóst Gusa, ok fekk hann bana. Bruni hafði látit Gusa sýnast hallr fleinninn, því at hann var konungdóminum næstr, ef Gusa yrði nokkut, enn þóttist áðr vanhaldinn af skiftum þeira. Gusi hafði haft sverð þat, er Dragvendill hét, allra sverða bezt; Ketill tók þat af Gusa dauðum ok örvarnar Flaug, Hremsu ok Fífu. Ketill fór aftr til Bruna ok sagði honum, hvat í hafði gerzt; Bruni kvað sér nærri höggit, at bróðir hans var drepinn; Ketill kveðst nú hafa unnit undir hann konungdóminn; síðan fylgdi Bruni honum í bygðina, ok skildust þeir með miklum kærleikum. Eigi er fyrr sagt af ferðum Ketils, enn hann kom heim til Hrafnistu; hann hitti bónda einn, ok spurði, hvat skip þau skyldu, er fóru til eyjarinnar; bóndi kvað þat vera boðsmenn, ok ætti at drekka erfi eftir Ketil, ef þá spyrðist ekki til hans. Ketill fór á vóndu skipi til eyjarinn-

ar ok gekk inn í skálann, ok urðu menn honum fegnir; var nú veizlunni snúit í fagnaðaröl í mót Katli; var hann nú heima þrjá vetr; þá kom þar skip við eyna, ok var þar á Hrafnhildr Brunadóttir ok son þeira Ketils, er Grímr hét. Ketill bauð þeim þar at vera. Hallbjörn mælti: „Því býðr þú trölli þessu hér at vera?“ ok var hann mjök byrstr ok styggr við hennar kvómu. Hrafnhildr kvað hvórigum þeira mein mundu at henni vera, „ok mun ek burt heðan fara, enn Grímr son okkar, loðinkinni, skal eftir vera“; því var hann svá kallaðr, at kinn hans önnur var loðin, ok með því var hann alinn; þar festi ekki járn á. Ketill bað Hrafnhildi eigi reiðast fyrir þessa sök; hon kvað þeim lítt mundu undir þykkja reiði hennar; síðan fór hon heim ok røri norðr með landi, enn bað Grím þar vera þrjá vetr ok kveðst þá mundu koma eftir honum.

IV. Bárðr hét maðr, góðr bóndi, ok átti dóttur fríða, er Sigríðr hét; sá þótti þá beztr kostr. Hallbjörn bað Ketil biðja sér konu, ok hyggja svá af Hrafnhildi. Ketill kvað sér ekki hug á kvónföngum, ok var hann jafnan hljóðr síðan þau Hrafnhildr skildu. Ketill kveðst mundu fara norðr með landi; enn Hallbjörn sagðist mundu fara bónorðsför fyrir hann, „ok er þat ilt, at þú vilt elska tröll þat“. Síðan fór Hallbjörn bónorðsför til Bárðar; bóndi kvað Ketil hafa farit meiri ok torveldari ferðir enn biðja sér konu. „Vænir þú mik lygi?“ sagði Hallbjörn. Bóndi svarar: „Veit ek, at Ketill væri hér kominn, ef honum væri hugr á þessu, enn eigi hefi ek traust til né vilja, at synja þér konu“, ok keyptu þeir saman, ok var ákveðin brullaupsstefna. Síðan fór Hallbjörn heim; Ketill spurði ekki at tíðindum; Hallbjörn kvað mörgum meiri á vera um ráðahaginn forvitnina enn Katli; enn Ketill gaf at því øngvan gaum,

enn þó gekk fram þessi ráðastofnun, ok var veizlan góð. Ketill fór ekki af klæðum hina fyrstu nótt er þau kvómu í eina sæng; hon fór ekki at því, ok samdist brátt með þeim. Eftir þetta andaðist Hallbjörn; enn Ketill tók við búsforráðum, ok var fjölment með honum. Ketill átti dóttur við konu sinni, er Hrafnhildr hét. Ok at liðnum þrim vetrum kom Hrafnhildr Brunadóttir til fundar við Ketil; hann bauð henni með sér at vera; enn hon kveðst ekki þá mundu dveljast. „Þar hefir þú nú gert fyrir um fundi okkra ok samvistir í lauslyndi þinni ok óstaðfestu“. Hon gekk þá til skips mjök döpr ok þrungin, ok var þat auðsýnt, at henni þótti mikit fyrir skilnaðinum við Ketil. Grímr var eftir. Ketill var ríkastr manna norðr þar, ok þótti þeim mikit traust at honum; hann fór eitt sumar norðr á Finnmörk, at finna þau Bruna ok Hrafnhildi; þeir fóru á litlu skipi; þá lágu þeir við bjarg eitt hjá á nokkurri. Ketill bað Grím sœkja þeim vatn; hann fór, ok sá tröll við ána; þat bannaði honum ok vildi taka hann. Grímr hræddist, ok hljóp heim ok sagði föður sínum. Ketill fór þá til móts við tröllit, ok kvað vísu:

„Hvat er þat býsna,
er við bjarg stendr,
ok gapir eldi yfir?
búsifjar okkrar
hygg ek batna munu,
*líttu á ljóð vega.

Tröllit hvarf, enn þeir feðgar fóru heim. Þat var á einu hausti, at víkingar kvómu til Ketils; hét annarr Hjálmr, enn annarr Stafnglamr; þeir höfðu herjat víða; þeir beiddust at hafa þar friðland með Katli, ok þess lét hann þeim kost, ok vóru þeir með honum um vetrinn í góðu yfirlæti. Um vetr at jólum strengdi Ketill heit,

at hann skal eigi Hrafnhildi dóttur sína gifta nauðga; víkingar báðu hann hafa þar þökk fyrir. Eitt sinn kom þar Áli Uppdalakappi; hann var upplenzkr at ætt; hann bað Hrafnhildar; Ketill kveðst eigi vilja gifta hana nauðga; enn tala má ek málit við hana. Hrafnhildr kveðst eigi vilja leggja ástarhug við Ála, eða binda forlög sín við hann. Ketill sagði Ála svá búit, ok hér fyrir skorar Áli Ketil á hólm, enn Ketill kveðst fara mundu. Þeir brœðr Hjálmr ok Stafnglamr vildu berjast fyrir Ketil; enn hann bað þá halda skildi fyrir sik. Enn er þeir kvómu til vígvallar, hjó Áli til Ketils, ok varð eigi við brugðið skildinum, ok kom blóðrefillinn í enni Ketils, ok arði niðr um nefit ok blœddi mjök; þá kvað Ketill vísu:

„Hjálmr ok Stafnglamr!
hlífið ykkr báðir;
gefið rúm gömlum,
at ganga framar hóti.

Fljúga fólknöðrur,
frœkn er dalakappi,
ljótr er leikr sverða,
litat er skegg á karli;
skrapa skinnkyrtlar,
skjálfa járnserkir,
hristast hringskyrtur,
hræðist biðill meyjar“.

Síðan sveiflar Ketill sverðinu til höfuðsins; enn Áli brá upp skildinum; enn Ketill hjó þá til fótanna ok undan báða, ok fell Áli þar.

V. Litlu síðar gerðist hallæri mikit, fyrir því at fiskrinn firðist landit, enn kornárit brást, enn Ketill hafði fjölment, ok þóttist Sigríðr þurfa fanga í búit. Ketill kveðst óvanr frýjunni, ok stökk á skip sitt; vík-

ingar spurðu, hvert hann vildi. „Ek skal til veiða", sagði hann; þeir buðu at fara með honum; enn hann kvað sér við øngu hætt, ok bað þá annast um bú sitt á meðan. Ketill kom þar sem heitir í Skrofum; ok er hann kom til hafnar, sá hann á nesinu tröllkonu í berum skinnkyrtli; hon var nýkomin af hafi ok svört sem bik væri. Hon glotti við sólunni. Ketill kvað vísu:

„Hvat er þat flagða,
er ek sá á fornu nesi
*at uppiverandi sólu,
er ek hefik
ønga eina
leiðilegri litit.

Hon kvað:

„Forat ek heiti,
fœdd var ek norðarla
hraust í Hrafnseyju,
hvimleið búmönnum,
ör til áræðis,
hvatki er ilt skal vinna".

Ok enn kvað hon:

„Mörgum manni
hefik til moldar snúit,
þeim er til fiskjar fóru;
hverr er er sjá
hinn köprmáli,
er kominn er í skerin?"

Hann svarar: „Kalla mik Hæng", sagði hann. Hon svarar: „Nær væri þér, at vera heima í Hrafnistu, enn dratta einum til útskerja". Ketill kvað vísu:

„Einhlítr ek þóttumst,
áðr enn hér kvómum,
um flestar allar
farir vórar,
hvat sem ferleg
flögð um geipa[1],
lastig dreng drasinn
drefik á vit fanga[2].

1) gleipa *Fas.* 2) lasta ek dreng dæsinn drep ek á vit fanga *B.*

Læt ek hér fyrir vinnast
hvat er Forat mælir;
nauðir mik hvöttu,
nánum er at bjarga;
hættik eigi
á hólm til sela,
ef í eyju
œrnir væri".

Hon svarar:

„Synja ek þess eigi,
segir hin víðförla,
at þú líf hafir
langt um aðra,
ef þú fund okkarn
fyrðum segir,
sveinn alllítill!
sé ek þinn hug skjálfa".

Ketill kvað:

„Ungr var ek heima,
fór ek einnsaman
oft í útveri
*marga myrkviða;
hvatki ek fann
á minni götu,
hræddumst ek aldri
flagða forynjur.

Langleit ertu, fóstra!
ok lætr róa nefit,
ei hefi ek flagðit
fellegra litit;
eða hvert hefir þú
förina gerva?"

Hon þokaði at honum við, ok kvað:

„Gang hóf ek upp í Angri
eigraða ek á til Steigar,
*skálm glotaðri skroftu,
*skarin raðri ek á til Karmtar;
elda mun ek á Jaðri,
ok at Útsteini blása;
þá mun ek austr við Elfi,
áðr dagr á mik skíni,
*ok með brúðkonum beigla
*ok bráðlega gefit jarli".

Sjá leið er fyrir endilangan Noreg. Hon spurði: „Hvat skaltu nú at hafast?" „Sjóða slátr ok búast til matar", sagði hann. Hon kvað:

„Seyði þínum mun ek snúa,
enn sjálfum þér gnúa,
unst þik gríðr grípr,
*ok mun hon koma
*með sínu gjálfri".

„Þess er nú at henni vón", sagði Ketill. Hon fálmaði þá til hans; Ketill kvað þá vísu:

„Örum trúi ek mínum,
enn þú afli þínu,
fleinn mun þér mœta,
nema þú fyrir hrökkvir“.

Hon kveðr vísu:

„Flaug ok Fífu
hugða ek fjarri vera,
ok hræddumst ek eigi
Hremsu bit“.

Svá hétu örvar Ketils. Hann lagði ör á streng ok skaut at henni, enn hon brást í hvalslíki ok steyptist í sjóinn, enn örin kom undir fjöðrina[1]; þá heyrði Ketill skræk mikinn; þá sá hann gríði ok tók til orða: „Rent mun nú þeim sköpunum, at Forat eigi jarlinn, ok ógirnileg er nú rekkja hennar“. Síðan kom Ketill við föng, ok hlóð ferju sína. Þat var eina nótt, at hann vaknar við brak mikit í skóginum; hann hljóp út, ok sá tröllkonu ok fell fax á herðar henni. Ketill mælti: „Hvert ætlar þú, fóstra?“ Hon reigðist við honum ok mælti: „Ek skal til tröllaþings; þar kemr Skelkingr norðan ór Dumbshafi, konungr trölla, ok Ófóti ór Ófótansfirði ok Þorgerðr Hörgatröll ok aðrar stórvættir norðan ór landi; dvel eigi mik, því mér er ekki um þik, síðan þú kveittir hann Kallrana“; ok þá óð hon út á sjóinn ok svá til hafs; ekki skorti gandreiðir í eyjunni um nóttina, ok varð Katli ekki mein at því, ok fór hann heim við svá búit, ok sat nú um kyrt nokkura hríð. Þessu næst kom við Hrafnistu Framarr víkinga konungr; hann var blótmaðr ok bitu eigi járn; hann átti ríki í Húnaveldi á Gestrekalandi; hann blótaði Árhaug; þar festi eigi snjó á. Böðmóðr hét son hans, er átti mikit bú við Árhaug ok var vinsæll maðr. Allir báðu Framari ills. Þat hafði Óðinn skapat Framari, at hann bitu

1) hönd kerlingar í því hon steyptist *E.*

eigi járn. Framarr bað Hrafnhildar, ok hafði Ketill þau svör fyrir sér, at hon skyldi sér sjálf mann kjósa. Hon kvað nei við Framari: „vilda ek eigi Ála kjósa mér til bónda, þá mun ek hálfu síðr kjósa þetta tröll“. Ketill sagði Framari svör hennar; hann reiddist mjök fyrir þessi svör; skoraði Framarr Ketil á hólm við Árhaug jóladaginn fyrsta, „ok ver hvers manns níðingr, ef þú kemr eigi“. Ketill kveðst koma mundu. Þeir Hjálmr og Stafnglamr buðu honum at fara með honum; Ketill kveðst einn fara vilja. Litlu fyrir jól lét Ketill flytja sik á land í Naumudal; hann var í loðkápu, ok stígr á skíð sín ok fór upp eftir dalnum, ok svá yfir skóg til Jamtalands ok svá austr yfir Skálkskóg til Helsingjalands ok svá austr yfir Eyskógamörk, hon skilr Gestrekaland ok Helsingjaland, ok er (hann) tuttugu rasta langr, enn þriggja breiðr, ok er illr yfirferðar. Þórir hét maðr, er bjó við skóginn, hann bauð Katli fylgd sína, ok sagði illvirkja liggja á skóginum: „sá er fyrir þeim, er heitir Sóti; hann er svikall ok harðfengr“. Ketill kvað sér ekki mein mundu at þeim verða; síðan fór hann á skóginn, ok kemr at skála Sóta; hann var ekki heima; Ketill kveykti upp eld fyrir sér; Sóti kom heim ok heilsar ekki Katli, ok setti vist fyrir sik; Ketill sat við eld ok mælti: „Ertu matníðingr, Sóti?“ sagði hann. Sóti kastaði þá stykkjum nokkurum at Katli; ok er þeir vóru mettir, lagðist Ketill niðr hjá eldi ok hraut mjök. Sá spratt Sóti upp, enn Ketill vaknaði ok mælti: „Því sveimar þú hér, Sóti?“ Hann svarar: „Blæs ek at eldi, er næsta var slokinn“. Ketill sofnaði öðru sinni; þá hljóp Sóti enn upp ok tvíhendi øxina; Ketill spratt þá upp ok mælti: „Stórum viltu nú brytja“, sagði hann. Síðan sat Ketill upp um nóttina. Um morguninn beiddi Ketill, at Sóti fœri með honum á skóg-

inn, ok hann fór; ok þá náttaði, lögðust þeir undir eik eina. Ketill sofnar, at því Sóti hugði, því hann hraut hátt; Sóti spratt upp ok hjó til Ketils, svá at af hraut kápuhattrinn, enn Ketill var ekki í kápunni. Ketill vakti ok vildi reyna Sóta; hann hljóp upp ok mælti: „Nú skulu vit reyna fangbrögð með okkr“. Ketill kipti Sóta um lág eina ok hjó af honum höfuðit ok fór síðan leið sína, ok kom jólaaftan til Árhaugs; hann var blótaðr af Framari ok landsmönnum til árs; þá var kafa hríð. Ketill gekk upp á hauginn ok settist í mót veðrinu. Þá er menn kvómu í sæti at Böðmóðs, þá tók hann til orða: „Hvórt mun Ketill kominn til Árhaugs“. Menn kvóðu þess enga vón. Böðmóðr mælti: „Þar er sá maðr, at ek kann einskis til at geta; farið nú ok vitið um hann, ok bjóðið honum til vór“. Þeir fóru nú til haugsins ok fundu Ketil eigi, ok segja Böðmóði svá komit. Böðmóðr kvað hann kominn mundu upp á hauginn; fór hann síðan til haugsins ok upp á hauginn, ok sér þar hrúgald mikit á norðanverðum hauginum. Böðmóðr kvað vísu:

„Hverr er sá hinn hávi,
er á haugi sitr
ok horfir veðri viðr?
frostharðan mann
hygg ek þik feiknum vera,
hvat þér hvergis hlýr“.

Ketill kvað vísu:

„Ketill ek heiti,
kominn ór Hrafnistu;
þar var ek upp um alinn;
hugfult hjarta
veit ek hlífa mér;
þó vildak gisting geta“.

Böðmóðr kvað:

„Upp skaltu rísa,

ok ganga haugi af
ok sœkja mína sali;
málsefnis ann ek þér
margan dag,
ef þú vilt þiggja þar".

Ketill kvað vísu:

„Upp mun ek nú rísa,
ok ganga haugi af,
alls mér Böðmóðr býðr;
bróðir minn þótt sæti
brautu nær,
mundi eigi betr um boðit".

Böðmóðr tók í hönd Katli; ok er hann stóð upp, skriðnuðu honum fœtr á hauginum. Þá kvað Böðmóðr vísu:

„Reyndr ertu, fóstri,
*at ganga hervígis til,
ok berjast við Framar til fjár;
á léttum aldri
gaf honum Óðinn sigr;
mjök kveð ek hann vígum vanan".

Þá reiddist Ketill, er hann nefndi Óðin, því at hann trúði ekki á Óðin, ok kvað vísu:

Óðni blóta
gjörða ek aldregi,
hefik þó lengi lifat;
Framar veit ek falla
*munu fyrr enn
þetta hit háva höfuð".

Síðan fór Ketill með Böðmóði ok var með honum um nóttina, ok sat honum hit næsta. Ok um morguninn bauð Böðmóðr at fara með honum, eða fá mann í móti Framari. Ketill vildi eigi þat. „Þá mun ek fara með þér", sagði Böðmóðr. Þat vildi Ketill, ok fóru þeir tll Árhaugs. Framarr fór grenjandi til haugsins, ok vóru þeir Böðmóðr ok Ketill þar fyrir fjölmennir. Þá sagði

Framarr upp hólmgöngulög; Böðmóðr helt skildi fyrir Katli, enn enginn fyrir Framar. Hann mælti: „Þá skaltu nú vera minn fjandmaðr heldr enn sonr“. Böðmóðr kvað hann hafa sundr sagt frændsemi með þeim í fjölkyngi sinni; ok áðr þeir börðust, fló örn af skógi at Framari ok sleit af honum klæðin. Þá kvað Framarr vísu:

„Illr er örn í sinni,
emka ek sár at kvíða,
fœrir hann sínar greipar
gular í blóðæðar unnar[1];
hlakkar hreggskornir[2]
hvers er hann forkunnigra,[3]
oft hefi ek ara gladdan,
óðr em ek valgöglum[4]“.

Þá sótti örninn svá fast, at hann varð vópnum at verjast; þá kvað hann vísu:

„Veifir þú vængjum,
vópnum mun ek þér heita,
vafrar þú nú, víðflögull,
sem vitir mik feigan;
villr ertu, vígskári[5],
vit munum sigr hafa,
hverf þú at Hængi,
hann skal nú deyja“.

Sá átti fyrr at höggva, sem á var skorat; Ketill hjó á öxl Framari; hann stóð fyrir kyrr, sverðit beit ekki á, enn vazt þó við, at höggit var svá mikit. Framarr hjó til Ketils í skjöldinn. Ketill hjó á aðra öxl Framari ok beit enn ekki; Ketill kvað vísu:

„Dregst þú nú, Dragvendill,
*við krass arnar,
mœtir þú meingöldrum,
máttir þú ei bíta;

1) mínar *B.* 2) *B*; hreggskoran *Fas.* 3) fjölkunnugra *B.* 4) áðr ek valgögl vann *B.* 5) tg. K. G. í Nj. 2. 510; vífstari *Fas.*

mik þess ei varði,
at hrökkva mundi,
eggjar eitri herðar[1],
þó at Óðinn deyfði".

Ok enn kvað hann vísu:
„Hvat er þér, Dragvendill?
hví ertu slœr vorðinn?
til hefi ek nú höggit,
tregt er þér nú at bíta,
hliðar þú at hjörþingi,
hefir þér ei fyrr vorðit
bilt í braki málma,
þar er bragnar hjuggust".

Framarr kvað vísu:
„Skelfr nú skegg á karli,
skeika vápn gömlum,
frýr hann hjör hvössum,
hræðist faðir meyjar;
brýndust benteinar,
svá at bíta mátti
hölda hugprúða,
ef þér hugr dygði".

Ketill kvað:
„Ei þarftu oss at eggja,
eiga mér sjaldan
fyrðar flugtrauðir
frýja stórhögga;
bít þú nú, Dragvendill,
eða brotna ella,
horfin er okkr heill báðum,
*þó bilat sinn þriðja.

Ok enn kvað hann:
„Hræðist ei faðir meyjar,
meðan heill er Dragvendill,
vita ek víst þykkjumst,
verðr honum ei bilt þrisvar".

Þá snøri hann sverðinu í hendi sér ok hverfði fram eggina aðra; Framarr stóð kyrr er sverðit reið á öxlina, ok nam eigi staðar fyrr enn í mjöðminni, ok flakti frá síðan; þá kvað Framarr vísu:

„Hugr er í Hængi,
hvass er Dragvendill,
beit hann orð Óðins,
sem ekki væri;
brást nú Baldrs faðir,
brigt er at trúa honum;
njóttu heill handa;
hér munum skiljast".

Þá dó Framarr, enn Böðmóðr fylgdi Katli af vetfangi. Þá mælti Böðmóðr: „Nú með því ef þú þykkist mér

1) Þannig *B*; 'egg í eitr herðar' textinn í *Fas*.

eiga at launa nokkura liðveizlu, þá vil ek at þú giftir mér dóttur þína". Ketill tók því vel ok sagði Böðmóð góðan dreng. Eftir þetta unnit fór Ketill heim, ok var frægr mjök af sínum stórvirkjum; hann gifti Hrafnhildi Böðmóði. Ketill réð fyrir Hrafnistu meðan hann lifði, enn Grímr loðinkinni eftir hann; Örvar-Oddr var sonr Gríms; ok lýkr hér þessari sögu.

# Hér byrjar söguna af Grími loðinkinna.

Svá er sagt af Grími loðinkinna, at hann var mikill ok sterkr ok hinn mesti garpr; því var loðinkinni kallaðr, at kinn hans önnur var vaxin dökt hár, ok með því var hann alinn; ekki beit járn á. Grímr tók við búi í Hrafnistu eftir Ketil föður sinn; hann gerðist ríkr at fé; hann réð ok lega einn öllu um alt Hálogaland. Haraldr hét hersir ríkr ok ágætr í Vík austr; hann átti Gei- dóttur Sölga konungs, Hrólfssonar konungs ór Bergi Upplöndum. Dóttir þeira hét Lofthœna; hon var fríðust ok vel ment. Þangat fór Grímr loðinkinni skútu við átjánda mann, ok bað Lofthœnu sér til var þat at ráðum ráðit, ok skyldi hann sœkja brullaup um haustit; enn sjau nóttum fyrr hvarf Lofthœna ok vissi engi, hvat af henni varð; enn er hann kom brullaupsins, saknar hann vinar í stað, er brúðrin í burtu, ok þóttist hann þó vita, at faðir hennar þar øngu um; þar sat hann þrjár nætr, ok drukku þei ok þó með lítilli kæti. Síðan fór hann heim í H istu. Þat hafði borit til fimm árum fyrr, at kona



## Hér byrjar söguna af Grími loðinkinna.

Svá er sagt af Grími loðinkinna, at hann var bæði mikill ok sterkr ok hinn mesti garpr; því var hann loðinkinni kallaðr, at kinn hans önnur var vaxin með dökt hár, ok með því var hann alinn; ekki beit þar járn á. Grímr tók við búi í Hrafnistu eftir Ketil hæng föður sinn; hann gerðist ríkr at fé; hann réð ok nálega einn öllu um alt Hálogaland. Haraldr hét einn hersir ríkr ok ágætr í Vík austr; hann átti Geirhildi dóttur Sölga konungs, Hrólfssonar konungs ór Bergi af Upplöndum. Dóttir þeira hét Lofthœna; hon var kvenna fríðust ok vel ment. Þangat fór Grímr loðinkinni á skútu við átjánda mann, ok bað Lofthœnu sér til handa; var þat at ráðum ráðit, ok skyldi hann sœkja brullaupit um haustit; enn sjau nóttum fyrr hvarf Lofthœna burt, ok vissi engi, hvat af henni varð; enn er hann kom til brullaupsins, saknar hann vinar í stað, er brúðrin var í burtu, ok þóttist hann þó vita, at faðir hennar olli þar øngu um; þar sat hann þrjár nætr, ok drukku þeir, ok þó með lítilli kæti. Síðan fór hann heim í Hrafnistu. Þat hafði borit til fimm árum fyrr, at kona Har-

alds hersis hafði andazt, enn hann fekk ári síðar norðan af Finnmörk Grímhildar Jösursdóttur ok hafði hana heim til sín. Skjótt þótti hon þar öllu spilla; illa var hon til Lofthœnu stjúpdóttur sinnar sem síðar bar raun á. Grímr undi lítt við hag sinn er hann spurði ekki til Lofthœnu festarkonu sinnar. Þat bar þá til sem oftar, at hallæri mikit kom á Hálogaland; Grímr loðinkinni bjóst þá heiman, ok fór á ferju sinni við þriðja mann; hann helt norðr fyrir Finnmörk ok svá austr til Gandvíkr, ok er hann kom í víkina, sá hann at þar var nógr veiðifangi; setti hann þar upp skip sitt, ok gekk síðan til skála, ok kveykti upp eld fyrir sér. Enn er þeir vóru í svefn komnir um nóttina, vöknuðu þeir við þat, at kominn var stormr með svartahríð; svá mikil grimd fylgdi veðri þessu, at alt sýldi bæði úti ok inni. Um morguninn er þeir vóru klæddir gengu þeir út ok til sjóvar; sáu þeir þá, at á burtu var allr veiðifangi, svá at hvergi sá staði; þóttust þeir nú ekki vel staddir, enn ekki gaf á burtu; gengu þeir nú heim til skála ok vóru þar um daginn. Um nóttina vaknar Grímr við þat, at hlegit var úti hjá skálanum; hann spratt þá upp skjótt, ok tók øxi sína ok gekk út; hann hafði ok með sér sem ávalt endrarnær örvarnar Gusisnauta, er Ketill hængr faðir hans hafði gefit honum. Enn er hann kom út, sá hann tvær tröllkonur við skip niðri, ok tók í sinn stafninn hvór þeira, ok ætluðu at hrista í sundr skipit. Grímr mælti, ok kvað vísu:

„Hvat heita þær
hrauns íbú*u*r,
er skaða vilja
skipi mínu?
ykkr hefik
einar sénar

ámátlegastar
at yfirlitum“.

Sú kvað vísu, er nær honum stóð:

„Feima ek heiti,
fœdd var ek norðarla,
Hrímnis dóttir
ór háfjalli;
hér er systir mín
hálfu fremri,
Kleima at nafni,
komin til sjóvar“.

Grímr kvað:

„Þrífist hvergi
Þjassa dóttir,
brúðir verstar,
brátt skal ek reiðast;
ykkr skal ek rétt
áðr röðull skíni,
vörgum senda
víst til bráðar“.

Kleima kvað:

„Þat var fyrri,
at faðir okkar
burtu seiddi
báru hjarðir;
skuluð aldregi,
nema sköp ráði,
heilir heðan
heim um komast“.

Grímr kvað:

„Skal ek ykkr báðum
skjótlega heita
oddi ok eggju
í upphafi;
munu þá reyna
Hrímnis mellur,
hvórt at betr dugir
broddr eða krumma“.

Grímr tók þá eina af Gusisnautum, ok skaut þá (er) firr honum stóð, svá hon fekk þegar bana. Feima mælti: „Illa fór nú Kleima systir“. Hon veðr þá upp at Grími; hann höggr þá til hennar með øxinni, ok kom á herðarblaðit; hon kvað við hátt ok hljóp inn með fjörum. Grími varð laus øxin við höggit, ok stóð hon föst í sárinu. Grímr hljóp eftir, ok bar hvórki með þeim sundr né saman, ok alt þar til at þau kvómu at björgum stórum; þar sá hann framan í björgunum helli mikinn; þar var einstigi upp at ganga, ok hljóp hon þar upp sem sléttan völl; ok í því er hon hóf sik til hlaups upp í björgin, hraut øxin ór sárinu. Grímr tók hana þegar upp, ok varð hann at krœkja øxinni í annat sporit, er hann stóð í öðru, ok las sik svá eftir skaftinu, ok svá komst hann upp í hellinn; þar sá hann brenna bjartan eld, ok sátu tvau tröll við eldinn; þat var karl ok kerling; þau spyrndust í iljar; þau vóru í stuttum ok skörpum skinnstökkum bæði; gerla sá hann, hversu þau vóru í sköpun bæði í millum fótanna; hann hét Hrímnir, enn hon Hyrja. Enn er Feima kom inn í hellinn, heilsuðu þau henni, ok spurðu, hvar Kleima systir hennar væri; hon svarar: „Gettu þessna; hon liggr dauð út með fjörum, enn ek særð banasári; enn þit liggið inni ok fletizt hér við eld“. Jötuninn mælti: „Þetta hefir verit lítit fremdarverk, at drepa ykkr, aðra sex vetra, enn hina sjau; eðr hverr hefir gert þetta?“ Feima svarar: „Þetta hefir gert illmennit Grímr loðinkinni; eru þeir feðgar meir lagðir til þess enn aðrir menn, at drepa niðr tröll ok bergbúa; enn þó hann hafi nú þetta gert, þá mun hann þó aldri ná Lofthœnu konu sinni; ok er þat nú gaman, svá skamt sem nú er millum þeira“. Hrímnir mælti þá: „Því veldr Grímhildr systir mín ok er henni flest til menta gefit“. Þá mœddi

Feimu blóðrás, ok fell hon dauð niðr. Í því gekk Grímr inn í hellinn, ok hjó til Hrímnis karls svá hart, at af tók höfuðit; þá spratt Hyrja kerling upp ok rann á hann ok tóku þau at glíma, ok var þeira atgangr bæði harðr ok langr, því at hon var hit mesta tröll, enn Grímr var rammr at afli; enn þó lauk svá, at hann brá henni á loftmjöðm, svá at hon fell; hjó hann þá af henni höfuðit ok gekk af henni dauðri; fór síðan til skála síns.

II. Annan dag eftir var veðr gott; gengu þeir þá um fjörur ok sáu, hvar rekin var reyðr mikil; gengu þeir þangat ok tóku til hvalskurðar; litlu síðar sá Grímr, hvar tólf menn gengu; þá bar brátt at; Grímr heilsar þeim ok spyrr at nafni; sá kveðst heita Hreiðarr hinn hvatvísi, er fyrir þeim var, ok spurði, því Grímr vildi ræna hann eigu sinni; Grímr kveðst fyrr hafa fundit hvalinn. „Veiztu eigi“, sagði Hreiðarr, „at ek á hér reka alla?“ „Eigi veit ek þat“, sagði Grímr, „enn hversu sem er, þá höfum at helmingi“. „Eigi vil ek þat“, sagði Hreiðarr; „þér skuluð gera annathvórt, ganga frá hvalnum, ella munu vér berjast“. „Fyrr gerum vér þat“, sagði Grímr, „enn missa allan hvalinn“. Fóru síðan til ok börðust, ok gerðist þar hin harðasta sókn. Hreiðarr ok hans menn vóru bæði stórhöggvir ok vópnfimir, ok innan lítils tíma fellu báðir menn Gríms; var þá bardagi hinn harðasti, enn þó lauk svá, at Hreiðarr fell ok allir menn hans. Grímr fell ok bæði af sárum ok mœði; lá hann þar nú í valnum í fjörunni ok ætlaði sér ekki nema dauða. Enn er hann hafði eigi lengi legit, sá hann, hvar kona gekk, ef svá skyldi kalla; hon var eigi hærri enn sjau vetra gamlar stúlkur, enn svá digr, at Grímr hugði, at hann mundi eigi geta feðmt um hana; hon var langleit ok harðleit, bjúgnefj-

uð ok baröxluð, svartleit ok svipilkinnuð, fúlleit ok framsnoðin; svört var hon bæði á hár ok á hörund; hon var í skörpum skinnstakki; hann tók eigi lengra enn á þjóhnappa henni á bakit; harðla ókyssileg þótti honum hon vera, því at hordingullinn hekk ofan fyrir hvóptana á henni. Hon gengr þangat at sem Grímr lá ok mælti: „Lágt fara nú höfðingjarnir Háleygjanna, eðr viltu, Grímr, þiggja líf af mér?“ Grímr svarar: „Varla kann ek þat, svá ámátleg sem þú ert, eða hvert er nafn þitt?“ Hon svarar: „Ek heiti Geiríðr Gandvíkrekkja; máttu þat ætla, at ek er hér nokkurs ráðandi um víkina, ok ger þik greiðan í öðruhvóru“. Grímr svarar: „Þat er fornt orð, at frekr er hverr til fjörsins, ok mun ek þat kjósa, at þiggja líf af þér“. Hon greip hann þá upp undir skinnstakkinn ok hljóp með hann sem eitt lébarn, ok svá hart, at hann var vinds fullr; hon létti eigi fyrri enn þau kvómu at helli einum stórum, ok er hon lét hann niðr, sýndist Grími hon slíkt at ámátlegri enn fyrr. „Nú ertu hér kominn“, sagði hon, „ok vil ek at þú launir mér, at ek barg þér ok bar hingat ok kyssir mik nú“. „Þat má ek øngan veg gera“, sagði Grímr, „svá fjandlega sem mér lízt nú á þik“. „Þá mun ek øngva þjónustu þér veita“, sagði Geiríðr, „ok sé ek, at þá ertu skjótt sem dauðr“. „Þat mun þá þó vera verða“, sagði Grímr, „þó at mér sé þat mjök í móti skapi“. Hann gekk þá at henni ok kysti hana; eigi þótti honum hon svá ill viðkvómu, sem hon var hrímugleg at sjá. Þá var komit at kveldi; bjó Geiríðr þá sæng, ok spurði, hvórt Grímr vill liggja einnsaman eða hjá sér; Grímr kvað(st) heldr vilja liggja einnsaman; hon kveðst þá øngva stund vilja á leggja at grœða hann. Grímr sá at þat mátti honum eigi nœgja, ok kveðst þá heldr mundu hjá henni liggja, ef sá væri á baugi; gerði

skelfir, sem vér hötum hér fundit". „Hvat viltu nú ráða taka?" sagði Guðmundr. „Skjót eru nú mín ráð", sagði Oddr, „hér skal ekki stelast á þessa menn; hér munu vér liggja í nótt undir nesinu, ok bíða hér morguns". Þá ganga þeir á land með lið sitt alt til fundar við Hjálmar, enn þegar þeir sjá víkinga á land ganga, þá herklæðast þeir ok ganga á mót þeim Oddi. Hjálmarr spyrr er þeir finnast, hverr fyrir liði réði. Oddr svarar: „Hér eru fleiri höfðingjar enn einn". „Hvat heitir þú?" sagði Hjálmarr. „Ek heiti Oddr, sonr Gríms loðinkinna ór Hrafnistu". „Ertu sá Oddr, at fór til Bjarmalands fyrir skömmu, eðr hvert er erendi þitt hingat?" „Ek vil vita", sagði Oddr, „hvórr okkar meiri maðr skal vera". „Hvé margt hefir þú skipa?" sagði Hjálmarr. „Ek hefi fimm skip", sagði Oddr, „eðr hversu mikit lið hafi þér?" „Vér höfum fimtán skip", sagði Hjálmarr. „Þá er liðsmunr mikill", sagði Oddr. „Hér skulu sitja hjá tíu skipshafnir", sagði Hjálmarr, „ok skal maðr manni á mót vera". Nú búast hvórirtveggju til bardaga ok fylkja liði sínu, ok berjast meðan dagrinn endist. Þá er kveldar, var haldit upp friðskildi, ok spyrr Hjálmarr Odd, hversu honum þœtti at hafa farit um daginn; enn hann lét vel yfir. „Viltu eiga leik þenna oftar?" sagði Hjálmarr. „Ekki ætla ek annat", sagði Oddr, „fyrir því at ek hefir eigi betri drengi hitta né harðfengari menn, ok munu vér taka til bardaga at ljósum degi"; ok var nú svá gert sem Oddr mælti fyrir, ok binda menn sár sín ok fara til herbúða um kveldit. Enn um morguninn eftir fylktu hvórirtveggju sínu liði til bardaga ok berjast þann dag allan; ok er á leið daginn, var brugðit upp friðskildi. Þá spyrr Oddr, hversu Hjálmari þótti ganga orrostan um daginn; enn hann lét vel yfir. „Hvórt viltu", sagði

Hjálmarr, „at vit eigum þenna leik hinn þriðja daginn?“ „Þá skal til stáls sverfa með okkr“, sagði Oddr. Þá tók Þórðr til orða: „Er þar fjár vón væn, ok mikit á skipum yðrum?“ „Þat ferr fjarri“, sagði Oddr, „vér höfum einkis fjár aflat í sumar“. „Þat ætla ek“, sagði Þórðr, „at ek hafi hvergi þess komit, at óvitrari menn hafi fundizt enn hér, því vér berjumst um ekki nema kapp ok metnað“. „Hversu viltu þá til hátta?“ sagði Oddr. „Þykkir yðr eigi þat ráð“, sagði Þórðr, „at vér gerum félag vórt?“ „Þat líkar mér vel“, sagði Oddr, „enn eigi veit ek hversu Hjálmari er um þat gefit“. „Ek vil þau ein víkingalög“, sagði Hjálmarr, „sem ek hefir áðr haft“. „Þat veit ek“, sagði Oddr, „þá ek heyri þau, hversu skapfelt mér er um þau“. Þá mælti Hjálmarr: „Þat er fyrst at segja, at ek vil aldri eta hrátt né lið mitt, því þat er margra manna siðr, at vinda vöðva í klæðum ok kalla þat soðit, enn mér þykir þat þeira siðr, er líkari eru vörgum enn mönnum; ek vil aldri kaupmenn ræna né búkarla, meir enn svá sem ek þarf at hafa strandhögg á skipi mínu í nauðsyn; ek vil ok aldri konur ræna, þó at vér finnum þær á landi uppi með miklum fjárhlutum, ok eigi skal konur til skips leiða nauðugar, ok ef hon kann þat at segja, at hon fari nauðig, þá skal sá øngu fyrir týna, nema lífi sínu, hvórt sem hann er ríkr eða óríkr“. „Góð þykkja mér lög þín“, sagði Oddr, „ok mun þat ekki meina vóru félagi“. Ok nú gera þeir félag sitt, ok er svá sagt, at nú hafa þeir jafnmikit lið allir sem þeir Hjálmarr höfðu áðr þeir fundust.

X. Eftir þetta spyrr Oddr at, hvar þeir vissi þá fengjar vón; enn Hjálmarr svarar: „Á Sælund veit ek liggja fimm berserki, þá sem harðfengari eru enn flestir menn aðrir, þeir sem vér höfum spurn af, ok heitir

einn Brandr, annarr Agnarr, þriði Ásmundr, fjórði Ingjaldr, fimti Álfr; þeir eru allir brœðr, ok hafa sex skip ok öll stór; eðr hversu viltu nú, Oddr, hátta til ferðum vórum?" „Þar vil ek at halda", sagði Oddr, „sem berserkirnir eru fyrir". Þeir koma nú við Sælund fimtán skipum, ok spyrja þau tíðendi, at berserkirnir eru á land gengnir, at hitta frillur sínar. Þá gengr Oddr á land upp einnsaman til fundar við þá; ok er þeir finnast, lýstr þar í bardaga, ok lýkr honum svá, at hann fellir þá alla, enn varð ekki sárr. Enn er Oddr var á land genginn, saknar Ásmundr hans, ok sagði til Hjálmars: „Já", sagði hann, „þat mun eigi rjúfast, at Oddr mun á land genginn, ok skulu vér eigi vera sýslulausir á meðan". Nú heldr Hjálmarr þangat sex skipum sem víkingarnir vóru, ok lýstr þar í bardaga, ok var þat alt jafnsnemma, at Oddr kom af landi ofan ok Hjálmarr hafði unnit skipin; ok nú segja hvórir öðrum tíðendin ok hafa nú bæði aflat sér fjár ok metnaðar. Nú býðr Hjálmarr þeim Oddi með sér til Svíþjóðar, ok þat þiggr Oddr; enn norðr fara Háleygirnir, Guðmundr ok Sigurðr, til Hrafnistu með liði sínu, enn mæla mót með sér við Elfi austr. Enn er þeir Hjálmarr koma í Svíþjóð, tekr Hlöðvér konungr mót þeim báðum höndum, ok sitja þeir þar um vetrinn, ok leggst þar svá mikil virðing á Odd, at konungi þótti enginn hans maki fyrir alls sakir; skamma stund hafði Oddr þar verit, áðr konungr gaf honum fimm bú. Konungr átti dóttur eina, þá er Ingibjörg hét; hon var hverri konu vænni, ok bezt at sér um allar íþróttir, þær er kvenmann mátti fríða. Oddr spurði Hjálmarr jafnan hverju þat sætti, at hann bæði ekki Ingibjargar: „fyrir því at ek sé, at hugir ykkrir falla saman". „Ek hefi beðit hennar", sagði hann, „enn konungr vill eigi gifta þeim manni dóttur

sína, er eigi berr konungs nafn". „Þá skulu vit draga saman her at sumri", sagði Oddr, „ok gerum konungi tvó kosti, annathvórt at berjast við okkr, eðr gefa þér dóttur sína". „Eigi veit ek þat", sagði Hjálmarr, „því ek hefi lengi haft hér friðland". Sitja þeir nú þar um kyrt um vetrinn; enn um vórit halda þeir í hernað, þegar þeir vóru búnir.

XI. Nú er ekki sagt af ferðum þeira, fyrr enn þeir finnast við Gautelfi, ok leggja þeir nú í umrœðu með sér, hvert nú skal halda um sumarit; enn Oddr sagðist fúsastr at halda vestr um haf. Þeir hafa nú tuttugu skip, ok stýrir Oddr drekanum Hálfdanarnaut. Þeir koma við Skotland, ok gera þar upprásir, herja ok brenna hvervetna, þar er þeir koma, ok eigi létta þeir fyrr enn þeir skattgilda landit; þaðan fara þeir til Orkneyja ok leggja þær undir sik, ok sitja þar um vetrinn. Enn um vórit fara þeir til Írlands, ok herja þar bæði með sjónum ok upp á landit; þess fór Oddr hvergi, at eigi fylgdi Ásmundr honum; enn þar flýðu undan bæði á merkr ok skóga börn ok konur ok karlar, enn fálu fjárhlut sinn ok sjálfa sik. Þat var einn dag, at þeir Oddr ok Ásmundr vóru tveir saman staddir á landi uppi. Oddr var svá búinn, at hann hafði örvamæli sinn á baki sér, enn boga í hendi, ok vildu leita manna nokkurra, ef þeir fyndi. Nú finnr Oddr eigi fyrr enn strengr gellr við, ok flýgr ör af skógi, ok nemr eigi fyrr staðar enn hon kemr at Ásmundi ok fell hann við ok dó skjótt. Þetta þótti Oddi svá mikil tíðendi ok ill, at hann þykist aldri slíkan skaða beðit hafa á sinni æfi. Hann gengr nú á land upp, enn Ásmundr lá þar eftir ok er Oddr svá í illum hug, at hann ætlar sér ekki annat, enn gjöra Írum alt þat ilt, er honum kemr í hug. Hann kom nú at rjóðri einu, ok sér þar fjölda mikinn,

bæði konur ok karla; hann sér mann standa upp í guðvefjar kyrtli, ok hafði boga í hendi, enn örvarnar stóðu í vellinum hjá honum; þat þykkir Oddi at vísu mega ganga, at hann muni þar eftir hefndum eiga at leita, þar sem sá maðr er; því tekr hann ör eina af Gusisnautum, ok leggr á streng, ok skýtr at þessum manni; kom sú á hann miðjan, ok fell hann þegar dauðr niðr. Nú skýtr hann hverri at annari, svá hann drap þar þrjá menn aðra; ok nú flýði liðit á skóga; enn Oddr er svá í illum hug við Íra, at hann ætlar at vinna þeim alt þat ilt, er hann megi orka. Hann gengr nú eftir skógarbraut einni mikilli; hann kippir nú upp hverjum runni með rótum, þeim sem fyrir honum verðr; hann kippir þeim runni upp einum, er lausari var fyrir enn aðrir; þar sér hann hurð undir, ok kippir henni upp, ok gengr þar niðr í jörð; þar finnr hann fjórar konur í jarðhúsinu, ok var ein miklu vænst; hann þrífr þegar í hönd henni, ok vill kippa henni ór húsinu. Hon tók þá til orða: „Láttu mik lausa, Oddr“, sagði hon. „Hvat tröll veiztu til þess“, sagði hann, „hvórt ek heiti Oddr eðr annan veg?“ „Ek vissa þat“, sagði hon, „þegar þú komt hingat, hverr þú vart, ok svá veit ek, at Hjálmarr er með þér, ok skal ek kunna at segja honum, ef ek fer nauðig til skipanna“. „Eigi skaltu fara at síðr“, sagði Oddr. Nú taka þær konurnar til hennar ok vilja halda henni, enn hon biðr þær hætta. „Ek mun kaupa at þér“, sagði hon, „at þú látir mik fara í friði, því at mik skortir eigi fé“. „Fjarri ferr, at ek vilja fé þitt“, sagði Oddr, „því mik skortir eigi gull né silfr“. „Þá mun ek láta gera þér skyrtu“, sagði hon. „Þat er enn svá“, sagði Oddr, „at ek á nógar skyrtur eðr skyrtugerðir“. „Kost muntu eiga“, sagði hon, „ok eigi þvílíkrar, sem ek mun láta gera, því at

hon skal saumuð með gull, enn ger ór silfri[1]; ek mun láta fylgja þá kosti skyrtunni, at þú munt eigi eiga þvílíkrar kosti áðr". „Lát mik heyra þá", sagði Oddr. „Þik skal aldri kala í henni, hvórki á sjó né á landi; þik skal eigi sund mœða, ok eigi skal þér eldr granda, ok eigi skal þik hungr sœkja, ok eigi skulu þik járn bíta, ok við öllum hlutum mun ek hana gera, nema við einum". „Hverr er sá hinn eini?" sagði Oddr. „Þik munu járn bíta", sagði hon, „ef þú ert á flótta, þótt þú sért í skyrtunni". „Annat vilda ek oftar vinna í orrostum, enn flýja", sagði Oddr, „eðr hvé nær skal hon ger?" „At öðru sumri", sagði hon, „jafnt í þat mund dags, sem nú er, ok er nú sól í suðri; þá skulu vit hér finnast í þessu sama rjóðri". „Hvat kemr þér í hug", sagði Oddr, „ef þú efnir eigi þetta, hvern kost ek mun gera yðr Írum þá, svá sem ek á þeim ilt at launa, er þeir hafa feldan Ásmund?" „Þykkist þú enn eigi hafa hefnt hans", sagði hon, „þar sem þú hefir drepit föður minn ok brœðr mína þrjá?" „Alls ekki þykki mér hans hefnt at heldr", sagði Oddr. Þetta verðr nú kaup þeira, sem þau höfðu stofnat, ok skiljast at því. Fór Oddr nú þar til at Ásmundr lá, tekr hann nú upp ok leggr á bak sér, ok gengr svá búinn til sjóvar. Þá var Hjálmarr kominn á land með liði sínu öllu, ok ætlar at leita at Oddi. Þeir finnast skamt frá skipum, ok spyrr Hjálmarr tíðenda, enn Oddr sagði honum. „Hefir þú nokkut hefnt hans?" sagði Hjálmarr. Þá varð Oddi ljóð á munni:

„Rann ek at víðri
vagnslóð götu,
áðr enn strengvölum
stríðum mœttak;

1) silki *M.*

munda ek Ásmund
auði mínum
aftr ódáinn
öllum kaupa".

„Hvat skal nú til ráða taka?" sagði Hjálmarr; „herja muntu nú vilja, ok gera hér hvervetna ilt". „Þat ferr nú fjarri", sagði Oddr, „því ek vil nú á burt sem skjótast". Þetta undruðust víkingar mjök; enn Hjálmarr kvað svá vera skyldu sem Oddr vildi. Þeir verpa þar haug eftir Ásmund. Svá láta víkingarnir illa yfir þessu, at þegar þeir firnast Odd augum, þá leggja þeir ámælisorð á bak honum; enn hann lét sem hann vissi þat eigi. Þeir sigla nú vestan til þess, at þeir koma við Hlésey; þar liggr fyrir jarl sá, sem eigi er nefndr, ok hefir þrjá tigi skipa. Þeir mæla þegar til bardaga, ok var þar þegar hörð sókn. Þá rak Oddr af sér bleyðiorðit, þat sem víkingar lögðu á hönd honum á Írlandi. Þar fengu þeir Oddr ok Hjálmarr sigr í þessum bardaga. Þaðan halda þeir til Danmerkr, ok spyrja þar þau tíðendi, at lið væri gert fyrir þá, at hefna þeira fimm berserkja, er þeir feldu, áðr þeir fœri vestr til Írlands; tveir jarlar hafa fyrir ráðit liðinu, ok lýkr svá fundi þeira, at þeir fella þá báða, enn skattgilda landit.

XII. Nú skilja þeir lið sitt, ok sigla þeir Guðmundr ok Sigurðr norðr til Hrafnistu ok setjast þeir þar at kyrðum, ok vilja létta hernaði; enn Oddr sitr eftir í Danmörku um vetrinn; enn Hjálmarr fór til Svíþjóðar með sínu liði, ok mæla mót með sér austr á Skáney um vórit, ok sitja nú um kyrt hvórirtveggju þann vetr. Enn er vór kom, halda þeir Hjálmarr austan ok Þórðr stafnglamr í þat mund, sem mælt var til móts við þá. Er þeir finnast, þá spyrr Hjálmarr, hvert Oddr vill halda um sumarit; enn hann sagði at hann vill til Ír-

lands. „Eigi vildir þú þar herja í fyrra sumar", sagði Hjálmarr. „Hverninn sem þat var", sagði hann, „þá skal nú þangat fara í sumar". Sigla þeir nú ór landi, ok gaf þeim vel byri, þar til at þeir koma við Írland. Þá mælti Oddr: „Nú munu vér tjalda hér, enn ek mun ganga á land upp einnsaman". „Ek mun fylgja þér", sagði Hjálmarr. „Einn vil ek fara", sagði Oddr, „því ek á hér mælt mót við konur nokkurar í skóginum". Oddr fór nú þar til at hann kemr í þat sama rjóðr, sem þau Álfvör höfðu sammælzt, ok var hon þá eigi komin. Hann fyllist nú þegar upp mikillar reiði við þá Íra, ok ætlar þegar á land upp ok herja slíkt alt er hann má. Enn er hann hefir farit um hríð, heyrir hann, at vagnar ganga í mót honum. Þar finnast þau Álfvör, ok heilsar hon honum fyrri: „Nú vil ek at þú sért mér eigi reiðr, þó at ek hafi seinni orðit, enn ek kvað á". „Er nú búin skyrtan?" sagði Oddr. „Eigi trauðar þat", sagði hon, „ok skaltu nú setjast niðr hjá mér, ok vil ek sjá, hvernig þér sami skyrtan". Ok svá gerir hann, tekr við, ok rekr í sundr, ok ferr í síðan, ok var hon honum hœfilega mikil at öllum hlutum. „Hvórt fylgja nú allir kostir skyrtunni", sagði Oddr, „þeir sem ákveðnir vóru?" „Svá er þat", sagði hon. „Hverninn er", sagði Oddr, „hvórt hefir þú ein gert góðgrip þenna?" Þá varð henni ljóð á munni:

„Serkinn frá ek í Sogni[1]
ok í sjau[2] stöðum gervan:
ermr á Íralandi,
önnur norðr með Finnum;
slógu Saxa meyjar,
enn suðreyskar spunnu,

1) Serk hefir ek hér ór silfri (silki?) *M.*
2) sex *M.*

vófu valskar brúðir,
varp Óþjóðans móðir".

Þá varð (Oddi) ljóð á munni:

„Varat sem brynja,
eða bláir hringar,
ísköld um mik
áðan[1] felli,
þá er um síður
silkiskyrta,
gulli saumuð,
gekk fast ofan[1]".

„Hversu líkar þér nú skyrtan?" sagði hon; enn hann lét vel yfir. „Nú skaltu kjósa þér laun fyrir skyrtugerðina", sagði Oddr. „Svá er hér herskátt", sagði hon, „síðan faðir minn var feldr, at við því er búit, at landit gangi undan mér; því kýs ek þau launin, at þér sitið hér þrjá vetr". „Þá munu vit kaupa fleira", sagði Oddr, „ok skaltu þat til vinna, at ganga með mér ok vera mín eiginkona". „Manngjarnlega mun þér mælt þykkja", sagði hon, „ok skal þetta kjósa". Þá litast Oddr um ok sér skamt frá sér riðul manna; hann spyrr hvórt þat lið sé sett til höfuðs honum. „Fjarri ferr því", sagði hon; „þessir menn skulu fylla flokk þinn til skipa, ok skaltu nú fara með meira sóma enn hit fyrra sumar". Snýr hann nú til skipa ofan, ok lið þetta með honum, ok hittast þeir Hjálmarr í tjöldum sínum. Oddr biðr nú Hjálmar, at hann siti þar þessa þrjá vetr, ok því játar hann; fær Oddr nú Álfvarar; enn á sumrum liggja þeir á herskipum, ok drepa víkinga þá, er þangat herjuðu. Ok er þeir höfðu setit þar slíka stund, sem ákveðit var, höfðu þeir eytt víkingum öllum, bæði nærri ok fjarri á Írlandi; sumir vóru drepnir, enn sumir

1) Þannig styttri sagan í Fas.; hin ofan; ofin.

stukku undan. Þá var Oddi svá leitt orðit, at vera þar, at ekki stoðar at letja hann. Mey hafa þau Álfvör ok Oddr getit sín á millum, ok er sú Ragnhildr nefnd; þau eiga um þat at rœða, at Oddr vill hafa hana með sér, enn Álfvör vill eigi þat. Þar kemr, at Hjálmarr skal þessu skipa, ok vill hann, at meyin vaxi upp með móður sinni. Enn er þeir vóru búnir, halda þeir á burt ok koma við England; þeir hafa spurt, at þar liggr víkingr sá, er Skolli hét, ok hafði fjóra tigi skipa. Ok er þeir hafa lagt í lægi, stígr Oddr á bát, ok vill finna Skolla at máli. Enn er þeir finnast, spyrr hann Odd, hvert erindi þeira væri þangat til lands. „Ek ætla at eiga bardaga við þik“, sagði Oddr. „Hvat áttu mér ilt at inna?“ sagði Skolli. „Ekki“, sagði Oddr, „nema ek vil hafa fé þitt ok líf, fyrir þat at þú herjar á konung þann, er hér ræðr fyrir“. Enn hann hét Játmundr. „Ertu sá Oddr“, sagði Skolli, „er fór til Bjarmalands fyrir löngu?“ „Sá er maðr hinn sami“, sagði Oddr. „Ekki er ek svá dulinn at mér“, sagði Skolli, „at ek ætla at halda til jafns við þik; nú muntu vilja vita, því ek herja á Játmund konung“. „Vel má þat“, sagði Oddr. „Þessi konungr drap föður minn hér frá landi ok marga frændr mína, enn síðan settist hann í ríkit; enn ek get nú stundum unnit helming af landinu, enn stundum þriðjung; nú þœtti mér yðr meiri frami, at snúast í lið með mér, ok dræpu vér Játmund konung, enn tœkim ríkit undir oss, því at ek mun þetta vitnum binda“. „Þá skaltu“, sagði Oddr, „fá þér átta bœndr ofan af landi til eiðafulltings“. „Svá skal vera“, sagði Skolli. Nú fór Oddr til skipa sinna, ok finnr Hjálmar ok sagði honum, at ef svá gengr, sem Skolli hafði talat, at þeir mundu snúast í lið með honum. Sofa þeir nú af um nóttina. Enn um morguninn ganga þeir á land

upp með öllu liði sínu. Þá hafði Skolli þat atsýst um nóttina, at hann var kominn af landi ofan með bœndrna, ok unnu þeir honum eiða. Eftir þat slá þeir saman liðinu ok ganga á land upp, ok fara herskildi yfir, brenna allt ok bæla, þar er þeir koma; enn landslýðrinn flýr undan ok til fundar við konung. Enn á sunnanverðu landinu finnast þeir, og lýstr þar þegar í bardaga með þeim og börðust þrjá daga; enn svá lauk, at þar fell Játmundr konungr. Enn þeir Oddr leggja landit undir sik, og sitja þar um vetrinn. Enn um vórit býðr Skolli, at gefa þeim landit; enn Oddr vill eigi þiggja: „enn þat ræð ek, at þú bjóðir Hjálmari“; enn Hjálmarr vill eigi. „Þat ræð ek þá“, sagði Oddr, at vit gefum Skolla landit“, ok hann þiggr, ok mælti svá, at þeir skyldu þar vera ávalt, er þeir vildu, hvórt sem væri vetr eðr sumar. Þeir búa nú tuttugu skip ór landi, ok er nú ekki sagt af þeira ferð fyrr enn þeir koma suðr fyrir Skíðu.

XIII. Konungar tveir eru nefndir; hét annar Hlöðvér, enn annarr Haki; þeir liggja þar fyrir með þrjá tigi skipa. Enn er þeir Oddr höfðu lagit skip sín undir land, róa at þeim tíu skip; ok er þeir finnast, eru þar engin orða áköst, því at þegar lýstr í bardaga með þeim. Þeir Oddr höfðu tuttugu skip; þar eiga þeir svá harða atlögu, at Oddr hafði þar trautt komit, at honum hafi harðfengara fyrir þótt; enn svá lauk þeiri sókn, at þeir unnu þau tíu skip. Þá tók Oddr til orða: „Allmjök hafa þessir œgðir verit í frásögnum“. „Hyggr þú þat?“ sagði Hjálmarr; „þetta vóru hlaupamenn þeira, er sendir vóru til fundar við oss“. Enn er þeir höfðu litla stund hvílzt, þá róa þar at þeim tuttugu skip undan landinu, ok þegar lýstr þar í svá harðan bardaga ok ákafan, at þeir Oddr höfðu þar hvergi komit, at

þeir hefði þvílíka menn fyrir fundit, hvórki á sjó né á landi; enn svá lýkr þeira bardaga, at báðir konungar falla og alt lið þeira; enda er svá sagt, at þeir Oddr ok Hjálmarr hefði þá eigi meira lið enn þeir sigla burt á einum aski, ok koma við sker þau, er Elfarsker heita; inn í þau sker ganga vógar, er kallaðir eru Trönuvógar; þeir sáu þar liggja tvau skip, ok var svörtu tjaldat yfir þeim báðum; þetta var öndvert sumar. „Nú vil ek“, sagði Hjálmarr, „at vér gerum eigi vart við ferð vóra, fyrir því at víkingar liggja kyrrir undir tjöldum“. „Þat má ek eigi nýta“, sagði Oddr, „at hafa eigi orð við menn þá, sem ek hitti á leið minni“. Nú kallar Oddr, og spyrr, hverr skipunum átti at ráða. Maðr sprettir skörum yfir sér, ok svarar: „Ögmundr heitir sá“. „Hvat Ögmundr ertu?“ sagði Oddr. „Hvar hefir þú þess verit, at þú hefir eigi heyrt getit Ögmundar Eyþjófsbana?“ sagði skipamaðrinn. „Eigi hefik heyrt þín getit“, sagði Oddr, „ok aldri hefik sét jafnillilegan mann, sem þú ert“. Svá var sagt frá yfirlitum þessa manns, at hann var svartr á hárslit, og hekk flóki ofan fyrir andlitit, þar sem topprinn skyldi vera, enn als ekki var að sjá til andlitsins, nema tennr ok augu; þá hefir hann átta menn með sér, er þannig vóru i yfbragði; þá bitu engi járn; þeir vóru líkari jötnum enn mönnum fyrir vaxtar sakir ok ilsku. Þá tók Ögmundr til orða: „Hverr er sjá maðr, at mik lýtir svá?“ „Sá heitir Oddr“, sagði hann. „Ertu sá Oddr“, sagði Ögmundr, „at fór til Bjarmalands fyrir löngu“. „Sá er maðrinn“, sagði Oddr, „er þar hefir komit“. „Þá er vænt um“, sagði Ögmundr, „því at ek hefi þín leitat mestan hluta ævi minnar“. „Hvat hefir þú nú mér hugat?“ sagði Oddr. „Hvórt viltu berjast á sjó eða landi?“ sagði Ögmundr. „Á sjó vil ek berjast“, sagði Oddr. Þá

taka þeir Ögmundr af sér tjöldin. Enn þeir Hjálmarr búast við í öðrum stað ok bera grjót á skip sitt. Ok er þeir vóru búnir, hvórirtveggju, tekst þar harðr bardagi, ok leggja borð við borð. Þeir áttu orrostu harða ok langa; enn er þat hafði gengit um hríð, bregðr Ögmundr upp friðskildi, ok spyrr Odd, hversu honum þœtti at fara. Hann sagði, at honum þótti illa at fara. „Því sætir þat?“ sagði Ögmundr. „Því at ek hefir ávalt áðr við menn barizt, enn nú þykkjumst ek eiga við fjándr“, sagði Oddr; „ek hjó á háls þér áðan, sem mér var hœgast með sverði því, sem ek helt á, ok tók ekki á“. Ögmundr svarar: „Þat mun mæla mega hvórr okkar við annan, at hér sé eigi síðr átt við tröll enn menn; ek hjó á háls þér, sem mér var hœgast, og hafðik þat sverð, sem aldri hefir í höggi stað numizt fyrr, og beit ekki, eðr hvórt villtu nú at vér berjumst lengr?“ sagði Ögmundr, „eðr viltu at vit skiljum, því at ek kann at segja þér, hvé fara mun bardagi vór: hér munu falla þeir fóstbrœðr Hjálmarr og Þórðr, ok lið þitt alt; þá munu ok falla allir kappar mínir, ok munu vit tveir uppi standa; enn ef vit berjumst til þrautar, þá mun ek falla fyrir þér“, sagði Ögmundr. „Eiga skal leik þenna þangat til“, sagði Oddr, „at felt er lið vórt alt ok þitt. Leggja þeir nú saman randir í annat sinn, ok berjast, þar til at þeir standa þrír uppi, Þórðr, Hjálmarr ok Oddr; þeir Ögmundr standa þá ok upp níu. Hann tók þá til orða: „Viltu nú, Oddr, at vit skiljum? því nú kalla ek jafnvegit, fyrir því at svá mun fara, sem ek sagða þér, enn þér er ætlaðr aldr miklu meiri enn öðrum mönnum; þú hefir ok skyrtu þá, at þér má ekki granda“. „Því betr þykki mér“, sagði Oddr, „sem vit skiljum fyrr, ef þú leggr eigi bleyðiorð á bak mér“. „Því mun nú eigi gott at skilja“, sagði Ögmundr, „því

nú kalla ek jafnvegit". Oddr sagðist vilja burt ór vógunum, ok svá gerðu þeir, ok lögðu undir hólm nokkurn. Oddr sagði, at þá lægi þrenn verk fyrir höndum; þat eitt, at fara á skóg ok skjóta dýr, annat at gæta skips. „Ek mun eld kveykja", sagði Hjálmarr, „ok búa til búðarverð". Oddr ferr nú á skóg, enn Þórðr geymdi skips, enn er þeir kómu aftr, var Þórðr horfinn. Þeir fara nú ok leita hans; þeir finna bátinn, þar sem hann var festr; þeir leita nú Þórðar, ok finna hann í bjargskoru einni; sitr hann þar ok er ørendr. „Þetta er svá illr atburðr", sagði Oddr, „at vit höfum eigi slíkan skaða beðit, síðan Ásmundr lézt". Þeir leita nú, hvat honum hefir at bana orðit ok finna, at undir annari hendinni stendr spjót, enn fjöðrin tók út undir annari. „Þat mun hinum illa Ögmundi þótt hafa", sagði Oddr, „at eigi hafi jafnvegit verit með oss; skulu vit nú þegar leggja út í vógana at leita þeira". Ok svá gerðu þeir, ok var Ögmundr þá allr í burtu. Þeir leituðu hans viku fulla ok fasta um sker ok um skóga, eyjar ok andnes, ok finna hann hvergi né frétta til hans. Þeir halda nú þangat sem Þórðr er, ok fœra hann til Svíþjóðar, og verpa þar haug eftir hann. Síðan fara þeir heim til Uppsala, ok segja konungi þessi tíðendi. Konungr tók við þeim báðum höndum, ok settust þeir um kyrt, enn at sumarmagni bauð konungr at þeir siti þar, „ok mun ek fá ykkr skip og lið fyrir land fram, svá þit megið skemmta ykkr".

XIV. Þat er nú af þeim Oddi at segja, at þeir búa tvau skip, ok hafa fjóra tigi manna á hvóru skipi. Þeir sigla nú fyrir land fram. Svá berr til at veðr bægir þeim, ok halda þeir at ey einni, er heitir Sámsey. Þar eru vógar þeir, er heita Munarvógar. Þeir leggja skip sín í lægi, ok tjalda yfir sér; enn þat hefir

at gengit um daginn á skipi Odds, at húsasnotra hefir í sundr gengit. Enn er morgun kemr, ganga þeir á land upp, Oddr ok Hjálmarr, at höggva sér efnitré. Hjálmarr var svá vanr at ganga, at hann hafði öll herklæði sín, þau sem hann hafði í bardögum. Oddr hafði eftir látit örvamæli sitt at skipum niðri, enn bæði hafði hann skyrtu sína dag ok nátt. Alt lið þeira var í svefni. Þeir finna eigi fyrr enn víkingar koma at þeim, ok er sá Angantýr nefndr, er fyrir þeim var. Þeir vóru tólf saman, ok vóru allir brœðr. Þeir hafa aldri fleira lið, ok höfðu þá farit víða um heim, ok fengit hvergi viðnám. Nú koma þeir at, þar er skip þeira Odds ok Hjálmars vóru. Þeir hlaupa á þá með bardaga, ok gengr þar skjótt saga frá, at þeir drepa þar hvert mannsbarn, er á skipunum var. Þá taka þeir til orða, brœðr, ok segja svá: „Þat er þó um at rœða, at eigi hefir Arngrímr, faðir vór, í annat sinn logit meir at oss, enn þá hann sagði oss þessa menn harða ok mikla víkinga, svá at ekki reisti rönd við, enn vér höfum hér svá komit, at allir hafa verst at borit sik, ok sízt dugat; ok förum heim ok drepum skítkarlinn, föður vórn, ok hafi hann þat fyrir lygi sína". „Þat er annathvórt", sögðu sumir, „at þeir Oddr ok Hjálmarr hafa mest œgðir verit, eðr hitt ella, at þeir munu vera gengnir á land upp, er veðr er gott. Nú munu vér ganga á land upp, ok leita þeira, heldr enn at fara aftr at óreyndu". Þeir gera nú svá, tólf brœðr, ok kemr nú á þá berserksgangr, ok fara grenjandi. Þá kom ok berserksgangr á Angantý, enn þat hafði aldri fyrri orðit. Þetta stenzt á, ok þeir Oddr ganga ofan ok Hjálmarr frá mörkinni. Nú nemr Oddr stað, ok stingr við fótum. Hjálmarr spyrr, hvat honum sé. Oddr mælti: „Berr fyrir mik læti kynleg; mér þykir

stundum sem griðungar gjalli, eðr hundar ýli, enn stundum er því líkt, sem grenjat sé, eðr veiztu nokkut þá menn, at þann veg sé til náttúru, at slík læti hafi". „Já" sagði Hjálmarr, „veit ek þá tólf brœðr". „Kantu nöfn þeira"? sagði Oddr. Þá varð Hjálmari ljóð á munni:

„Hervarðr og Hjörvarðr,
Hrani, Angantýr,
Bíldr ok Bagi,
Barri ok Tóki,
Tindr ok Tyrfingr,
tveir Haddingjar;
þeir í Bólm austr
bornir vóru,
Arngríms synir
ok Eyfuru.

Þá frá ek manna
meinúðgasta,
ok ógjarnasta
gott at vinna;
þeir eru berserkir
böls of fyldir,
tvau skip hruðu
tryggra manna".

Þá sér Oddr, hvar berserkirnir fara, ok varð honum ljóð á munni:

„Menn sé ek ganga
frá Munarvógum,
gunnar gjarna
í grám serkjum;
þeir hafa reiðir
rómu háða,
eru okkur skip
auð á ströndu".

Þá mælti Oddr: „Þetta kemr eigi vel við", sagði hann, „því at örvamæli mitt og bogi lá eftir við skip niðri, enn ek hefi bastøxi eina í hendi". Oddr kvað þá stöku eina:

„Þá var mér ótti
einu sinni,
er þeir grenjandi
gengu af öskum,
ok emjandi
í ey stigu,
þá frá ek firða
fláráðasta
ok örvasta
ilt at vinna“.[1]

Oddr gengr nú aftr í mörkina, ok høggr sér kylfu eina, enn Hjálmarr bíðr þar eftir, ok er hann kemr at ofan, þá koma þeir at neðan, berserkirnir. [Þá kvað Hjálmarr þetta:

„Hliðu vér
*fyrir hjaldri viðum,
þótt okkr aldri
atalt þykki;
vit skulum í aftan
Óðin gista,
tveir fóstbrœðr,
enn þeir tólf lifa“.

Þá segir Oddr:

„Ansa mun ek
einu því orði,
. . . . . . . .
. . . . . . . .
þeir skulu í aftan
Óðin gista
tólf berserkir,
enn vit tveir lifa“.[2]

Þá varð Angantý ljóð á munni:

„Ið eruð halir
harðir komnir
*seggir úr hlunnviði;
fallnir eru ykkrir

1) Sbr. Hervarar sögu.
2) Þessar tvær vísur frá [ eru teknar úr *M*.

förunautar,
ok farið i höll Viðris".

Þá kvað Oddr:

„Hér eru rekkar
reiðir komnir,
tírar lausir,
af *tveim* skipum,
traustir drengir,
ok eru tólf saman;
einn skal við einn
orrostu heyja
hvatra drengja,
nema hugr bili".

„Hverir eru þessir menn," sagði Oddr, „at vér höfum hér hitta?" „Maðr heitir Angantýr", sögðu hinir, „sá er fyrir liði ræðr; vér erum tólf brœðr, synir Arngríms jarls ok Eyfuru austan af Flæmingjalandi; enn hverr spyrr at því?" sagði Angantýr. „Hér heitir annarr Oddr, sonr Gríms loðinkinna, enn annarr heitir Hjálmarr hinn hugum-stóri". „Þá er vel á móti", sagði Angantýr, „fyrir því at ykkar höfu vit víða leitat". „Hafit þér nökkut komit til skipa vórra?" sagði Oddr. „Kvómu vér þar", sagði Angantýr, „ok er þar alt unnit oss til handa". „Hversu ætlið þit nú þá til", sagði Hjálmarr, „um fund vórn". „Ek ætla, sagði Angantýr, sem þit mæltuð til áðan, at hér skal (einn) við einn eiga ok ætla ek mér Odd, fyrir því at þú hefir skyrtu þá, at þér er því fyrir heitit, at þik skuli engi járn bíta, enn ek hefi sverð þat, er Tyrfingr heitir, ok dvergar smíðuðu, ok hétu, at hvergi skyldi í höggi stað nema, hvórt fyrir eru járn eðr steinar. Hér er skift í helminga liði, ok fara sjau í annan stað, enn ek við fimta mann; þat er líkt látit, ek einn ok Haddingjar tveir; þá kemr einn í móti Tyrfingi". Þá tekr Hjálmarr til orða: „Ek vil berjast við Angantý, því at ek hefi

brynju þá, er ek hefir aldri sár í fengit; hon er sett ferföldum hringum". „Þá gerir þú illa", sagði Oddr, „því okkr mun hlýða ef ek berjumst við Anganty, enn víst ei ella". Hverninn sem ferr", sagði Hjálmarr, „þá skal ek ráða". Þá mælti Angantýr: „Þat vil ek", sagði Angantýr, „ef nokkur vór kemst á burt heðan, þá skal enginn annan ræna at vópnum; ek vil hafa Tyrfing í haug með mér, þótt ek deyja; svá skal Oddr hafa skyrtu sína ok skeyti, enn Hjálmarr brynju sína; ok svá skilja þeir, at þeir skulu verpa haug eftir aðra, er lifa. Nú ganga þeir fyrst fram, Haddingjar tveir, enn Oddr lýstr sitt kylfuhögg hvórn þeira, ok þurfa þeir ekki fleiri. Þá rís upp hverr eftir annan, þeir er við Odd skyldu eiga, ok svá lýkr, at hann drepr þá alla, er honum vóru ætlaðir. Nú tekr Oddr hvíld. Þá stendr Hjálmarr upp, ok þar einnhverr á mót; varð skamt viðskifti þeira áðr hann fellr. Þá rís upp annarr, hinn þriði ok fjórði. Þá rís upp Angantýr, ok eiga þeir harðan ok langan atgang, enn svá lýkr at Angantýr fellr fyrir Hjálmari. Þá gekk Hjálmarr at þúfu einni, ok sezt niðr og hnígr at upp. Oddr gengr at honum, ok kvað vísu:

„Hvat er þér, Hjálmarr,
hefir þú lit brugðit,
þik kveð ek mœða
miklar undir,
hjálmr er þinn högginn,
enn á hlið brynja;
nú kveð ek fjörvi
um farit þinu;

ok hefir nú sannazt þat, ek sagði þér, at okkr mundi ei hlýða, ef þú berðist við Anganty". „Eigi er undir því", sagði Hjálmarr, „deyja skal hverr um sinn", ok kvað þetta:

„Sár hefi ek sextán,
slitna brynju,
svart er mér fyr sjónum,
sék-at ek ganga;
hneit mér við hjarta
hjörr Angantýs,
hvass blóðrefill
herðr í eitri“.

„Nú hefik þann skaða beðit“, sagði Oddr, „at ek mun aldri bœtr bíða meðan ek lifi, ok hefir nú illa gefizt þrá þitt, ok mundu vér hér mikinn sigr fengit hafa, ef ek hefði ráðit“. „Nú skaltu setjast niðr“, sagði Hjálmarr, „ok vil ek kveða ljóð nökkur, og senda heim til Svíþjóðar“. Hann kvað nú þetta:

„Fregna eigi þat
á fold konur,
at ek höggum
hlífast gerði;
hlær eigi at því,
at ek hliða gerði
snót svinnhuguð
Sigtúnum í.

Hvarf ek frá fögrum
fljóða söngvi,
ótrauðr gamans,
út með Sóta;
för skundaðek
ok fór í lið
hinsta sinni
frá hollvinum.

Leiddi mik en hvíta
hilmis dóttir
á Agnafit
utanverða;
saga mun sannast,
er hon sagði mér,
at ek aftr koma
eigi mundi.

Hvarf ek frá ungri
Ingibjörgu,
skjótt réðum þat,
á skapa dœgri;
sá mun fljóði
fastnæmr tregi,
at hon síðan mik
sér aldregi.

Ber þú til sýnis,
sá er minn vili,
hjálm ok brynju
í höll konungs;
hugr mun gangast
hilmis dóttur
er hon höggna sér
hlíf fyrir brjósti.

Átta ek á foldu
fimm ból saman,
enn ek unda þó
eigi á landi;
nú verð ek liggja
lítt megandi,
sverði undaðr,
Sámseyju í.

Drag þú mér af hendi
hring enn rauða,
ok fær hinni ungu
Ingibjörgu;
sá mun henni
hjartnæmr tregi,
at hon síðan mik
sér aldregi.

Sé ek hvar sitja
Sigtúnum í
fljóð þau, er löttu
farar mik þaðan;
gleðr eigi Hjálmar
í höll konungs
öl né rekkar
aldri síðan".

Nú vil ek ok, at þú berir kveðju mína öllum bekkjunautum okkrum, ok mun ek nefna þá á nafn:

Drukku vér og dœmdum
dœgr margt saman
Álfr ok Atli
Eymundr, Trani,
Gizurr, Gláma,
Guðvarðr, Starri,
Steinkell, Stikill,
Stórólfr, Vífill.

Hrafn ok Helgi,
Hlöðvér, Ígull,
Steinn ok Kári,
Styrr ok Áli,
Össurr, Agnarr,
Ormr ok Trandill,
Gylfi ok Gauti,
Gjafarr ok Ragnarr.

Fjölmundr, Fjalarr,
Frosti ok Beinir,
Tindr ok Tyrfingr,
tveir Haddingjar,
Valbjörn, Víkarr,
Vémundr, Flosi,
Geirbrandr, Goti,
Guttormr, Snerill.

Styrr ok Ari,
Steinn og Kári,
Vöttr, Véseti,
Vémundr, Hnefi;
vér á einn bekk
allir sátum
teitir ok reifir;
því em ek trauðr flugar.

Svarfandi, Sigvaldi,
Sæbjörn ok Kolr,
Þráinn ok Þjóstólfr,
Þórálfr ok Svalr,
Hrappr ok Haddingr,
Húnfastr, Knúi,
Óttarr, Egill
með Ingvari.

Nú vil ek þess biðja þik", sagði Hjálmarr við Odd, „at þú látir mik eigi verða lagðan í haug hjá svá illum vættum, sem berserkirnir eru, fyrir því ek þykkjumst miklu betr at mér enn þeir". „Þetta vil ek veita þér", sagði Oddr, „sem þú beiðir, því nú þykki mér, sem fast dragi at þér". „Nú skaltu draga hringinn af hendi mér", sagði Hjálmarr, ok fœra Íngibjörgu, ok seg henni, at

ek senda henni hann á deyjanda degi". Nú verðr Hjálmari hljóð á munni:

„Drekkr með jöfri
jarla mengi
öl glaðlega
at Uppsölum;
mœðir marga
mungát fira,
enn mik eggjar spor
í eyju þjá.
Hrafn flýgr sunnan
af hám meiði,
ok er eftir þar
örn í sinni;
þeim gef ek erni
efstum bráðir;
sá mun á blóði
bergja mínu".

Ok eftir þat dó Hjálmarr. Oddr dró þá saman berserkina í eina kös, ok sveigði þar at utan viðu. Þat var skamt frá sjó; þar leggr hann hjá þeim vópn þeira ok klæði, rænandi þá øngvum hlut; síðan bar (hann) þá at utan torf, ok eys eftir þat sandi. Síðan tekr hann Hjálmar, ok leggr á bak sér, gengr til sjóvar ofan, ok lætr hann niðr á ströndinni, enn hann gengr út á skipin, berr þá á land hvern mann, er fallit hafði, ok verpr þar annan haug eftir lið sitt, ok er þat sagt af þeim mönnum, er þar hafa komit, at enn sjái þess merki í dag, er Oddr gerði þá.

XV. Eftir þetta leggr Oddr Hjálmar á skip út ok flyzt undan landi. Þá verðr Oddr at taka til iþróttar sinnar, þeirar er honum var léð, dregr segl upp í logni ok siglir heim til Svíþjóðar með Hjálmar dauðan. Hann tók þar land, sem hann kaus á. Hann dregr upp skip sitt, enn leggr Hjálmar á bak sér, ok gengr heim til

Uppsala með hann, ok lætr hann niðr fyrir hallardyrum. Hann gengr inn í höllina, ok hefir brynju Hjálmars í hendi sér, ok svá hjálm hans, ok leggr niðr á hallargólfit fyrir konungi, ok sagði honum tíðendi þau sem gerst höfðu. Síðan gekk hann þangat er Ingibjörg sat í stóli. Hon saumaði Hjálmari skyrtu. „Hér er hringr“, sagði Oddr, „at Hjálmarr sendi þér á deyjanda degi, ok kveðju sína með“. Hon tekr við hringnum ok lítr á, enn svarar øngu. Hon hnígr þá aftr í stólsbrúðunum, ok deyr þegar. Þá skellir Oddr upp ok hlær, ok mælti þetta við: „Eigi er þat fleira um hríð, at vel hefir at farit, þá skal því fagna; nú skulu þau njótast dauð, er þau máttu eigi lífs“. Oddr tekr hana upp ok berr hana í faðm sér, ok leggr í faðm Hjálmari fyrir hallardyrum, ok gerir menn inn í höllina eftir konungi ok bað hann sjá, hversu hann hafði um búit. Eftir þetta fagnar konungr honum vel, ok setr Odd í hásæti hjá sér. Enn þegar hann hafði hvíld tekit, þá sagði konungr, at hann vill láta at erfi fá eftir þau Hjálmar ok Ingibjörgu, ok verpa haug eftir þau. Konungr lætr svá alla hluti gera sem Oddr sagði fyrir. Þá er fram borinn hjálmr ok brynja, er Hjálmarr hafði átt, ok þykkir mönnum mikils vert um afrek hans, ok hvé mikit honum hafði til fjörs verit, ok nú eru þau lagin bæði í einn haug; gengu allir menn at sjá þetta þrekvirki, ok lét Oddr þetta gera með mikilli virðingu. Nú sitr Oddr í kyrðum þann vetr með Hlöðvé konungi, enn um vórit fær konungr honum lið ok tíu skip, ok ferr nú Oddr um sumarit at leita Ögmundar Eyþjófsbana á nýrra leik ok fann hann hvergi.

XVI. Svá bar til um haustit, at Oddr kom til Gautlands; þar spyrr hann til víkings þess, er Sæmundr heitir. Honum var sagt frá, at hann var torsóttari enn aðrir menn; hann hafði hálfan sétta tug skipa. Þar

kómu þeir Oddr með tíu skip, ok þegar er þeir finnast þá lýstr þar í bardaga svá langan ok harðan, at eigi skorti; enn svá lauk um kveldit, at hroðin eru öll skip fyrir Oddi, ok hann stóð upp einn manna. Þá støkkr Oddr fyrir borð, er nálega er myrkt orðit; þat sér einn maðr, at hann legst frá skipunum; hann þreif upp gaflak eitt, ok skutu þeir eftir honum; þat kemr í kálfa Odds, svá at í beini stóð. Honum kemr í hug, hvar hann var staddr, at hann mundi á flótta kominn vera; hann lagðist þá aftr at skipunum, enn víkingar sáu Odd, ok kippa honum upp í skipit. Sæmundr bað þá láta koma fjötr á fœtr honum, bogastreng á hendr. Svá var gert, sem hann mælti fyrir. Nú sitr Oddr í fjötrunum, ok (eru) fengnir til tólf menn at vaka yfir honum, enn Sæmundr lætr sik flytja til lands, ok lætr tjalda yfir sér. Þá mælti Oddr við þá, er til vóru fengnir at vaka yfir honum: „Hvórt vilið þér, at ek skemta, eða vilið þér skemta, er svá er dauflegt?“ „Oss þœtti“, sagði sá er fyrir þeim er, „sem þér sé lítt til gamans hagat; þú ert í fjötrum, enn ætlaðr til dráps á morgun“. „Ekki kvíði ek því“, sagði Oddr; „deyja skal hverr um sinn“. „Þat kjósum vér þá, at þú skemtir“, segja þeir. Hann kveðr þeim kvæði, ok léttir eigi fyrr enn þeir eru sofnaðir allir. Þá fór Oddr þangat til, er øx lá á þiljunum; hann getr snúit henni svá, at eggin horfir upp; þá snýr hann þar við herðunum, enn gnýr við höndunum til þess er hann varð lauss; þá hefir hann hendr at fjötrinum, ok fœrir hann af sér; ok sem hann er lauss, þykkir honum skör rýmra. Nú gengr hann þangat er þeir sofa, ok stingr á þeim øxarskaftinu ok bað þá vakna, „því þér sofið sem snápar, enn bandinginn er lauss orðinn“. Síðan drap hann þá alla, tekr síðan örvamæli sitt, ok stígr á bát ok flyzt til lands. Síðan gengr hann til skógar, ok dregr

gaflakit úr fœti sér ok bindr um sár sitt. Nú er at segja frá Sæmundi, at hann vaknar í tjaldinu, ok gerir menn út til skipanna, þar er varðmennirnir vóru, ok var Oddr í burtu enn drepnir allir varðmennirnir, ok þykkjast þeir sakna vinar í stað, ok segja Sæmundi þessi tíðendi, ok ferr hann nú hvervetna um Gautland, at leita Odds, enn Oddr ferr í öðrum stað, at leita Sæmundar. Þat verðr einn morgin snemma, at Oddr kemr fram ór mörkinni; hann sér tjöld Sæmundar á landi, enn skipin flutu á höfninni. Hann snýr aftr í mörkina, ok høggr sér kylfu eina, gengr síðan ofan at tjaldinu, ok fellir þat ofan á Sæmund ok hans menn, drepr hann þar Sæmund ok þá fimtán saman. Síðan gerir hann þeim tvó kosti, er á skipunum vóru, at þeir skulu ganga á hönd honum, ok gerist hann höfðingi þeira, ok þann kjósa þeir. Siglir Oddr nú heim til Svíþjóðar, ok hefir þó lítit lið, ok sitr þar þann vetr.

XVII. Þá gerir Oddr sendimenn norðr til Hrafnistu, ok biðr þá liðs frændr sína, at þeir kœmi norðan um vórit, Guðmundr ok Sigurðr. Þeir verða vel við, ok fara til fundar við Odd, ok er þeir finnast, verðr þar fagnafundr. Nú búa þeir skip sín ór landi, ok halda suðr í lönd, ok þar sem grunnsævi var mikit, fyrir því at þangat hafði Oddr áðr sízt haldit. Herja þeir nú suðr um Valland, Frakkland ok Helsingjaland; þar reka þeir mikinn hernað. Er nú ekki sagt af ferð þeira, fyrr enn þeir brjóta skipin við eitthvert land. Þar ganga þeir á land með lið sitt. Sem þeir kvómu á landit, þá sáu þeir hús fyrir sér; þat var nökkut með öðrum hætti gert enn þau er þeir höfðu áðr sét. Þangat gengu þeir til hússins. Þat var gert af steini ok opit. Oddr mælti: „Hvat ætlar þú, Sigurðr, hvat hús þetta muni vera, er vér erum at komnir?“ „Eigi má ek þat vita“,

sagði hann; „enn hvat ætlar þú, Oddr frændi?“ „Eigi veit ek“, sagði hann, „enn þess get ek, at menn byggi húsit, ok munu hingat vitja, ok skulu vér ekki inn ganga at svá búnu“. Þeir setjast niðr í einhverjum stað úti hjá húsinu, enn er stund leið, sjá þeir at menn drífa til hússins, ok þat með, at þar fylgja læti, þau er þeir hafa aldri þvílík heyrt. „Þat ætla ek“, sagði Oddr, „at hér sé allkynlegir menn á þessu landi; skal hér nú bíða, til þess er menn ganga frá húsinu“. Þat fór svá sem Oddr gat, at þetta líðr af, ok drífa menn frá húsinu. Einn af liði þeira landsmanna gengr þangat sem þeir Oddr sátu, ok mælti: „Hverir eru þessir?“ Oddr segir honum et sanna, „eðr hvat land er þat, er vér erum á komnir?“ Sá sagði, at þat heitir Aqvitania. „Enn hvat táknar hús þetta, er þér hafið at staðit um stund?“ „Þetta köllum vér ýmist musteri eða kirkju“. „Enn hvat látum er þat, er þér hafið haft?“ „Þat köllum vér tíðagerð“, sagði landsmaðr; „enn hvern veg er farit um ráð yðvart, ok hvórt eruð þér heiðnir til lykta“. Oddr svarar: „Vér vitum alls ekki til annarar trúar, enn vér trúum á mátt vórn ok megin, enn ekki trúum vér á Óðin, eðr hverja trú hafi þér?“ Landsmaðr sagði: „Vér trúum á þann, er skapat hefir himin ok jörð, sjóinn, sól ok tungl“. Oddr mælti: „Sá mun mikill, er þetta hefir alt smíðat, þat hyggjumst ek skilja“. Nú var þeim Oddi fylgt til herbergis. Þar eru þeir Oddr vikur nokkurar, ok eiga málstefnur við landsmenn. Þeir leita eftir við þá Odd, ef þeir vildu taka við trú, ok þar kom at þeir Guðmundr ok Sigurðr tóku trú; var þá leitat eftir við Odd, ef hann vildi við trú taka. Hann kveðst mundu gera þeim á því kost: „Ek mun taka sið yðvarn, enn hátta mér þó at sömu sem áðr; ek mun hvórki blóta Þór né Óðin eðr önnur skurðgoð,

enn ek á ekki skap til, at vera á þessu landi; því mun ek flakka land af landi, ok vera stundum með heiðnum mönnum, enn stundum með kristnum"; er þat þó afráðit, at Oddr er skírðr; eru þeir þar um hríð. Eitt sinn leitar Oddr eftir við þá Guðmund ok Sigurð, ef þeir vildi fara á burt. Þeir segja: „Hér höfu vér svá verit, at oss hefir bezt þótt". „Þá er hér tveimr tveggja hugr", sagði Oddr, „at ek hefir hér svá verit, at mér hefir leiðast orðit". Sem hann fær ekki leyfi af frændum sínum, leynist hann í burt einnsaman, enn þeir eru eftir með öllu liðinu. Ok sem hann kemr burt frá borginni, sér hann fara flokk manna á móti sér. Þar ríðr einn maðr, enn aðrir ganga. Þetta lið var skrautlega búit, ok var engi maðr vópnaðr. Oddr stóð hjá götunni, enn liðit ferr hjá honum, ok mæla hvórigir við aðra. Þá sér Oddr hvar hlaupa fjórir menn; þeir höfðu allir skálmir í höndum; þeir hlaupa at þeim manni er reið, ok höggva af honum höfuðit. Síðan hlaupa þeir aftr hjá Oddi hina sömu leið, ok hefir einn í hendi höfuðit af þeim manni, er drepinn var. Þat þykkist Oddr vita, at þetta muni harðla ilt verk, er þessir menn hafa unnit. Nú hleypr Oddr eftir þeim, ok eltir þá, enn þeir hlaupa undan til skógar ok þar í jörð niðr í jarðhús nökkut. Oddr hleypr eftir þeim í jarðhúsit; þar veita þeir viðnám, enn Oddr sœkir at þeim; eigi léttir hann fyrr, enn hann drepr þá alla. Síðan tekr hann höfuð af þeim, ok hnýtir saman hárin, gengr út síðan, ok hefir með sér höfuðin, ok svá þat höfuð, er þeir höfðu þangat haft. Oddr ferr nú aftr til borgarinnar. Þá vóru hinir komnir til kirkju með lík þess, er drepinn var. Oddr kastar þá inn í musterit höfðunum, ok mælti: „Þar er nú höfuðit af þeim, er drepinn var fyrir yðr, ok hefik hefnt hans".

Þeim þótti mikils um þetta vert, er Oddr hafði unnit. Oddr spurði, hvat manna þat hefði verit, er hann hafði hefnt. Þeir sögðu, at þessi maðr var biskup þeira. Oddr mælti: „Þá mun þetta betr unnit enn eigi“. Svá hafa þeir nú á Oddi mikla vörðu, at þeir vilja at øngvum kosti, at hann fari á burt. Enn svá sem honum hafði áðr leitt orðit, at vera þar, þá jók nú stóru við, er hann fann at þeir heldu vörð á honum, ok sitr nú um þat eitt, at komast í burtu. Þar kom enn, at hann leynist á burtu á einni nótt. Hann ferr nú land af landi, ok kemr um síðir út til Jórdanar. Þar fór hann af öllum klæðum ok skyrtu sinni. Síðan ferr hann í ána, ok þvær sér sem honum líkar. Þá ferr hann af ánni, ok í skyrtu sína, ok helt hon öllum kostum sínum sem áðr. Nú ferr hann þaðan á burt, ok hefir örvamæli sinn á baki sér. Þá ferr hann enn land af landi. Þar kemr nú ráði hans, at hann verðr svá staddr á mörkum úti, at hann hefir ekki annat til atvinnu, enn hann skýtr dýr til matar sér eðr fugla, ok ferr svá fram um hríð.

XVIII. Svá er sagt, at Oddr gekk einn dag fram á björg nökkur ok gljúfr stór, þar sem móða mikil fell í straumum með miklum hávaða. Hann hugði at, ef nökkurr mætti yfir komast, ok sá hann þat hvergi. Hann sezt nú niðr, ok sem hann hafði eigi lengi þar verit, er hann gripinn upp vóveiflega; var þar kominn gammr atfljúgandi ok hremdi Odd með klóm sínum svá hart, at hann gat øngri vörn í móti komit. Þetta kvikendi fló með Odd yfir mörg lönd ok höf; enn um síðir flýgr gammrinn at flugabjörgum, ok settist í eina tó, er var í björgunum. Vóru þar fyrir ungar þessa kvikendis. Hann lét nú Odd lausan, ok var hann heill ok ósakaðr, því at honum hlífði skyrta hans, bæði við klóm þessa

gamms ok öllu því, sem áðr hefir sagt verit. Nú er Oddr hjá ungum gammsins í bœlinu; var þar hátt bjarg fyrir ofan, enn flugsjór var undir niðri; mátti Oddr með øngum hætti á burt komast, nema láta fallast ofan á sjóinn, ok hætta svá lífi sínu; landtaka var ok hvergi nær, því at hann sá fyrir hvórnigan enda á björgunum. Ungarnir vóru lítt stálpaðir. Gammrinn var sjaldan heima í bœlinu, ok leitaði hann jafnan matfanga. Oddr múlbindr nú ungana, enn felr sik í bjargskorunni hjá bœlinu. Gammrinn berr at þess fleiri fiska ok fugla ok mannahold, ok af alls konar dýrum ok fénaði. Þar kemr um síðir, at hann berr þangat soðit kjöt. Enn þegar gammrinn ferr í burtu, tekr Oddr til matar, enn felr sik þess á milli. Einn dag sér Oddr at jötunn mikill rœr á steinnökkva þangat at bœlinu; hann er hátalaðr, ok mælti: „Illr fugl er þat, sem hér á bœli, því at hann venst á, dag eftir dag, at stela burtu kjöti mínu nýsoðnu; skal ek nú leita við at hefna honum nökkuru; ætlaði ek þá annat, er ek tók yxnin frá konungi, enn fugl þessi skyldi hafa þau“. Oddr stendr þá upp ok drepr ungana, enn kallar á jötuninn: „Hér er alt þat, er þú leitar at, ok hefir ek varðveitt þat“. Jötuninn gengr upp í bœlit ok tekr kjöt sitt, ok berr á nökkvann. Jötuninn mælti: „Hvar er kögrbarn, er ek sá hér, gangi þat fram óhrætt, ok fari með mér“. Oddr sýnir sik nú, ok tók jötuninn hann, ok lét út í nökkvann. Hann mælti þá: „Hversu skulu vit drepa þessa meinvætti?“ Oddr svarar: „Tak þú eld ok legg í bœlit, ok er gammrinn kemr aftr, þœtti mér vera mega, at hann flygi svá nær, at eldrinn hlypi í fiðrit, ok munu við þá fá sigrat hann“. Þetta fór eftir því sem Oddr gat, ok unnu þeir gamminn. Oddr hjó af honum nef ok klœr ok hafði með sér, ok stígr út á nökkvann ok

rœr jötuninn á burtu. Oddr spyrr hann at nafni, enn hann kveðst Hildir heita, ok vera risi einn af Risalandi, ok eiga konu þá, er Hildiríðr heitir, ok með henni eina dóttur, er Hildigunn heitir; „svá á ek son, er Goðmundr heitir, ok var fœddr í gær. Vér erum þrír brœðr; heitir einn Úlfr, enn annarr Ylfingr; höfu vér sett þing at sumri, ok skal sá vera konungr af oss yfir Risalandi, er mest þrekvirki hefir unnit ok ólmastan hund á, ok skal þar etja á þinginu". Oddr mælti: „Hvat hyggr þú, hverr yðvar þat muni hljóta, at verða konungr". Hildir svarar: „Víst þykki mér, at þeir muni þat hljóta, því at ek hefir alla ævi síztr verit af oss, ok svá mun enn vera". Oddr mælti: „Hvórt mundir þú kjósa, hvat þinn hagr yrði um þetta mál". Hildir svarar: „Þat kjöra ek, at verða konungr, enn þat er þó harðla ólíklegt, því at Úlfr á þann varg, at hvervetna er grimmari, ok enginn hundr þolir við hann at bítast; Úlfr hefir drepit þat dýr, er tigris heitir, ok hefir þar til vitnisburðar höfuð dýrsins; enn Ylfingr bróðir minn er þó torveldari, því at hann hefir þann hvítabjörn, at øngu eirir; Ylfingr hefir ok drepit dýr þat, er unikornius heitir, enn ek hefir eigi þvílík verk at sýna hér í mót, ok øngvan hund þann at við þeim megi". „Vel þykki mér þú segja", sagði Oddr, „enn fást mundi hér mega nökkur ráð til, þau at dygði, ef maðr væri velviljaðr". Hildir mælti: „Ekki barn jafnlítit hefik fundit hortigra enn þik, né ráðugra, því mér þykkir svá mega at kveða, at þú sért ekki nema vitit eitt, ok þykki mér í þér hin mesta gersemi, hversu kofrmálugr þú ert, ok skal ek fœra þik Hildigunni, dóttur minni, ok skal hún hafa þik fyrir leiku ok fóstra þik ok fœða þik upp jafnfram Goðmundi syni mínum". Eftir þat settist Hildir til ára, ok røri heim til Risalands, ok

þótti Oddi fádœmi hversu nökkvinn gekk. Enn er hann kom heim, sýndi hann barn þat, er hann hafði fundit, ok biðr dóttur sína gæta sem síns barns, ok eigi verr. Enn er Hildigunn tók við Oddi ok hann stóð hjá henni, tók hann henni tæpt í mitt lær, enn þó hafði Hildir allan vöxt yfir hana, eftir því sem karlmanni heyrði. Enn er Hildigunn tók Odd upp ok setti hann í kné sér, þá snøri hon honum fyrir sér, ok mælti:

„Tuttr litli,
ok toppr fyrir nefi!
meiri var Goðmundr
í gær borinn“.

Hon leggr hann þá í vöggu hjá risabarninu, ok kvað yfir þeim barngœlur, ok gerði vel við hann, enn er henni þótti hann óspakr í vöggunni, lagði hon hann í sæng hjá sjer, ok vafðist utan at honum, ok kom þá svá, at Oddr lék alt þat, er lysti; gerðist þá harðla vel með þeim; sagði Oddr henni þá, at hann væri ekki barn, þótt hann sé minni enn þeir menn, er þar eru fœddir. Enn því fólki er svá háttat, at þat er miklu stœrra ok sterkara enn nokkur kind önnur; vænni eru þeir ok enn flestir menn aðrir ok ekki vitrari. Þar er Oddr um vetrinn, enn um vórit spurði hann Hildi, hversu góðr hann mundi þeim manni, er honum vísaði til hunds þess, er af bæri hundum brœðra hans. Hildir svarar: „Allgóðr skylda ek þeim, eða kantu nökkut til þess at vísa“. Oddr mælti: „Vísa má ek þér þar til, enn þú skalt sjálfr taka hann“. Hildir svarar: „Ek skal ná honum, enn þú kom honum í augsýn mér“. Oddr mælti: „Þat dýr liggr í Vargeyjum, er kallaðr er híðbjörn; sú er náttúra á honum, at hann liggr allan vetr í dái, enn at sumri stendr hann upp, ok er þá svá gráðugr ok grimmr, at hann eirir hvórki fé né mönn-

